W. L. WATTS

# NORÐUR YFIR VATNAJÖKUL 1875



JÓN EYÞÓRSSON

ÍSLENZKAÐI

# Norður yfir Vatnajökul

eða

## Um ókunna stigu á Íslandi

EFTIR

WILLIAM LORD WATTS

JÓN EYÞÓRSSON
*sneri á íslenzku*




REYKJAVÍK - BÓKFELLSÚTGÁFAN H/F - 1962

*Bókin heitir á frummálinu*

ACROSS THE VATNA JÖKULL

or

SCENES IN ICELAND

Being a Description of hitherto unknown Regions

*Bók þessi er tileinkuð íslenzkum vinum mínum*

W. L. WATTS

PRENTSMIÐJAN ODDI H.F.

# EFNI



# MYNDASKRÁ

Ýmsar myndir hafa verið fengnar hér að láni úr gömlum ferðabókum, helzt á tímabilinu 1860—1880. Er nafn bókarhöfundar prentað við hverja slíka mynd. Hér á eftir eru bókaheiti nánar tilgreind.

NÝJAR MYNDIR:



GAMLAR MYNDIR:

Baring-Gould, Sabine: Iceland, London 1863.

## Um bókina og höfundinn.

*I*

*Í þessari bók segir frá fyrstu för, sem með fullri vissu hefur farin verið, yfir Vatnajökul þveran. Þetta gerðist árið 1875, er full þúsund ár töldust liðin frá upphafi Íslands byggðar.*

*Munnmæli herma, að Norðlendingar hafi fyrr á öldum gengið suður yfir Vatnajökul, er þeir fóru til sjóróðra í Hornafjörð eða Suðursveit. Lítill vafi er á því, að ungir og sporléttir vermenn hafi farið yfir jökul til þess að stytta sér leið, en engar skráðar heimildir eru til frá þeirra hendi eða samtíðarmanna. Verferðir þessar lögðust með öllu niður, að talið er, eftir stórkostlegt sjóslys veturinn 1575.*

*Íslendingar hafa því nær allir verið bændur eða sjómenn frá upphafi vega og fram á þessa öld. Þeir hlutu svo oft harða útivist við dagleg störf, að engin von var til þess, að þeir legðu á sig að nauðsynjalausu ferðir um fjöll og firnindi.*

*Það er því vel skiljanlegt, að erlendir menn yrðu fyrstir til að gera ferð sína yfir Vatnajökul. Fimm fyrstu ferðirnar yfir jökulinn voru farnar á árunum 1875—1933.*

*Fyrsta ferðin var gerð sumarið 1875. Fyrir henni var*

*W. L. Watts, höfundur þessarar bókar. Fylgdu honum fimm Íslendingar.*

*Aðra ferðina fóru tveir Skotar, J. H. Wigner og T. S. Muir, árið 1904. Þeir komu norðan að og gengu suðvestur yfir jökul að Núpsstað.*

*Þriðju ferðina fór J. P. Kock höfuðsmaður, vorið 1912, norðan af Brúarjökli suður í Esjufjöll. Var það reynsluför með hesta, áður en lagt var upp á Grænlandsjökul.*

*Fjórðu ferðina gerðu þrír ungir menn úr Hornafirði sumarið 1926, þeir Helgi Guðmundsson í Hoffelli, Unnar Benediktsson og Sigurbergur Árnason. Lögðu þeir leið sína upp Hoffellsjökul og norður af Dyngjujökli — eins og Watts. Þá gengu þeir þvert yfir Ódáðahraun í Öskju og síðan að Svartárkoti. Fóru sömu leið til baka.*

*Í fimmta skipti var farið þvert yfir Vatnajökul sumarið 1932. Sex stúdentar frá Cambridge undir forustu Brian Roberts fóru úr Suðursveit norður að Kverkfjöllum eystri og sömu leið til baka.*

*Síðsumars 1919 fóru tveir sænskir fræðimenn, H. Wadell og E. Ygberg upp Skaftárjökul og austur á Heinabergsjökul. Komu þeir fyrstir manna, svo vitað sé, að Grímsvötnum. Var för þeirra bæði djarfleg og torsótt, þótt eigi færu þeir um jökul þveran.*

*Eftir Grímsvatnagosið 1934 fjölgaði mjög ferðum um Vatnajökul, og verða þær ekki raktar hér.*

## *II*

*William Lord Watts, höfundur þessarar bókar, var fæddur 1851. Faðir hans var prentari og prentsmiðjueigandi í Crown Court eða prentsmiðjuhverfinu við Temple Bar*

*í Lundúnum. Það er nálægt Sankti Páls dómkirkju, enda var sonurinn tekinn í Sankti Páls skóla 20. júní 1861, 10 ára gamall, og var þar við nám til 14 ára aldurs að minnsta kosti. Hann deyr 1877, aðeins 26 ára gamall.*

*Þetta er stutt ævisaga og snubbótt, en þrátt fyrir ýtarlega leit, sem The British Council hefur látið framkvæma fyrir vinsamlega tilhlutun Brezka sendiráðsins í Reykjavík, hefur ekki annað né meira komið í ljós um æviferil W. L. Watts. Auk þess má hafa það eftir tveim brezkum ferðabókahöfundum, sem hittu Watts hér á landi 1875, að hann hafi lagt stund á laganám.*

*W. L. Watts gerði þrjár ferðir til Íslands, hina fyrstu 1871, tvítugur að aldri. Hann var þá í fylgd með brezkum jarðfræðingi, J. Milne, sem einkum er kunnur fyrir rannsóknir á jarðskjálftum. Fátt er vitað um ferðir þeirra, en ferðabók Watts við árið 1874 ber með sér, að þeir hafi komizt austur í Fljótshverfi og gengið á jökul hjá Grænalóni. Í þeirri ferð hefur Watts eflaust fengið þá hugmynd að komast norður yfir Vatnajökul.*

*Sumarið 1874 kemur hann í annað sinn til Íslands með þrjá förunauta, sem hann nefnir þó aldrei fullu nafni í ferðabók sinni, aðeins W—, S— og C—, en í Þjóðólfi, 11. júní 1874 er þess getið, að daginn áður hafi komið með póstskipinu Díönu séra John Wynne, hr. G. Seymour, W. L. Watts og dr. Cliton, „hinir ötulustu menn; ætla að skoða Vatnajökul.“*

*Þetta sumar hitti Watts Pál Pálsson, sem síðar var kallaður „jökull“, og fékk hann til fylgdar á Vatnajökul ásamt tveimur öðrum Skaftfellingum. Þeir fundu Pálsfjall í Vatnajökli og komust langt norður á jökul, en urðu að*

*snúa við á sléttunni norðvestan við Grímsvötn sakir illviðris og matarleysis. — Um þessa för ritaði Watts bókina Snioland or Iceland, its Jökulls and Fjalls, og er efni hennar stuttlega rakið hér á eftir.*

*Ferðalýsingin ber það með sér, að mjög lítið hefur skort á, að Watts fyndi sjálfan leyndardóm Vatnajökuls: Grímsvötn, og jafnframt gosstaðinn 1872/73, sem hann var að leita að.*

*Sumarið 1875 kom Watts í þriðja og síðasta sinni til Íslands og þá einn síns liðs. Þá komst hann norður yfir Vatnajökul við sjötta mann, og er sú ferðasaga sögð hér á eftir, eins og Watts hefur lýst henni í bók sinni, Across the Vatna Jökull, London 1876.*

*Frá ferðum Watts er allýtarlega sagt í Þjóðólfi, 26. og 27. árg., en ritstjóri var þá Matthías Jockumsson.*

*Í síðustu för sinni fékk Watts mikil erfiðislaun. Hann komst yfir Vatnajökul, varð sjónarvottur að Öskjugosi og eldgosum á Mývatnsöræfum. Hann gekk upp á fjallið austan Öskjuvatns (sem þá var raunar ekki orðið til) og mun hafa komið fram á gígbrúnina nálægt 1381-metra fellinu. Mætti það vel bera nafnið Vattarfell. — Einnig gekk hann fyrstur manna á Trölladyngju.*

### *III*

*Þorvaldur Thoroddsen kemst svo að orði um Watts í Ferðabók I, 271: „Á öllu ferðalagi sínu sýndi Watts frábæran dugnað og þrek, og ferðasaga hans er mjög skemmtilega skrifuð. Hann hefur óvanalega vel kynnt sér siði og háttu Íslendinga og ber þeim vel söguna.“*

*Richard F. Burton, hinn harðsnúni og fjölvísi brezki*

*ferðalangur, segir í ferðabók sinni, að ungur laganemi, Mr. Watts, frá Middle-Temple, hafi gert djarflega, en árangurslausa tilraun til þess að kanna Vatnajökul sumarið 1871. Nú hafi hann gert nýjar tilraunir (1874 og 1875), og eigi hann skilið að hljóta erfiðislaun fyrir áræði sitt og hugprýði (Ultima Thule, Vol II, 232/33, London 1875).*

*Charles G. Warnford Lock, það er „Brennisteins-Loki", sem kallaður var, minnist Watts á þessa leið: „Á Héðinshöfða hitti ég Mr. Watts. ungan lögfræðing, hraustlegan og vasklegan. Þessi ævintýrafúsi landkönnuður var ágætlega til þess fallinn að þola erfiði og skort á 12 daga ferð í fönn og frosti og þoku, enda bætti hann fjórum dagleiðum við, er hann þrammaði um óhugnanlega eyðisanda og hraun. Verður hann vart um of lofaður fyrir hreysti sína og þol (The Home of the Eddas, London 1879).*

*Enda þótt Watts væri ungur að árum og ekki sérmenntaður náttúrufræðingur. er hann um margt glöggur á það, sem fyrir augun ber. Hann hefur vísindalegan metnað og hneigð til rannsókna, þótt ferðir hans væru fyrst og fremst til þess að drýgja dáðir fjallgöngumanna. —*

*Það leynir sér ekki í ferðabókum Watts, að náttúra Íslands hefur orkað mjög sterkt á hann. Hann á vissulega ekki alltaf tiltæk orð til þess að láta í ljós aðdáun sína og lotningu og getur þá orðið í langorðara lagi. —*

*Watts hefur verið maður ljúfur í umgengni og alþýðlegur í orðsins beztu merkingu. Hann ber fylgdarmönnum sínum vel söguna, og þeir „orðlögðu vaskleik hans og hugrekki" (Ísafold 6. sept. 1875).*

*Í bréfi til ritstjóra Þjóðólfs, ds. 1. sept. 1875, segir hann svo: „Með ánægju tek ég pennann til þess að efna orð mitt*

*og gefa yður stutta skýrslu um ferð vora yfir Vatnajökul. Og þar sem ég segi v o r a, en ekki m í n a, þá mæli ég af heilum hug, — — — — því að ég tala um mína fimm í s l e n z k u félaga eins og sjálfan mig. — Því bið ég alla að gæta þess, að hvernig sem þeir meta för vora, ber mér ekki meiri orðstír en þeim, hinum hraustu drengjum, sem fylgdu mér og reyndu með mér háska og mannraunir.*

*Í förinni voru auk mín herra Páll Pálsson frá Vestmannaeyjum, Kristófer Þorvaldsson frá Fossi á Síðu, Olgeir Þorsteinsson frá Króki í Meðallandi, Eyjólfur Bjarnason frá Hörgsdal og Sigurfinnur Ketilsson frá Bólstað í Mýrdal. Þeir voru á aldrinum frá 21—28 ára.“*

## *IV*

*Af ferðalýsingu Watts er auðsætt að hann hefur sett mest traust á Pál Pálsson, enda mun hann einn hafa verið enskumælandi í hópi fylgdarmanna. Það lýsir Watts vel, að hann lætur hrafntinnuskerið í Vatnajökli heita eftir Páli en ekki sjálfum sér. — Páll var oftast kallaður j ö k u l l eftir Vatnajökulsförina, en sjálfur ritaði hann sig j ö k u l f a r a.*

*Páll var fæddur 17. ágúst 1848 í Hörgsdal á Síðu, sonur Páls snikkara Pálssonar prófasts, á Prestsbakka, og konu hans Guðrúnar Guðjónsdóttur (systur Péturs Guðjohnsens organista). Föðurbróðir Páls jökulfara var séra Páll Pálsson á Prestsbakka (1869/77) og síðar í Þingmúla, kunnur gáfu- og mælskumaður. Hálfbróður átti hann (samfeðra), er einnig bar Pálsnafnið og bjó langan búskap í Hlíð undir Eyjafjöllum. Annan hálfbróður átti hann (sammæðra), Pétur Sæmundsen verzlunarstjóra á Blönduósi (1841—1915).*

*Alsystir Páls jökuls var Guðlaug húsfreyja að Hrólfsskála á Seltjarnarnesi við Reykjavík.*

*Páll lærði undir skóla hjá Páli, föðurbróður sínum, og var tekinn í lærða skólann 1866, en hætti námi eftir fjögur ár. Mun hafa gerzt barnakennari og kennir fyrir víst í Vestmannaeyjum veturinn 1873/74, en flyzt þaðan 1875. Hann hitti Watts af tilviljun á Prestsbakka sumarið 1874 og réðst þegar til ferðar með honum. Frásögn Watts ber það með sér, að honum hefði reynzt ókleift að koma ferðinni á, ef hann hefði ekki notið röskleika Páls og liðveizlu.*

*Í Þjóðólfi stendur lítil fréttaklausa 2. sept. 1875: „Mr. Watts og félagi hans, Páll Pálsson, eru komnir að norðan og ætla utan með póstskipinu." Veit ég að sönnu ekki, hvort Páll hefur farið utan eða eigi, en sumarið eftir er hann kominn í fylgd með Ch. G. W. Lock (Brennisteins-Loka) að Reykjahlíð á leið í Dyngjufjöll (Í Ferðabók Þ. Th. IV, 137, segir ranglega W. G. Lock, þ. e. Hreindýra-Loka).*

*Þá um haustið gengur Páll að eiga Önnu Ingibjörgu Sigbjarnardóttur prests að Kálfafellsstað og Oddnýjar Friðrikku Pálsdóttur prests í Sandfelli Thorarensens. Í brúðkaupinu flutti séra Jón prófastur að Stafafelli kvæði. Þar í er þetta:*

*Hann er víðförull nóg, því með Vetti hann fló*
*yfir vindkaldar hrímþursa slóðir;*
*og um láðið gervallt, bæði logheitt og svalt*
*hefur leiðirnar kannað vor bróðir.*

*Frú Ingunn Jónsdóttir frá Kornsá var í brúðkaupi Páls og hefur lýst því skemmtilega í bók sinni: Gömul kynni, Akureyri 1946, 203.—213. bls.*

*Næstu sex ár eftir búa þau hjónin á þremur jörðum,*

*fyrst á Brunnum í Suðursveit, þá í Hraunkoti í Lóni og loks á Skálafelli í Suðursveit. Árið 1882 setjast þau að á Vestdalseyri í Seyðisfirði og eru þar til heimilis unz Anna deyr 25. nóv. 1897. Mun Páll hafa haft ofan af fyrir sér og sínum með ferðamennsku að sumrinu og barnakennslu á vetrum. Eftir andlát húsfreyjunnar leysist heimilið upp, Páll er talinn burtvikinn úr sókninni 1898 „á Fjöll" og tvær dætur ungar fara til Vopnafjarðar í fóstur.*

*Næstu fimm ár er mér ekki kunnugt um feril Páls, en 1903 flyzt hann að Eyvindarhólum og síðan að Hlíð til Páls bónda, hálfbróður síns. Á árunum 1905—1908 á hann heima á Höfðabrekku og er að öðrum þræði sýsluskrifari hjá Björgvin Vigfússyni sýslumanni. Þaðan flyzt hann aftur að Hlíð 1908 (sem barnakennari) og andast þar 21. dag júlímánaðar 1912. Banamein hans er í kirkjubókinni tilgreint „lungnafúi" eða lungnadrep.*

*Þau Páll og Anna eignuðust sex börn. Af þeim eru á lífi. þegar þetta er ritað, Lára Magnea, ekkja Þorsteins Sigurðssonar trésmíðameistara í Rvík og Júlíus búfræðingur og fyrrum bóndi að Karlsstöðum í Arnarfirði. Eftir að Páll varð ekkjumaður eignaðist hann son, Pál að nafni (f. 1902). Hann er nú myndarbóndi að Litlu-Heiði í Mýrdal.*

*V*

*Átt hef ég tal við ýmsa trausta himildamenn, sem höfðu kynni af Páli jökli og muna hann vel. Meðal þeirra eru þeir dr. Björn K. Þórólfsson, dr. Vilmundur Jónsson og Guðbrandur Magnússon f. forstjóri. Ber þeim saman um, að Páll hafi verið maður föngulegur, svarthærður og mikill yfir sig, greindur og léttur í máli, en vínhneigður, —*



Páll Pálsson

Teikning Halldórs Péturssonar eftir
gamalli ljósmynd.

*„enginn meðalmaður,“ segir Guðbrandur. — Geir Pálsson trésmiður (f. 1886) kveðst vel muna Pál jökul, frænda sinn (bræðrasynir). Hafi hann verið mjög skemmtilegur maður og margfróður, en fremur staðfestulítill.*

*Enda þótt Páll jökull smíðaði ekki gæfu sína, svo sem bezt mætti kjósa, ber að minnast hans og félaga hans með heiðri. Þeir fóru fyrstir Íslendinga yfir Vatnajökul, svo að sannað verði. Síðan liðu full 50 ár áður en nokkur landa þeirra léki það eftir.*

*VI*

*Það hefur kostað mig meiri fyrirhöfn en ég ætlaði í upphafi að færa ferðabækur Watts í íslenzkan búning. Allt um það hefur mér þótt ánægjulegt að kynnast slíkum heiðursmanni, — eins og hann kemur til dyranna í ferðabókum sínum, og gaman að verða honum samferða. Til skamms tíma hef ég litið á Watts sem harðfullorðinn og þrautreyndan ferðamann, er hefði víða ratað og beitt góðri greind og vakandi forvitni til þess að afla sér lærdóms og skilnings á býsnamörgu í náttúrunni og mannlífinu. Mér kom því á óvart — og finnst það næsta furðulegt, að rúmlega tvítugur maður sýni slíka þrautseigju og áræði, sem W. L. Watts gerði í ferðum sínum hér á landi fyrir hart nær 100 árum.*

*Ég vil því af heilum hug taka undir þau orð, sem Matthías Jockumsson víkur að hinum unga ferðamanni í Þjóðólfi (27. ár, 95. bls.): — Á herra Watts sannarlega skilið að fá þá sæmd og viðurkenning, er vér vér getum sýnt honum. —*

Jón Eyþórsson.

# Íslandsferð Watts 1874.

*Ágrip af bók hans:*

SNIOLAND OR ICELAND, ITS JÖKULLS AND FJALLS.

London 1875.

Bók þessi er í mjög fárra höndum, en í henni segir frá minnisverðum og nýstárlegum jökulgöngum, sem oft er vikið að í ferðasögu Watts, *Norður yfir Vatnajökul.* Þykir því nauðsynlegt að rifja hér upp merkustu kafla hennar, ýmist endursagða eða lauslega þýdda.

Í formálanum segir höf. m. a.: Ef einhverjir þrír menn, sem lesa þessa bók, skyldu vera sama sinnis og ég og hafa bæði efni og vilja til að slást í för með mér [til Íslands], væri mér ánægja að kynnast þeim fyrir milligöngu ritara Alpaklúbbsins [í London].

*7. júní* (1874) kom Watts til Berufjarðar frá Edinborg með póstskipinu *Díönu.* Kalt var í veðri og snjór langt niður í hlíðar. Á skipinu hitti hann [Th. A.] Thomsen kaupmann frá Reykjavík. Sagði hann Watts, að gosmökkinn úr Vatnajökli árið áður [1873] hefði borið beint yfir Heklu frá Eyrarbakka.

*10. júní* að kveldi kom skipið til Reykjavíkur. „Geislar

kvöldsólarinnar glóðu á hinu fagra Esjufjalli, sem enn var hjúpað hvítum vetrarskrúða", skrifar Watts.

Þeir tjölduðu fyrir innan bæinn á landi landshöfðingjans. Litlar breytingar voru sýnilegar á bænum síðan 1871. — Nú voru komin íslenzk frímerki í tilefni af stjórnfrelsi landsins. Fram til þessa höfðu verið notuð dönsk frímerki.

*14. júní* borðaði Watts kvöldverð með biskupi. Þar hitti hann Jón Hjaltalín landlækni, sem sagði honum, að tíðarfar væri jafnan gott á undan eldgosum. Þótti Watts það merkilegt.

*22. júní* hefur Watts fest kaup á sex hestum og gefið 60 ríkisdali fyrir hvern. Býst við að selja þá fyrir 15—20 dali um haustið. Þá flutti hann tjaldbúðir sínar inn að Elliðaám og hjálpaði Thomsen kaupmanni að tæma laxakistur hans. Fengust úr þeim 450 pund af laxi.

*24. júní* hélt Watts af stað til Þingvalla ásamt félögum sínum, er hann nefnir W—, S— og C—. Fylgdarmaður íslenzkur var með þeim, Guðmundur að nafni. W— var prestur og hét fullu nafni séra John Wynne, S— var einnig klerkur og hét séra G. Seymour, en C— þýðir dr. Cliton (Sbr. *Þjóðólf*, 11. júní 1874.).

*28. júní* fóru þeir frá Þingvöllum að Geysi og dvöldust þar nokkra daga. Þaðan héldu þeir að Hruna og fóru á ferju yfir Hvítá, en hestarnir voru reknir í ána með ópum og grjótkasti. Vissu þeir bersýnilega, hvað til stóð, því að þeir lögðust til sunds og stefndu beint á farangurinn á hinum bakkanum.

*11. júlí* freistuðu þeir að ganga á Heklu, en hrepptu þoku og muggu og urðu að snúa við að Galtalæk um kvöldið.



*Gamall ferjustaður.* — (Paijkull, 1866).

*13. júlí* síðla kvölds koma þeir félagar að Breiðabólstað í Fljótshlíð og gista hjá prestinum [Skúla Gíslasyni]. Ber Watts mikið lof á heimilið fyrir þrifnað og myndarskap. Þaðan fara þeir að Holti og Skógafossi, en eru komnir í tjaldstað undir Búrfelli í Mýrdal að kveldi hins 15. júlí.

*16. júlí* gekk Watts einn síns liðs upp á Gæsatinda. Í bakaleið þurfti hann að vaða yfir Hafursá og var nærri drukknaður. Um kveldið náttuðu þeir sig á Heiði og voru þar um kyrrt daginn eftir vegna rigningar. Næstu daga fór Watts ýmsar smáferðir um nágrennið, þegar veður leyfði, en erindi hans í Mýrdalinn var að ganga á Mýrdalsjökul og skoða Kötlugjá.

*26. júlí* fóru þeir af stað kl. 9 um morguninn, komu við á Höfðabrekku og fengu þar fylgdarmann; riðu síðan inn á afrétt og skildu eftir reiðtygi sín í helli nokkrum [líklega Miðfellshelli]. Þar er klettur, *Iðrunarstandur,* sem Watts kallar Errin Sandur. Þótti honum leiðin nokkuð erfið, en upp komust þeir á Höfðabrekkuheiði, þar sem heita Sker, við jökuljaðarinn. Þá afsögðu tveir Englendinganna, þeir S— og C— að fara lengra. Hins vegar var W— fús til að halda áfram. Endirinn varð sá, að þeir S— og C— sneru aftur, fóru til Víkur daginn eftir til þess að leita sér að betri dvalarstað, enda rigndi stöðugt, og vildi blotna um í tjaldinu að Heiði.

*28. júlí* rigndi enn. Watts reið þá til Víkur og sagði upp frekari samfylgd við séra Seymour og dr. Cliton.

*29. júlí* leggur Watts upp í jökulferðina á nýjan leik með séra Wynne og tveimur íslenzkum fylgdarmönnum, Sigurfinni og Brynjólfi, kl. 5 að morgni. Sigurfinnur var ungur maður og duglegur, en Brynjólfur kominn um fimmtugt,

og leizt Watts ekki vel á hann. Hann bar suðusprittið. Þeir lögðu á brattann kl. 5 sd. Brynjólfur dróst aftur úr, og fór Watts til baka að vitja hans. Sat karlinn þá á steini og þambaði suðuspritt.

Þeir tjölduðu uppi á Skerjum og hlóðu skjólgarð úr grjóti umhverfis tjaldið. Um nóttina var regn og hvassviðri. Brynjólfur var fullur og rausaði.

Daginn eftir ákvað Watts að koma honum til byggða og sækja þurrar eldspýtur, en þær höfðu blotnað á leiðinni upp eftir. Séra Wynne varð eftir við tjaldið.

Á Heiði fékk Watts duglegan mann, Jón Magnaldsson, til fylgdar. Komust þeir um kvöldið upp í tjaldstað í versta veðri. Séra Wynne hafði lagað tjaldið töluvert og gert þar vistlegt. Um kvöldið sungu þeir við kertaljós og supu wiský.

*1. ágúst* lögðu þeir á jökul kl. 12 á hádegi í sæmilegu veðri. Færð var þung og talsverðar sprungur, svo að þeir notuðu vað til öryggis. Gengu fyrir botn Hvítajökuls (eða Huldujökuls.[1]) Í 5500 feta hæð voru þeir nálægt hábungu jökulsins. Útsýnið var dýrlegt:

„Austur undan var skeifumyndaður dalur, sem gekk inn að miðjum jökli, og umhverfis hann svartir hnúskar, ekki háir, upp úr snjónum. — — — Skyldi þetta vera Kötlugjá? Ekki líktist það vitund hinni gapandi gjá, sem ég hafði gert mér í hugarlund — — —. Við gengum vestur og norður eftir barmi dalsins, sem er brattur og stórsprunginn."

Á heimleiðinni hrepptu þeir haglél, en undir miðnætti

---

1) Hvorugt þessara nafna notar Watts, enda eru þau nýnefni. — J. Ey.

birti, og vindur var norðvestan-stæður, svo að veðurútlit var fremur gott.

*2. ágúst* sváfu þeir til kl. 8, en héldu á jökul þegar eftir morgunverð, fóru nokkru vestar en daginn áður og stefndu á hæstu bunguna. Mældist hún 5750[1]) fet. „Norður undan blasti við snjókvos, er skildi Mýrdalsjökul frá Goðalandsjökli í norðvestri og Merkurjökli þar norður af. Það var breyskjuhiti móti sól, og dalurinn fyrir neðan okkur bar nú allt annan svip en í sveljandanum, er við litum hann fyrst. Nú var fegurð í hinum dökkleitu öldum og sandbornu kömbum, sem okkur fannst þá næsta illúðlegir ásýndum. Hin kaldranalega snækvos, er virtist ná inn í sjálfan skrokk jökulfjallsins, blasti nú við hrífandi fögur í birtubrigðum skins og skugga. Hinar svörtu gjár sýndust ennþá kolsvartari í samanburði við sindrandi mjallhvítuna. En hvað aðstæðurnar geta breytt lit og yfirbragði landsins!

Við gengum ofan í hina miklu safnkvos snæs og frera milli Goðalands og Mýrdalsjökuls. Hún er að mestu umkringd snjóhnúskum. — — — Komumst við að þeirri niðurstöðu, að skeifudalurinn, sem var nú austur frá okkur, væri Kötlugjá, en við vorum þá staddir beint norður af Heiði, og Eyjafjallajökull var í hávestri."

Watts ætlaði að halda áfram norður á Mælifellssand, en kl. 5 skall yfir þoka, svo að þeir treystust ekki til að rata, sneru því við og komu í tjaldstað kl. 1 um nóttina.

---

1) Um 1750 m í stað 1450 m. Allar hæðarmælingar hefur Watts gert með loftvog á staðnum, en fráleitt tekið loftvægisbreytingar við sjávarmál eða hitastig með í reikninginn. Þær eru því flestar lítils virði. — J. Ey.




*Yfirlitsmynd af umhverfi Kötlu. Teikning eftir Steinþór Sigurðsson. Helztu kennileiti tölusett þannig: 1 = Katla, 9 = Skerin, þar sem þeir Watts tjölduðu, 10 = „Gigurinn" í Huldufjöllum, 4 = Kötlujökull, 5 = Hvítijökull, 6 = Hafursey.*

*3. ágúst.* „Við þóttumst þess fullvissir, að skeifumyndaði dalurinn hlyti að vera Kötlugjá, enda þótt hann sé suðaustur af staðsetningu hennar á uppdrættinum og öll merki um gos hennar grafin undir firnadjúpum snjó.“

Watts þóttist sjá eldgíg í Huldufjöllum og hélt þangað ásamt fylgdarmönnunum íslenzku, en Wynne vildi heldur verða eftir til þess að skoða nágrennið og safna steinum. Þeir klöngruðust niður á jökulinn, sem var illilega sprunginn. Af Skerjum voru 100 m niður á jökul.

Umhverfis gíginn voru kambar miklir af aur og ösku. Ekki var þar hraun utan hrafntinnumolar á víð og dreif, og virtust flestir jökulnúnir. Barmar gígsins voru þverbarttir, um 200 fet (60 m) á hæð, hlaðnir upp úr svörtu gjalli og gljúpu þursabergi. Á botni gígsins var djúpur, kolmórauður pollur, um 100 ferhyrningsstikur að stærð.[1]) Ekki var teljandi afkeimur að vatninu, en greinilegur brennisteinsþefur af því. Gígurinn var opinn til suðurs og botninn 50 fetum (15 m) lægri en jökullinn framan við. — Frá gígnum var röð af lágum hnúskum, að mestu í kafi í aurbornum ís, upp undir Kötlugjá. Í miðjum dalnum var jökullinn uppbólginn og sundurtættur af sprungum Á fimm stöðum stóðu þverhníptir bergstandar upp úr dalbörmunum, og í suðurhorninu var allstór pollur.“

Þeir kjöguðu upp vesturhlíð dalsins og urðu að höggva 70 spor til þess að komast upp. Þaðan gengu þeir suður af jökli að tjaldstaðnum og hafa þá farið vestan við upptök

---

1) Hér er tæplega um eldgíg að ræða, heldur svif nokkurt í suðurhlíð Huldufjalla og jökullón í. Er það sýnt á uppdrætti Íslands. — J. Ey.

Hvítajökuls. Þaðan gengu þeir niður í helli og áttu þar kalda nótt.

*4. ágúst* héldu þeir að Heiði og voru þar um nóttina, en riðu þá austur yfir Mýrdalssand í fylgd með landpóstinum og komu við á Þykkvabæjarklaustri. Þar hafði Watts dvalizt eitthvað sumarið 1871 ásamt J. Milne. Var þeim tekið sem gömlum kunningjum. Seint um kvöldið komu þeir að prestsetrinu Mýri og gistu þar. Getur Watts þess um leið, að íslenzkir prestar hafi jafnan tekið séra Wynne sem besta bróður.

*6. ágúst.* Presturinn á Mýri sagði Watts margt um gos í Mýrdals- og Vatnajökli. Í síðasta gosi í Vatnajökli[1]) hafði mökkinn borið rétt norðan við Hágönguhnúka upp af Fljótshverfi. Mældi Watts stefnuna og bar saman við mið, er hann hafði tekið frá Reykjavík. Samkvæmt því áttu eldstöðvarnar að vera í NNA-átt frá Núpsstað. Frá Mýri héldu þeir um 11-leytið og voru þrjár klst. að komast yfir Kúðafljót. Um nóttina gistu þeir í Feðgum við Eldvatnið (Watts ritar raunar Vergr!). Þar var mikið af rekavið og auðséð, að bóndi stundaði talsverða timburverzlun. Á þessum bæ og víðar vildu menn óðir og uppvægir fá keypta skóna, sem séra Wynne hafði á fótunum, en það voru sterkir veiðimannaskór. Fannst þeim félögum það ærið kátlegt, er enskur prestur var beðinn að selja skóna af fótunum á sér. „Virðist hið sama hugarfar vera ríkjandi á Íslandi og í

---

1) Veturinn 1872/73 varð gos í Grímsvötnum og hlaup í Skeiðará og Súlu. Þ. Thoroddsen, þá skólapiltur, sá gosmökkinn frá Reykjavík kl. 7 að morgni hinn 9. jan. 1873, og gnæfði hann sem kolsvart ský í stefnu á Mosfellsdalinn. Eldingar blikuðu í mekkinum með 2—3 mín. millibili. — J. Ey.

nýbyggðum Ameríku, að sjálfsagt sé að láta allt, sem maður getur við sig losað, ef hægt er að selja það með hagnaði," segir Watts.

7. *ágúst* komu þeir við á Prestsbakka, því að þar átti landpósturinn að koma við, og áttu þeir von á að hann væri með bréf til þeirra. En presturinn, sem annaðist bréfhirðinguna, hafði farið til Þingvalla til þess að fagna konungi. Var því ekki hægt að opna póstinn, fyrr en sýslumaður hafði verið sóttur (frá Klaustri). Hann kom morguninn eftir, en engin bréf voru til þeirra. Höfðu þeir því til lítils lagt langan krók á leið sína, en á Prestbakka hittu þeir samt bróðurson prestsins, Pál Pálsson, er reyndist þeim síðar ómetanleg hjálparhella.

Frá Prestbakka héldu þeir sem hraðast austur að Núpsstað og var þar vel fagnað af Eyjólfi bónda, sem vissi um ferðir þeirra og kannaðist við Watts frá fyrri heimsókn, 1871. Í millitíðinni hafði kona hans andazt, og nú var hann alveg nýkvæntur í annað sinn.

Þegar þeir báðu Eyjólf að útvega sér fylgdarmenn norður yfir Vatnajökul, taldi hann það lítt mögulegt, þar eð allir væru önnum kafnir við heyskap. Leizt þeim félögum nú illa á blikuna. — En þá kom Páll Pálsson til skjalanna. Hann gleypti í sig matarbita, fékk sér óþreyttan hest og þeysti af stað í mannaleit.

Þeir fengu inni í bænhúsinu, sem hafði verið tekið fyrir skemmu, því að enginn var prestur til að syngja þar tíðir. Fólkið á Núpsstað gerði allt, sem það gat, til þess að láta fara vel um þá, og lætur Watts hið bezta af allri umgengni þar og þrifnaði. — Um kvöldið gengu þeir austur að Súlu [Núpsvötnum]. „Leysingavatn úr jöklinum safnast fyrir í

litlu stöðuvatni, Grímsvötnum,[1]) um 3000 fetum (900 m) yfir sjávarmáli, og þaðan fellur áin eftir djúpu gljúfri til sjávar.

„Á þessi hafði tekið furðulegum breytingum, síðan ég kom hér hið fyrra sinni," segir Watts. „Í stað þess að liggja í einum, straumhörðum ál, var hún orðin grunn, en tífalt breiðari, og rennur á svörtum, gljúpum söndum. Jökullinn austan árinnar hafði gengið fram, um hálfa mílu á að gizka, og var miklu aurbornari en áður. Má vera, að gosmylsna úr einhverju Vatnajökulsgosi hafi borizt fram með jöklinum og verið að koma þarna í ljós, eftir að hafa verið grafin í ís og snjó árum saman.

Enda þótt jökullinn væri genginn fram, hafði hann lækkað verulega og gerbreytzt í útliti."

Sunnudag 9. ágúst héldu þeir kyrru fyrir. Páli hafði með naumindum tekizt að fá tvo menn til ferðar, og var þá tekið að smíða sleðakríli og tvennar þrúgur og útbúa nesti.

„Fjöllin voru kafin skýjum og vindur genginn í austur. Um hádegi tók að rigna. Veðrið skiptir svo miklu máli á Íslandi, því að þar er öll ferðagleði komin undir því að geta notið útivistar. Ég þekki engan verri stað í vondu veðri en Ísland og eins innilega ljúflegan í góðu veðri.

*10. ágúst* gengum við frá nesti í jökulferðina. Það samanstóð af smjöri, harðfiski, kexi, Liebigs-kjötseyði og eins konar kæfu, sem ég lét gera á sérstakan hátt, sykri og wiskýi. Einnig höfðum við kaffi og súpu til fyrsta áfangans, inn að jökli. Hver maður fékk vasapela, sem hann átti að fylla

---

1) Hér er átt við Grænalón. — J. Ey.

af snjó og hafa jafnan í brjóstvasanum, því að vatnsskortur er einna örðugastur í svona ferðum. — — — Í hverja flösku lét ég annað slagið nokkra wiskýdropa til þess að snjórinn bráðnaði fljótar og vatnið yrði lystugra. — —

Þriðjudaginn 11. ágúst var veður bjart og allir í sólskinsskapi. Við Wynne, Páll og nýju fylgdarmennirnir, Bjarni og Jón, settumst allir að borðum með Eyjólfi bónda í nýju stofunni, sem hann hafði bætt við húsakynni sín um vorið. Til matar fengum við súrsuð uxasvið, leifar frá brúðkaupsveizlunni og efalaust geymd til að gæða okkur á. Ég gat ekki varizt þeirri hugsun, að þetta væri ólíkt betra vegarnesti mönnum, sem eru að leggja upp í erfiða ferð heldur en gerist og gengur í gistihúsum í öðrum löndum, þar sem þjónar eru á þönum og ekki verður þverfótað fyrir fólki. Hér var allt af ráði gert, maturinn óbrotinn, hreinlegur og saðsamur, og allir voru í ferðahug, þegar við stóðum upp frá borðum og drukkum hestaskál í skozku wiskýi. Því næst stigum við á bak, riðum Djúpá og héldum svo norður dalinn, sem hún rennur eftir. Niður eftir dalnum hefur runnið hraun frá Hágöngum. Hlýtur það að hafa runnið hratt, því að það lækkar um 2500 fet (760 m) á átta mílum (13 km). — — — Um það bil, sem leiðin er hálfnuð upp dalinn, verður mikið gljúfur á hægri hönd, og fram úr því steypist helmingur Djúpár í freyðandi fossaföllum [Hrafná]. Hin upptakakvísl Djúpár kemur úr jökulhvelfingu nokkrum mílum austar, á móts við Grænafjall." — — —

Þegar lengra kom upp í dalinn, varð hraunið svo ógreiðfært, að þeir urðu að fara upp á hálsinn vestan þess [Innhlíðar]. Þaðan sást vel til Vatnajökuls. Hágöngurnar tvær

blöstu við í norðaustri,[1]) hin syðri er um fjórar mílur frá jökuljaðri, hin um fimm mílur norðar og austar. Þær eru dökkleitar strýtur, sem standa upp úr jökli.

Um miðaftansbil voru þeir komnir upp að jökli, í stefnu NNA af Kálfafelli. Á jökuljaðrinum var mikið af hrafntinnu og grjótmylsnu af sama tagi og þeir John Milne höfðu séð við Grænafjall 1871.

„Dagur var að kveldi kominn og engir hagar handa hestum. Við kvöddum því séra Wynne, Eyjólf bónda og vinnumann hans í snatri. Þeir óskuðu okkur góðrar ferðar, og ég lét förunauta mína hrópa húrra fyrir þeim á brezka vísu.“ —

Watts hafði stóran, þykkan tjalddúk með sér, og stóran svefnpoka úr olíubornu lérefti og ábreiðum, opinn í báða enda. Með tveimur teppum í viðbót gátu þeir haldið á sér sæmilegum hita. Nú hlóðu þeir veggi úr grjóti, strengdu tjalddúkinn yfir og komu þannig upp sæmilegu skýli. Svo var kveikt á suðulampanum, súpa soðin og um sólarlagsbil var allt orðið hljótt.

Morguninn eftir risu þeir árla af svefni og tóku farangur sinn í jökulferðina: tjalddúk, gönguvað, skóflu, svefnpoka, teppi, mælingatæki, stikur, wiský, matvæli til hálfs mánaðar og loks lítinn brezkan fána, er var ætlað að skreyta háhrygg jökulsins. Annað dót skildu þeir eftir og báru að grjót.

Nú lögðu þeir á brattann, en urðu að bera allan farangur, því að jökullinn var bæði ósléttur og aurborinn og

---

1) Í hánorður væri réttara, en Watts miðar hér sýnilega við seguláttir. Verður að hafa það í huga, þegar bók hans er lesin. — J. Ey.

ómögulegt að nota sleða. Watts hafði vonazt eftir, að jökullinn yrði brátt greiðfær, en sú von brást. Er þeir höfðu gengið þannig um stund, án þess að nokkuð greiddist úr, sá Watts, að þeir mundu aldrei komast leiðar sinnar með slíku áframhaldi. Tóku þeir þá af sleðanum og skildu eftir allt, sem þeir þóttust mega án vera, en höfðu með sér tjaldið, svefnpoka og nesti til viku.

Watts brýndi fyrir förunautum sínum, að nú yrðu þeir að sækja ferðina helmingi fastar en áformað var og lofaði hverjum þeirra 10 dala aukaþóknun, ef þeir fyndu síðustu gosstöðvar í jöklinum eða kæmust alla leið norður af.

Dótið bundu þeir í tvær byrðar, um 70 pund hvora, svo að tveir gætu borið og tveir gengið lausir á víxl. Þá skenkti Watts þeim wiskýdropa, tók stefnu í NNA, og svo var gengið rösklega af stað. Jökullinn var lítt sprunginn, enda hallalítill. Þegar þeir stönzuðu til að skipta byrðunum, því að Bjarni og Jón báru fyrst, heyrðist mikill niður og skruðningar í jöklinum, eins og títt er í leysingu að deginum. Watts var smeykur um, að förunautar hans, sem aldrei höfðu stigið fæti á jökul áður, myndu verða skelfdir, en það var öðru nær. Bjarna varð einungis að orði: „Skárri eru það lætin í jöklinum," og Jón svaraði stuttaralega: „Já, hann talar sínu máli." — Þeir, sem gengu lausir, drógu sleðann og þrúgurnar, en loks gáfust þeir upp að tosa sleðanum áfram og skildu hann eftir, enda mátti vel gera lipran sleða úr þrúgunum, þegar á þyrfti að halda. Sleðinn varð eftir um 3 mílur NNV af Syðri-Hágöngu.

Watts segir, að jökull þessi sé áreiðanlega að ganga fram og megi vera, að hann „flæði og fjari" eins og margir aðrir íslenzkir jöklar. Fari það vissulega eftir hlutfallinu milli

ákomu og árshita. Páll sagði honum, að jökullinn hefði gengið fram um 200 stikur á þessum slóðum, síðan hann kom þangað í fyrsta skipti, fyrir tveimur árum.

„Nú gerðist heitt í sólskininu og krapasnjórinn á jöklinum erfiður yfirferðar. Oft sluppum við niður úr snjónum í krapaelg undir honum. Er við höfðum gengið um 7 mílur (11 km) NNA, lét ég nema staðar. Þar settum við upp sólskýli, borðuðum og höfðum sokkaskipti. Síðan sváfum við fram eftir degi. Kl. 6 e. m. héldum við áfram, og var færi þá mun betra; snjórinn var að stirðna á yfirborðinu. Vindur var NNA-stæður. Eftir þriggja stunda gang gátum við sett dótið á þrúgurnar, sem voru festar saman hlið við hlið og runnu ágætlega. Sóttist ferðin nú mun betur, enda sögðu Íslendingar. „Miklu betra að draga en bera" — *much better to drag than to bear,* — gott dæmi um skyldleikann milli tungumála okkar.

Sólarlagið var dýrlegt. Öræfajökull var að hverfa bak við hávaða á jöklinum austur undan, en síðasta útsjón þangað er ógleymanleg. Hinar snævi snivnu hlíðar glóðu í himneskri birtu. Varla var skýskaf á lofti, og um kl. 10 gekk sólin undir í litadýrð.

Tunglið var komið upp, og það var orðið býsna frosthart. Eftir sólarlag verður loftið hvað tærast, og ég skimaði stöðugt eftir reykjarmekki í fjarska. Stundum hélt ég mig sjá reykjarbólstra, en það reyndist aðeins ljósleit kveldský, þegar betur var að gáð.

Við héldum áfram til miðnættis. Þá grófum við ferhyrnda holu í snjóinn, þöktum yfir með tjalddúknum og mokuðum snjó á jaðrana til skjóls. Til beggja enda hengdum við regnkápur, og þannig varð risþak yfir holunni. Við

skiptum um sokkaplögg og hengdum til þerris á mæniásinn. Svo átum við sitjandi í pokanum, því að kalt var að setjast um kyrrt. Hæðin mældist um 4000 fet (1200 m) yfir sjó.

Óumræðilega fögur var tunglsbirtan á hjarninu. Allt var sveipað skærri, bláleitri slikju. Alger þögn — eins og í dauðs manns gröf. — Ég gætti þess, að allir fylltu flöskur sínar með snjó, svo að við hefðum vatnssopa að morgni. Svo blunduðum við í þrjár stundir.

*13. ágúst.* Um morguninn var frostið 12 st. á Fahrenheit [tæp 7° C.]. Skór og sokkar beingaddað. Urðum að sitja á fótabúnaði okkar, meðan við borðuðum, til þess að mýkja hann, svo að unnt væri að koma honum á sig.

Veðrið var enn dásamlegt og ágætt skarafæri. Eftir tveggja stunda ferð, komum við auga á kynlega lagað fjall, um 10 mílur fram undan í NA. Tindur þess var eins og gafl á húsi tilsýndar að sjá, þótt það minnti meira á svartan pýramíta við fyrstu sýn. Gnípan var nokkrum hundruðum feta hærri en umhverfið. Við kölluðum það *Vatnajökull Housie.* [Vatnajökulshús].

Fram undan, nokkru austar en við stefndum, var dökkleit þúst, og lagði ég lykkju á leið mína til að athuga hana. Það var eins og ég bjóst við, klappahaus úr hrafntinnu, er gægðist um 150 fet upp úr snjóbreiðunni. Sums staðar var bergið svart og líktist gleri, en sums staðar grátt eins og venjulegt grjót."

Hér er sleppt lýsingu á Pálsfjalli, sem svipar mjög til lýsingar í ferðasögunni 1875.

„Við vorum 4500 fet yfir sjávarmáli. Fjallið kallaði ég Mount Paul [Pálsfjall] eftir Páli Pálssyni, sem bezt hafði

gengið fram í því að greiða för mína. Þarna fengum við góðan svaladrykk í lóni sunnan undir fjallinu. Ég þynnti wiskýbirgðirnar með vatni, og svo héldum við af stað í hánorður til þess að gera fyrir króknum austur eftir. Í NNV-átt og h. u. b. 7 mílna fjarlægð virtist vera annar gígur[1]) af svipaðri gerð, en meir grafinn í jökul. — — Áfram héldum við, unz komið var í 5750 feta hæð. Heitt var af sól og þungt færi. Er við höfðum farið 10 mílur, þar af tvær í útúrkrók að Pálsfjalli, lét ég nema staðar og setti upp tilfæringar til að bræða snjó. Ég gróf holu í snjóinn og fóðraði hana innan með olíukápu. Síðan hlóð ég slútandi snjóveggi kringum holuna og kastaði nokkrum skóflum af snjó ofan á kápuna. Förunautar mínir höfðu á meðan gert sólskýli úr tjalddúknum. Öll vot plögg voru hengd til þerris. Því næst lögðu þeir sig út af, en ég skrifaði dagbók og gerði athuganir.

Austur undan var keilumyndað fjall,[2]) e. t. v. framhald Vatnajökulshúss; fjarlægð um fimm mílur. Blængur og Björninn voru horfnir, en ég vissi, að stefna á Björninn var SSV og á Blæng SV. En áttavitinn sýndi allt annað, mér til hrellingar. Hann var sýnilega mjög truflaður. Ég lokaði honum í skyndi. Af ótta við þoku skar ég út kringlóttan pappírsmiða og markaði á hann stefnuna á Blæng og Björn. Enn fremur gerði ég eins ýtarlegt riss af leiðinni og ástæður leyfðu. Ákvað ég að nefna ekkert um þetta við félaga mína, fékk mér vatnssopa og lagðist fyrir.

Við sváfum 4—5 stundir, fengum svo vel í svanginn og

---

1) Hér er efalítið átt við Kerlingar í vesturbrún jökulsins. — J. Ey.
2) Háabunga? — J. Ey.

nóg vatn í holunni. Allt var þurrt og allir í bezta skapi. Þegar við vorum að ljúka máltíðinni, brá allt í einu fyrir sterkum fnyk — eins og út úr bræðsluofni, sem verið er að tæma. Við spruttum allir á fætur og nösuðum upp í goluna, sem blés af NNA og gat borið með sér þef af nýrunnu hrauni úr þeirri átt. Ég var nú alveg viss um, að við værum á réttri leið. Í þessum svifum dró Páll upp lítinn áttavita, sem ég hafði lánað honum. Sá hann þegar, hvers kyns var og hrópaði: „Áttavitinn er vitlaus." — Bjarni og Jón fóru þegar á stúfana og spurðu, eins og ég hafði búizt við: „Hvernig færi, ef við lentum í þoku." Ég reyndi að útskýra þetta, þótt ég tryði lítt á það sjálfur, sagði þetta mundi aðeins vera á þessum bletti, þar sem við værum staddir, og spurði, hvort þeir væru hræddir. Þeir hlógu og sögðu: „O-nei, það er allt í lagi okkar vegna." Ég skrifaði nákvæmlega stefnur, eins og áttavitinn sýndi, þótt hann virtist aldrei geta verið stöðugur og nálin leitaði í vestur í stað norðurs. Þeir kölluðu fjallið á móts við okkur Segulfjall [= Kerlingar].

Nú var komið frost, og er við höfðum skammt farið, hætti brattinn. Við vorum komnir upp á öldótta jökulsléttu. Árangurslaust rýndum við eftir gosmekki eða reykjarslæðu, en allt, sem minnti á þess háttar, reyndist vera ský — ekki reykir. Enn héldum við áfram í þrjár stundir og fórum fram hjá fögrum snækolli[1]) í austurátt, keilumynduðu eldfjalli með snjó á kolli, en hinar ýmsu syllur í hlíðum þess sýndu, hvernig það hafði hlaðizt upp við hvert gos-

1) Hér gæti verið um Grímsfjall að ræða, og hefur Watts þá aðeins séð Vestri-Svíahnúk yfir jökulbreiðuna. — J. Ey.

ið af öðru, unz það hafði náð núverandi hæð, um 500 fet (150 m) yfir snæbreiðuna í kring. Tvisvar brá fyrir fnyk þeim, er áður var getið. Um sólarlag höfðum við útsýni til tveggja hvítra fjalla austur undan, auðvitað eldfjalla. Var annað þeirra tvítyppt, en hitt, sem var minna, virtist í sjónauka hafa stóran skúta vestan í móti, og úr honum kom gufa og reykur. Ég mundi gizka á, að þau væru 12—15 mílur austan við okkur, en þar eð bæði Öræfajökull og Björninn voru komnir í hvarf, hafði ég engin þekkt kennileiti að miða afstöðu þeirra við.[1])

Eftir sólarlag varð skarinn á snjónum mjög harður, því að frost var mikið. Undir miðnætti þykknaði í lofti, og með því að við vorum örþreyttir, settumst við að í 5950 feta (röskl. 1800 m) hæð.[2]) Hugðumst við fara á stjá í birtingu og ganga drjúgan spöl, áður en sólin kæmi upp. Í nokkrar stundir höfðum við haldið sömu hæð, eða mishæðirnar höfðu vart numið 100 fetum. Þegar matarbirgðir voru kannaðar, kom í ljós, að við áttum ekki fullan matarskammt til meira en þriggja daga, enda höfðum við erfiðað mikið og verið matlystugir að sama skapi. Báðir hámarks- og lágmarks-hitamælar mínir höfðu brotnað og engin leið að koma þeim í lag. —

*14. ágúst.* Við sváfum fjórar stundir. Áður en ljóst var orðið, gægðist ég út, en þá var fullt af snjó á kápunni, sem tjaldað var fyrir gaflinn á risinu. Þegar mér tókst að gægj-

1) Sennilega Grímsfjall og báðir Svíahnúkar í 12—15 km fjarlægð. Mjög erfitt er að gizka á fjarlægðir á sléttum jökli. — J. Ey.

2) Ef hæðin er nærri lagi hefðu þeir verið suðaustur af Bárðarbungu um 30 km NNA af Pálsfjalli og um 18 km NNV af Svíahnúkum, en hafa tæplega verið komnir svo langt. — J. Ey.




*Ferðaleið Watts á Vatnajökli 1874, eftir uppdrætti í bók hans Snioland, London 1875. Við Flagstaff sneri hann aftur og telur sig þá hafa farið 24 enskar mílur eða 38 km frá jökuljaðri. Það mun vera á sléttunni norðvestur af Grímsvötnum í h. u. b. 1600 m hæð.*

ast út, sá ég mér til skelfingar, að allt var hulið þoku og skafrenningi, og vindur var kominn á SA, verstu átt á Vatnajökli. Ég smeygði mér út, án þess að vekja félaga mína, og litaðist um. Skóflan var nærri hálffennt, aðeins haldan upp úr. Ég stakk henni niður í slóð okkar, með blaðið í rétta stefnu. Að svo búnu skreiddist ég í pokann og sofnaði í því trausti, að veðrið kynni að breytast, — þótt

ég vissi, að það væri vonlítið, því að SA-áttin er þrálát á þessu landi, og henni fylgir jafnan illviðri. Þegar við risum loks allir af svefni og Bjarni leit út, varð honum að orði: „Allt þoka og mikil drífa."

Meðan við mötuðumst, héldum við ráðstefnu. Allir förunautar mínir voru einhuga fylgjandi því að snúa við, og ekki gat ég fært nein skynsamleg rök gegn því, þótt feginn hefði viljað. Nesti höfðum við tæplega til þriggja daga, og SA-áttin gæti vel staðið hálfan mánuð. — — — Ég ákvað því að snúa við. Svo átum við nægju okkar, bannsungum veðrið, festum brezka fánann á stöng og stungum niður á miðjum Vatnajökli eða því sem næst, að við hugðum. Við stöngina festi ég lítinn böggul, vandlega um búinn með 1 sh. og 1 penny í ásamt miða, sem greindi frá ferð okkar. Neðanmáls var finnandi vinsamlega varaður við því *að sóa fé þessu á einhverri næstu knæpunni.* Við kvöddum fánann með því, að ég söng erindi úr *God save the Queen* og félagar mínir *Eldgamla Ísafold,* en lögin mega heita eins.

Svo tókum við saman dót okkar. Tjaldið var klökugt og þungt í vöfum, en sem betur fór, var ekki kalt í veðri. Nýi snjórinn gerði dráttarfærið mjög þungt, og sjálfir urðum við brátt gegndrepa í muggunni. Slóðin var furðugreinileg og vindur stöðugur á áttinni, svo að okkur gekk vel að halda stefnu.

Við skiptum þannig verkum, að einn gekk á undan og rakti slóðina, tveir drógu, en einn gekk með sleðanum til þess að sópa burtu snjó, sem hnoðaðist framan undir hann. Föt okkar urðu klökug, og sleðinn þyngdist, en loks komum við að Pálsfjalli eftir langa og erfiða göngu.

Þar leituðum við skjóls í hvarfinu sunnan undir, brutum klaka úr hári og hálsklútum og fengum okkur vel að borða. Næst hittum við fyrir okkur snjóhús, sem við höfðum gist fyrir tveim dögum. Urðum við fegnir að þurfa ekki að standa við snjógröft í slíku veðri.

Þarna settumst við að, höfðum sokkaskipti og skriðum í pokann. Allir voru blautir og kaldir, svo að ég hóf að kyrja íslenzka söngva, og sungum við okkur til hita um stund. —

Eftir að hafa sofið um hríð, vaknaði ég við einhvern þunga ofan á andlitinu og komst að raun um, að það var snjór. Fönnin hafði hlaðizt svo gífurlega á tjaldið, að það sligaðist undan þunganum, enda höfðum við að þessu sinni notað snæri í mæniás, en skilið mænisúlurnar eftir sem flaggstöng. Er við litum út, var vindur orðinn austanstæðari, og hefðum við verið vel nestaðir, hefði mér dottið í hug að snúa til baka. En nú kom það ekki til mála. Skór og sokkar voru beingaddaðir í annað sinn, og urðum við að stinga þeim inn á okkur til þess að mýkja þá. Bjarni varð fyrstur á fætur og skreið út, en hríðargusan stóð þegar inn um gættina, sem hann lét eftir sig. Var nú ekki lengur vært í skýlinu, svo að við höfðum okkur út hið bráðasta, og rauk þá af okkur eins og við kæmum upp úr heitri laug. En brátt hætti að rjúka, og klæðin stokkfrusu, því að mjög var kalt í veðri.

Við vorum lengi að ganga í okkur hita, en smám saman liðkuðust klakastakkarnir. Færið var allgott, og okkur skilaði vel áfram, enda voru fylgdarmenn mínir heimfúsir.

Þannig gengum við margar klukkustundir og höfðum vindinn stöðugt á vinstri hlið. — — Ofan á skriðjökul

komum við um fjórar mílur vestan við Efri-Hágöngu og urðum þá að taka allt dót á bakið. Jökullinn var þakinn nýsnævi og því hættulegur yfirferðar, en í rökkurbyrjun komum við niður þangað, sem dótið var geymt. Þar elduðum við okkur súpu, sem var vel þegin.

Með því að vaða Djúpá þar efra gátum við stytt okkur mjög leiðina að Núpsstað. Farangur létum við eftir og gengum hratt. Við héldum um mitti hver á öðrum yfir Djúpá til þess að detta ekki, því að vatnið var mjaðmardjúpt, þótt kalt væri í veðri og komið kvöld. Að Núpsstað komum við áður en fulldimmt var orðið og var þar vel fagnað."

*18. ágúst* héldu þeir félagar vestur á bóginn. Komu að Prestsbakka og ætluðu upp að Laka, en prestur heimtaði 40 dali fyrir fylgdarmann þangað. Á því hafði Watts ekki efni og hætti við förina. Þótti honum klerkur[1]) ærið harðdrægur í viðskiptum. — Páll jökull fylgdi þeim út í Meðalland og gaf Watts tvær brennivínsflöskur að skilnaði.

*28. ágúst* gistir Watts að Reykjum í Ölfusi og heldur þaðan til Herdísarvíkur og Krýsuvíkur. Verður sú för ekki rakin hér. Til Reykjavíkur kemur hann 31. ágúst.

*P. S. Höf. miðar vitanlega vegalengdir við enskar mílur (1600 m) og hæðir við fet (30,5 cm). Hefur mér viða þótt betur fara að láta það standa óbreytt, einkum þar, sem um hreinar ágizkanir er að ræða. — Bið ég lesandann að hafa þetta í huga. — J. Ey.*

---

1) Prestbakkaprestur var þá Páll Pálsson frá Hörgsdal. Virðist þetta ólíkt honum, því að hann var talinn allra manna örlátastur. — J. Ey.



*Reiðingur. — Þegar Watts var hér á ferð, varð hann að flytja allt sitt hafurtask á reiðingshestum — nema yfir Vatnajökul, en þá báru þeir dótið á bakinu eða drógu á sleða. — Nú eru reiðingar víðast hvar horfnir, og getur það komið sér illa fyrir ferðamenn, ef þeir þurfa að flytja farangur um fjallvegi, sem eru ófærir bifreiðum.*
(Teikning eftir D. Bruun)

Helstu frásagnir af Vatnajökulsferð Watts, aðrar en ferðabók sú, er hér birtist, eru þessar:

*Watts, W. L.: Journey across Vatna Jökull, in the Summer of 1875.* (Geographical Journal XLVI, 1877, 10 bls.). Fyrirlestur, fluttur í Landfræðifélaginu brezka 15. nóv. 1876. Fyrirlesturinn er þýddur á íslenzku af Jóni Eyþórssyni og birtur í Náttúrufræðingnum 1945.

*Petersen, V.: To Rejser i det indre Island.* (Geografisk Tidsskrift I, 1877, 129—35). Útdráttur úr ferðasögum þeirra Schytte og Watts.

*De Nupstadt à Grimsstadir á travers le Vatna Jökull.* (Bulletin de la Société de géographie de Rochefort V, 1886, 30—46). Útdráttur úr bók Watts.

*Thoroddsen, Þorv.: Landfræðissaga Íslands IV,* Reykjavík 1904, 76—85.

*Sami: Ferðabók I,* Kaupmannahöfn 1913, 266—67; 2. útg. Reykjavík 1958, 270—271; III, Kaupmannahöfn 1914, 284—85; 2. útg. Reykjavík 1959, 189.

*Jónson, Ólafur: Ódáðahraun I,* Akureyri 1945, 250—61 og víðar.

## I. KAFLI

# Frá Reykjavík að Núpsstað.

Ísland! Reykjavík! Enn er ég hingað kominn í sömu erindum og 1871 og 1874, en sumir kunningar mínir kalla það fífldirfsku eða flónsku.

Mér er sem ég sjái einn og annan virðulegan landa minn maulandi morgunmatinn sinn í sloppi og inniskóm rétt fyrir hádegið, ef hann skyldi rekast á smáklausu um ferðir mínar í morgunblaðinu. — Júhú, segir hann, 5000 fermílur af óbyggðu landi, ekki stingandi strá, eintóm eldfjöll, jöklar og snjór, — sá er vitlaus að vera að þvælast þarna. Enginn hefur nokkru sinni farið yfir þetta ófýsilega kuldabæli, og því þá að flana þetta núna, úr því að ekki er svo mikið sem eyrisvirði upp úr því að hafa. — Það væri alveg þýðingarlaust að benda honum á þá áráttu í fari Engilsaxa að sækjast eftir að kynnast hinu ókunna. Hann skellir í góm að öllu hjali um vísindalegan árangur, og ekki mundi það stíga honum neitt til höfuðs, þótt hann stæði þar, sem enginn annar hefði stigið fæti. Hann sér í kostnað, tímaeyðslu og fyrirhöfn. Mætti ekki verja peningunum í eitthvað þarfara (og þar hefur hann rétt að mæla, ef hann er svo hamingjusamur að eiga fyrir fjöl-

skyldu að sjá). Hann heldur, að þetta sé voðaleg lífshætta, og að lokum afgreiðir hann allt saman sem „eintóma vitleysu". Þá það! Látum okkar virðulega vin halda sig heima, þar er hans staður. En hann ætti helzt ekki að leggja sig í framkróka til að ófrægja leiðangur, sem kostar hann ekki grænan eyri, eyðir engum tíma frá honum og skerðir á engan hátt eitt einasta hár á höfði hans.

Það er sagt, að sérhver maður sé haldinn einhvers konar áráttu. Vinur okkar þykist ef til vill sérstaklega til þess kallaður að ala upp betri hænsnastofn en áður hafi þekkzt, ég sækist hins vegar eftir að flækjast um ókunna eða afskekkta afkima jarðarinnar. En meðan ég læt hænsnahús hans í friði, finnst mér hann ætti að láta mitt flakk afskiptalaust. Svo læt ég útrætt um hnýfilyrði hinna heimakæru, því að nú er ég kominn af stað.

Ég hef þegar að baki mér veltinginn á gufudallinum *Díönu* og er kominn í hina fámennu höfuðborg Íslands. Þar hitti ég fyrir vini mína, hressa og heilbrigða. Páll Pálsson, sem var aðalfylgdarmaður minn á Vatnajökli í fyrra, færir mér þau gleðitíðindi, að hann hafi þegar útvegað hesta og fylgdarmenn eftir þörfum, og jafnskjótt og ég hafi heimsótt vini mína og dótað mig til, getum við stigið á bak og sungið „Fram, fram til Vatnajökuls."

Mér nægði einn dagur til þess að vera vinur vina minna, og kvöldið eftir að okkur bar að landi, flaut lítill bátur með fullfermi af reiðverum, kössum og öðrum ferðabúnaði við litla trébryggju í sjálfri höfuðborginni. Klukkan var orðin 8, þegar við komum þangað í fylgd með stórum hópi innlendra vina. Nú tróðu þeir sér upp í bátkrílið eins og rúm leyfði, en hinir stóðu eftir í fjörunni og hylltu

okkur sem ákafast. Mér er nær að halda, að obbinn af bæjarbúum hafi líka tekið undir. Jafnskjótt og bátinn bar frá landi, drógum við upp segl og sigldum hraðbyri inn að Laugarnesi, kotbýli nokkru austan Víkurinnar, en þar voru hestar okkar geymdir. Á leiðinni kyrjuðum við ýmist norska söngva eða vinur okkar, séra Oddur Gíslason, lék suðurlenzkar fantasíur á franskt horn.

Hestarnir okkar reyndust í mjög sæmilegum holdum, eftir því sem um er að gera á þessum tíma árs. Það sparar tafir og talsverða peninga, ef unnt er að fela áreiðanlegum manni að kaupa hesta með góðum fyrirvara. Þá losna menn eigi aðeins við leiðinlega vafninga, sem hestakaupin hafa í för með sér, heldur komast þeir einnig hjá því að borga okurverð fyrir örgustu móbikkjur, sem er otað í ferðamenn, því að þeir verða að kaupa reiðskjóta jafnskjótt og þeir stíga fæti á land. Mínir hestar voru keyptir á Suðurlandi og kostuðu frá 50 til 90 ríkisdali. Þeir voru líka, að mér fannst, í heild sinni einhverjir fallegustu hestar, sem ég hafði séð á Íslandi.

Með því að ég vildi hraða för minni þangað, sem verkefni beið okkar, hafði ég látið kaupa skiptahesta bæði til áburðar og reiðar. Slíkt er með öllu óhjákvæmilegt, ef menn ætla að flýta för sinni, hins vegar ekki nauðsynlegt þeim, sem ekkert liggur á. Við töfðumst nokkuð við að raða farangrinum í klyfjar, eins og jafnan vill verða í upphafi ferðalags, hvort sem farið er á hestum eða fótgangandi, en að því loknu kvöddum við kunningjana, og við Páll og annar fylgdarmaður héldum af stað austur á Eyrarbakka um afleitan veg og í leiðinlegu veðri. Það er allajafna nauðsynlegt að hafa aukamenn til fylgdar fyrsta dag-

inn á ferðalögum, meðan hestarnir eru að spekjast Þeir eru oft óþægir og þverir í upphafi ferðar, ekki sízt á vondum vegi eins og austur á Eyrarbakka. Fyrst er þá farið um gömul hraun, þar sem kindaskjátur í tvennum reyfum voru að kroppa í sig reytingslegan gróður. Þær höfðu rifið af sér ullina á hraunnibbunum, svo að hún hékk á þeim í óhreinum dræsum og gerði þær ámóta ömurlegar ásýndum og landið, sem þær gengu á, enda var mesta leiðindaveður þennan dag. Um hádegi bar okkur að örreytiskoti, sem kallast Lækjarbotnar. Þar var ekkert að sjá nema örbirgð, harðfisk og óhreina krakka. Ég veit ekki, hverju það sætir, að öll býli í næsta nágrenni Reykjavíkur eru fátæklegri og niðurníddari en nokkru tali tekur. Að vísu eru heimalönd þeirra lélegri en gengur og gerist í öðrum héruðum, en fólkið er líka allt öðruvísi.

Enginn kemst hjá því að taka eftir hinni sinnulausu nægjusemi í svip þess, enda er vart við öðru að búast, eins og högum þess er háttað, en hvergi hef ég séð eins bláskínandi armóð og á þessu heimili. En allt um það, hestarnir okkar grípa niður, og við vözlum forina framan við þessi hrúgöld úr grjóti, torfi og timbri, sem oss virðist með öllu óhugsandi að kalla *heimili,* hvernig svo sem það hugtak væri teygt eða túlkað. — Hestarnir urðu að feta niður bratta og sleipa forarbrekku, sem ekki gerir aðkomuna eða brottförina frá Lækjarbotnum aðgengilegri. Þannig létum við þetta aðsetur eymdarinnar að baki og lögðum á heiðina í þokusvækju og kuldastrekkingi, sem lamdi vætuna framan í okkur og leitaði gegnum hlífðarfötin, hvar sem smugu var að finna.

Nokkru síðar riðum við upp hlíðarbrekkur Hengils-

fjalla. Eldfjall þetta (Hengill) og nágrannar þess hafa oft gosið, áður en land byggðist, og frá þeim hafa hraun runnið í ýmsar áttir. Þau hafa ekki einungis komið úr gígum í fjöllunum sjálfum, heldur hafa þau einnig ollið upp hingað og þangað og myndað hraungúla. Hátt uppi í fjallinu er suðuhver, sem Jón Hjaltalín læknir í Reykjavík álítur mjög álitlega heilsulind. Í góðu veðri hlýtur að vera mjög forvitnilegt á þessum slóðum, og jafnvel sjálfir Lækjarbotnar kynnu þá að verða ögn þolanlegri. Þegar farið er um þessar eldbrunnu slóðir, hlýtur það að vekja eftirtekt, hversu lág íslenzk eldfjöll eru allajafna. Þetta stafar sennilega af hinum fjölmörgu gígum, sem liggja hlið við hlið, þannig að goskrafturinn á hægara með að brjótast út á nýjum stað en yfirvinna mótstöðuna þar, sem gosefni hafa þegar hlaðizt upp að vissu marki. Um kvöldið náttuðum við okkur á smábýli, sem heitir Hraun. Það bauð af sér miklu betri þokka en Lækjarbotnar, enda þótt ábúandinn væri bláfátæk ekkja.

Ég vildi ekki íþyngja okkur með matarflutningi fram yfir það, sem ætlað var í Vatnajökulsförina. Urðum við því að lifa af því, sem landið hafði að bjóða, og þurftum ekki að svelta, enda þótt vorið sé óheppilegasti tími til þess að ferðast nestislaus á Íslandi. Við fengum nóg af flatbrauði, mjólk og hangikjöti, og það er enginn neyðarkostur, þótt hann sé ekki sérlega ljúffengur. Enda þótt við hefðum fengið pilt til þess að gæta hestanna um nóttina, voru sumir stroknir um morguninn. Það er betra, einkum í ferðarbyrjun, að fá mann til að gæta hestanna í stað þess að hefta þá í haganum. Hestar geta hvort sem er rásað býsna langt í haftinu, og oft á tíðum verður heft-

ingin aðeins til þess að þeir ganga sér síður að grasi, en svo verður að elta þá, alveg eins og haftlausir væru, morguninn eftir.

Frá Hrauni er skammt að hinum sendnu ósum Ölvesár. Hún er mynduð úr Hvítá og Sogi, sem renna saman um 30 km frá sævarósi, og er þetta mikið vatnsfall. Allmargir selir flatmöguðu þar í sólskininu og lágu eins og rekadrumbar rétt við götuna, en brugðu fljótt við, þegar okkur bar að, og skreiddust í vatnið, Eyrarbakki þýðir í raun réttri *sandströnd*, enda er hann rétt austan við ósa Ölvesár. Báðum megin árinnar eru stór sandflæmi vaxin melgresi. Einkum eru sandarnir vestan árinnar furðumiklir, en myndun þeirra liggur í augum uppi:

Stórkostlegir hraunstraumar hafa fallið af fjöllum ofan niður með ánni að vestan og myndað þar aðhald gegn aurburði hennar. Þannig hafa hlaðizt upp stórkostlegar sandeyrar, sem bægðu árósunum smám saman austur á bóginn, og eftir lágu hinar þurru og þykku sandbeðjur á vesturbakkanum.

Þegar við höfðum verið ferjaðir yfir ána, kom í ljós, að öll járnin á koffortunum okkar þurftu lagfæringar við, og vitanlega var Eyrarbakki heppilegasti staður, sem völ var á, til þess að fá gert við þau. Járn þessi, sem halda koffortunum á klökkunum, eru vandræðamál í ferðalögum á Íslandi. Ferðamenn skyldu gæta þess að láta vanda til þeirra eftir föngum. Ef þau reynast gölluð, er nauðsynlegt að grípa fyrsta tækifæri til þess að láta gera við þau, annars má búast við, að þau bili einhvers staðar þar, sem verst gegnir. Slíkt gæti valdið slæmum töfum, ef Íslendingar væru ekki gæddir þeirri náðargáfu að geta tjaslað

öllu saman í fljótheitum, þegar í harðbakkana slær. Eyrarbakki er helzta kauptún á Suðurlandi. Það stendur á hrjóstrugum malarkambi, og útsýnið er bæði fábrotið og leiðinlegt, en súgandi gnýr hinna ferlegu brotsjóa lætur dapurlega í eyrum.

Á allri þessari strandlengju hafa forn hraun runnið fram í sjó, en uppi í sveitinni eru þau hulin möl og mold. Á allri suðurströndinni, frá Eyrarbakka austur á Papós, er hvergi hægt að leggja skipi að landi vegna grynninga og blindskerja, enda er hvergi vík eða vogur á þessari 300 km strandlengju, þar sem skip gæti leitað hafnar.

Þegar við komum austur undir Þjórsá, fórum við heim á bæ nokkurn til þess að kaupa hest til viðbótar, enda þótt komin væri hánótt. Við vöktum upp heimilisfólkið, gerðum út um hestakaupin, dreyptum á brennivíni og héldum svo til árinnar. Ferjumaður átti heima handan við ána og var sofnaður. Það var slagviðrisrigning og slyddunepja, meðan við stóðum við ána og örguðum á ferju í einum kór. En straumbeljandinn og stormurinn máttu sín meira en raddstyrkur okkar, og var hann þó eigi lítill. Til allrar hamingju minntist Páll þess, að nokkurn spöl upp með ánni, okkar megin, væri bóndi, sem ætti bát, svo að hann fór og vakti bónda, en ég gætti hesta á meðan. Þeir rásuðu í allar áttir til þess að bíta, þrátt fyrir slagviðrið, svo að ég mátti hafa mig allan við. Í fyllingu tímans birtist ferjubóndinn og kona hans. Þau virtust hin ánægðustu yfir því að vera rifin upp úr rúminu um miðja nótt í kuldasteytingi til þess að vinna sér inn hálfan annan dal með því að ferja framandi næturhrafna og ferðadót þeirra yfir illkalt og úfið jökulfljót. Satt að segja, virtist sem

hinn ágæti Karon okkar liti á þetta sem hreina hundaheppni. Á þessum tíma árs er bjart alla nóttina.

Það létti til með morgninum, og Hekla blasti við okkur frá vaðinu á Ytri-Rangá. Við komum á bæ milli Ytri- og Eystri-Rangár til þess að borga einn reiðhestinn okkar, sem Páll hafði haft með sér til Reykjavíkur og áskilið sér að kaupa eða skila aftur. Við drukkum þar kaffi og héldum svo að Breiðabólstað, og var okkur að vanda tekið þar af mikilli góðvild og gestrisni. Við lögðum okkur í tvær klukkustundir og drifum okkur síðan austur að Holti og komum þangað kl. 1 e. h. Það var farið að halla degi, er við fórum þaðan, svo að við riðum léttan að Skógafossi, einum mesta og fegursta fossi landsins. Þar er myndarlegt býli og ákaflega aðsjált fólk. Ég geri ekki ráð fyrir, að það hafi náð í neitt af fjársjóðum þeim, sem eiga að vera fólgnir undir Skógafossi, en því tekst bersýnilega að krækja sér í marga krónu hjá ferðamönnum, sem koma þangað til þess að dást að fegurð hans.

Áfram höldum við, fram hjá svellbunkum Sólheimajökuls, að Heiði, þar sem okkur var tekið með slíkum ágætum árið áður. Kl. var 10 að kveldi, er átta mjóslegnir hestar og tveir grútsyfjaðir ferðamenn riðu í hlað á þeim góða og gestrisna bæ.[1])

1) Um þessar mundir bjó að Heiði séra Snorri J. Norðfjörð, prestur til Reynisþinga. Fer Watts lofsamlegum orðum um prest og heimili hans í ferðabók sinni frá árinu 1874. Dætur prestsins hafi jafnvel verið fallegustu stúlkur, sem þeir sáu á Íslandi. Þær spiluðu á orgel, og á kvöldin var oft glatt á hjalla, er heimilisfólkið söng íslenzka söngva, en ferðalangarnir enska. Gömul þjóðlög eru flest þunglamaleg, segir Watts, en nú orðið kunna menn líka mörg falleg sænsk lög. — J. Ey.



*Skógafoss.* — (Paijkull, 1866)

Heimilið er fátækt, þótt fólkið vinni af dugnaði. Ævi þess hlýtur að vera sífelld barátta við fátækt, vonda veðráttu og ófrjóa mold. Það á nokkrar kindur og nautgripi í haganum, nóga veiði í vatninu og er ánægt með sitt. En nægjusemi þessa fólks á allt aðrar rætur en í Lækjarbotnum. Hérna gerir fólkið sér vonir um bættan hag vegna góðrar búsýslu og heppni með búsmalann. Vonglöð nægjusemi á lítið skylt við vonlausa nægjusemi. Hin fyrri er vakandi um sinn hag og lætur ekki happ úr hendi sleppa, hin síðarnefnda er sokkin í kviksyndi örvæntingar, eygir hvergi von um bættan hag og kann því ekki að grípa tækifærið, þótt það kynni að bjóðast. Á Heiði vorum við einn dag um kyrrt, en héldum þá förinni áfram austur á bóginn og riðum sem mest við máttum yfir Mýrdalssand að Kúðafljóti. Í fyrra gátum við riðið þessa á við illan leik, nú urðum við að fara á ferju. Sýnir þetta dæmi, hversu breytilegar árnar eru á Íslandi.

Af ferjumanninum keyptum við nokkra skúma, en þeir þykja mjög góðir til átu. Um nóttina gistum við í Króki. Bóndinn þar hafði áður tekið þátt í einum Vatnajökulsleiðangri mínum. Hann gaf okkur álftakjöt að borða. Það er líkast seigu nautakjöti og ekki auðtuggið, en vissulega saðsamt og bragðgott. Olgeir bóndi hafði mjög gaman af að skjóta og virtist líka býsna heppinn, þótt byssuhólkurinn væri ekki á marga fiska. Að minnsta kosti voru margir álftahamir spýttir á bæjarveggina, og hann átti mikið af söltuðu álftakjöti. Íslenzkir svanir eru verðmætir vegna dúnsins, en vindfjaðrirnar eru sjaldan nokkurs virði, af því að þær eru aldrei svanhvítar. Álftarhamur selst á h. u. b. einn ríkisdal.



*Dverghamrar á Síðu.* — (Howell, 1893)

Eftir að hafa labbað stundarkorn um hraunið, sem rann úr Skaftárjökli í hinu eftirminnilega gosi 1783, héldum við áfram. Þennan dag var mjög heitt í veðri, alveg eins og á júlídegi í Englandi. Leið okkar lá fram hjá hinum undurfagra Fossi á Síðu,[1]) sem freyddi eins og silfurlöður í sólskininu fram af h. u. b. 200 feta háum, dökkleitum

1) Hér hefur Watts ritað í ógáti *Seljalandsfoss.* — J. Ey.

blágrýtisstalli. Þaðan er skammt að Hörgsdal, og þar var einn af jökulmönnum okkar (Svo nefnir Páll alla, sem hann hefur ráðið í ferðina.), Eyjólfur að nafni. Hann var einhver úthaldsbezti, glaðlyndasti og viðmótsþýðasti maður, sem ég hef nokkru sinni þekkt.

Bóndinn var í ætt við bóndann á Núpsstað, hálfri dagleið austar, en á Núpsstað hafði mér verið forkunnar vel tekið bæði 1871 og 1874.

Bóndinn í Hörgsdal reyndist mér einstaklega gestrisinn eins og frændi hans. Hann hafði mikinn áhuga á ferð minni og var boðinn og búinn til að hjálpa mér á allan hátt.

Daginn eftir fórum við upp á Kaldbak, 2279 feta hátt fjall, til þess að sjá yfir suðvestanverðan Vatnajökul, sem blasir við norður undan. Kaldbakur er nokkrar mílur norður af Hörgsdal.

Bóndinn slóst í för með okkur. Við fórum ríðandi upp í efstu grös, en gengum þaðan á fjallið. Jökullinn var áreiðanlega hvítari en ég hafði nokkru sinni séð hann áður, en hann teygði sig eins og fyrri daginn svo langt sem augað eygði norður eftir, þögull, ægifagur og flekklaus, nema á fáeinum stöðum yddi á dökkleit sker og klettakolla upp úr freranum. Þeirra gætti lítt á hinum mjallhreinu bungum hájökulsins, en þyrptust saman syðst og vestast, á svokölluðum Skaftárjökli. Í morgunsólinni voru hnúkar þessir næsta lítilfjörlegir og hrekklausir ásýndum, en þeir höfðu spúið hrauni því, sem lagði í eyði sléttlendið hið neðra, og þeir höfðu leyst úr læðingi eldgang þann, er annað slagið skekur þetta land niður að neðsta grunni.

## II. KAFLI

# Á Núpsstað. – Breiðamerkurjökull.

Ég var í léttu skapi, er ég reið í hlaðið á Núpsstað og hitti Eyjólf bónda, sem tók mér alúðlega eins og gömlum og góðum vini, enda hafði hann átt okkar von. Ég settist að eins og fyrri daginn í bænhúsinu, sem hætt er að nota, en þar er ágætur gististaður fyrir ferðalang eins og mig, og svo notar Eyjólfur, vinur minn, það fyrir skemmu. Mér fannst sem ég væri heima hjá mér, þegar ég brölti upp í fletið, sem hafði verið tildrað á kassa í einu horninu, og ég kannaðist vel og notalega við mig, er ég hafði gleypt í mig morgunmatinn og settist við að skrifa dagbók mína á hinu fornfálega altari. En hneykslizt ei, kæru lesendur! Allur heilagleiki hafði fyrir löngu viðrazt af þessu þarflega húsgagni, og væri því upp lokið, blasti þar hvorki við helgir dómar eða messuklæði, heldur blátt áfram heimaofin spariföt húsfreyjunnar á bænum.

Bærinn og fjallið yfir honum hafði lítt breytzt, síðan ég kom hér í fyrsta skipti, fyrir fjórum árum. Á Núpsstað er hvert árið öðru líkt, allt gengur sinn vanagang, utan þeirra óhjákvæmilegu breytinga, sem fæðingar og dauðsföll hafa í för með sér. Fólkið hafði breytzt mest, því að



*Núpsstaður. Bænhúsið, sem Watts gisti í til hægri. Það stendur enn.*
(Teikning eftir D. Bruun rétt fyrir aldamótin.)

vitanlega var það orðið rosknara, og ég saknaði eins eða tveggja andlita úr hópnum. Nú, jæja, ég var líka orðinn eldri, — og ekki dugir að sökkva sér niður í dagdrauma. — Ég þurfti að kaupa bolakálf, láta slátra honum og salta til þess að geta búið til kæfu, en svo nefna Íslendingar pemmíkan það, sem ég hef í jökulferðir mínar. Skjóður og skinnsokka þarf að sauma, smjör, brauð og harðfisk þarf að útvega, — í stuttu máli verður að snapa saman í nágrenninu mestan hluta af þriggja vikna nesti handa sex mönnum. Við gerðum nauðsynlegar ráðstafanir og ákváðum, að allur útbúnaður skyldi vera til reiðu að viku liðinni. Því næst skikkuðum við föður Páls til þess að sanka dótinu saman og borga það. Því næst var bolinn sleginn af,

limaður sundur og saltaður, og þá var okkur fátt að vanbúnaði.

Við áttum samt í dálitlu basli með að komast af stað, vegna þess að allir bændur í grenndinni voru í óðaönn að búast til ferðar með vorullina sína austur á Papós, en þangað eru fjórar dagleiðir, og nú höfðu borizt þær fréttir, að Breiðamerkurjökull hefði ruðzt fram svo gríðarlega, að ekki væri annað sýnna en hann myndi teppa allar samgöngur á strandlengjunni, enda var hann kominn fram undir flæðarmál. Sakir þessara ótíðinda flýttu allir sér með ullarþvottinn. Ullin var soðin í gríðarstórum pottum til þess að losa óhreinindin úr henni, og myndarlegar heimasætur kepptust við að skola hana í tærum fjallalækjum, sem renna allajafna fast við bæina í þessum landshluta; — drifhvítar ullarbreiður lágu til þerris á vellinum, og karlmennirnir höfðu þann starfa að mæla ull í kyndugum trémeisum, troða henni í poka og binda í jafnþungar klyfjar, svo að þær sætu án áhalla sitt hvorum megin á reiðingshestunum. Það væri ljóta greyið, ef leiðin lokaðist til Papóss, því að þá yrðu bændur tilneyddir að fara alla leið út á Eyrarbakka til þess að skipta á ullinni og nauðsynjum sínum. Við létum Núpsstað að baki og héldum austur að þessum skriðjökli. Við okkur blöstu hinar snjóvgu hlíðar Öræfajökuls.

Leiðin lá yfir Súlu eða Núpsvötn öðru nafni. Þau voru dýpri en ég hafði áður vitað, þótt vatnsmagnið hefði vart aukizt. Farvegurinn hafði breytzt og var bæði grýttur og blautur. Árið 1871 var hann eingöngu grýttur, 1874 var hann sendinn og 1875 grýttur og sendinn.

Þegar yfir ána var komið, riðum við sem mest við mátt-

um austur yfir eyðimörkina Skeiðarársand. Sandur þessi er 300 ferhyrningsmílur að víðáttu. Hann hefur myndazt fyrir tilverknað eldgosa í Vatnajökli og Öræfajökli. Þau hafa rutt úr sér ösku og öðrum gosefnum, sem vatnsflaumurinn á Skeiðarársandi hefur síðan borið fram og jafnað úr. Svo virðist sem jökullinn, sem liggur fram á Skeiðarársand, hafi hagað sér á svipaðan hátt og Breiðamerkurjökull, því að á söndum þessum getur að líta fjölmarga jökulgarða, og sumir þeirra eru langan veg frá fremstu jöðrum jöklanna, eins og nú er. Það leynir sér ekki, að útjaðrar Vatnajökuls hafa gengið fram síðan 1871. Hins vegar er það engin sönnun þess, að jökull hafi í raun og veru skriðið fram, þótt rispaðir steinar sjáist í jökulgörðum framan við þá, því að við eldsumbrot hlaupa iðulega fram stórar jökulspildur, er rispa harðar klappir, en grópa hinar mýkri, sem fyrir verða, og þegar jökulísinn bráðnar, skilur hann eftir stóra hauga og jökulaura, sem ómögulegt er að greina frá venjulegum jökulgörðum á láglendinu.

Við fengum hvassviðri í fangið og ausandi rigningu, en vestan undir Öræfajökli blasti við glaðasólskin, svo að við hvöttum hestana sem mest við máttum yfir hina gljúpu sanda.

Það ýtti undir okkur að eiga fyrir höndum að kanna hina fannhvítu jökla og snjóvgu hlíðar, sem virtust laða sólskinið að sér og hindra það í að koma til móts við okkur.

Loks komumst við í hlé af fjöllunum fram undan. Í vari fyrir vindi og regni gátum við numið staðar til þess að dást að hinum stórleita fjallahring frá Öræfajökli að upptökum Skeiðarárjökuls. Að baki okkar, í áttina til

Núpsstaðar, var dimmviðri; skýin hrönnuðust um Lómagnúp, en það fjall virðist stefna öllum illviðrum að Núpsstað, og á vestanverðum Skeiðarársandi var sýnilega stormbeljandi, enda er hann opinn við austanveðrum.

Við fórum yfir Skeiðará og komum að hinu sögufræga Svínafelli. Við stönzuðum þar til þess að hressa okkur á því, sem öllum íslenzkum ferðamönnum er allra meina bót, sem sé ósviknum kaffibolla. Sú íþrótt, að búa til gott kaffi, er ein höfuðdyggð íslenzkra kvenna, og væri betur, að annarra þjóða konur legðu meiri stund á það en almennt gerist. Góður kaffisopi er jafnan á boðstólum, þótt á kotbýli sé, og í rauninni má það furðulegt heita, hversu gott kaffi Íslendingar búa til, því að kaffið, sem kaupmenn hafa á boðstólum, er aldrei af beztu tegund; það er aðallega Java-kaffi. Aðalgaldurinn í þessu efni er efalaust sá, að kaffið er brennt heima, brennt alveg mátulega og síðan meðhöndlað á einhvern sérstakan hátt, sem einungis löng reynsla og æfing fær kennt. Þá spillir það ekki þessum þjóðlega kjördrykk, að oftast fylgir honum vænn skammtur af hnausþykkum rjóma.

Þegar við höfðum þegið hressinguna, var okkur sýnt birkitré á bak við bæinn. Tréð var á að gizka 25 fet að hæð og álitið stærsta tré þar nærlendis. Hins vegar er talsverður kjarrskógur, aðallega birki, í svokölluðum Núpsstaðarskógi. Það er langstærsti skógur á sunnanverðu landinu. Núpsstaðarskógur er líka frægur fyrir villifé, sem gengur í honum. Það tilheyrir Eyjólfi, vini vorum, því að hann á allan skóginn ásamt höfuðbólinu Núpsstað. Annar skógarblettur er líka nyrzt og vestast í Öræfasveit, til mik-

ils hagræðis Svínfellingum og öðrum búöndum í grenndinni.

Fjallið upp af Svínafelli er úr basalti, en þegar lengra kom austur á bóginn, var allt þakið nýlegum gosefnum úr Öræfajökli, sem gnæfði yfir okkur á vinstri hönd. Við sáum hóp ríðandi manna koma á móti okkur og stefndum í veg fyrir þá, svo að við hittumst á hagabletti nokkrum skammt frá veginum.

Þarna var á ferð alþingismaður nokkur á leið til alþingisfundar í Reykjavík ásamt fylgdarmönnum sínum og prestinum í Sandfelli, en þar hafði hann gist um nóttina, og var prestur nú að fylgja honum úr hlaði. Presturinn reyndist vera náfrændi Páls, fylgdarmanns míns, svo að eftir litlar bollaleggingar báðum við alþingismanninn að bera kveðjur til kunningjanna í Reykjavík og riðum svo sem leið liggur að Sandfelli.

Leið okkar lá fram hjá mörgum ljósleitum vikursköflum, sem allir stöfuðu frá gosi í Öræfajökli. Svo sprettum við úr spori yfir gjall og hraunklepra, og bar von bráðar að kirkjustaðnum og prestsetrinu.

Sandfell stendur við rætur Öræfajökuls. Að baki gnæfa gróðurlaus fjöll úr þéttri samryskju af eldfjallaösku og gosgrjóti, en prestinum er ekki svo mikil vorkunn, þótt umhverfið sé ömurlegt, því að hann á þá alfallegustu konu, sem ég hef séð á Íslandi.[1]) Hún virtist sárgröm, af því að ég gat ekki fallizt á, að Sandfell væri sérlega fallegur staður. Héðan lá leiðin yfir hraun og aurskriðu, sem mér var

1) Séra Stefán Björnsson frá Árnanesi. Konan: Andrea Lúðvíksdóttir Knudsen. Hún átti síðar Þorgrím lækni Þórðarson í Keflavík. — J. Ey.

sagt að stafaði frá gosi í Öræfajökli 1362.[1]) Skriða þessi er næsta kynleg, því að þar hefur hraun og hálfbráðinn aur runnið fram samtímis í einum hrærigraut. Aurinn virðist þó yfirgnæfandi, en það getur stafað af því, að hraunið sé þyngra í sér og hafi þess vegna lent neðst í skriðufallinu.

Um nóttina gistum við á Fagurhólsmýri, suðvestan við Breiðamerkursand. Bóndinn þar var að búa sig austur á Papós með ull — eins og allir aðrir í sveitinni. Bæði um kvöldið og morguninn átum við fugla, sem gestgjafi okkar kallaði svartfugl. Það var bezta fuglaket, sem ég hafði bragðað á Íslandi, bæði meyrt og mjög bitastætt. Mér féllst svo vel á það, að ég fékk einn fugl með mér í nestið.

Á þessum bæ skildum við eftir reiðhest Páls, hann var meiddur á baki, leigðum óþreyttan hest í staðinn og lögðum svo upp á Breiðamerkursand. Sandur þessi er, eins og Skeiðarársandur, orðinn til fyrir atgang Öræfa- og Vatnajökuls, einkum þess hluta Vatnajökuls, er Breiðamerkurjökull nefnist og við áttum einmitt að rannsaka ganginn í.

Leiðin yfir sandinn er löng og ömurleg, einkum í slíku veðri, sem við lentum í. Við fórum hjá heilmiklum tjaldbúðum bænda, sem voru á leiðinni til Papóss, en með því að þeir töldu vonlaust að leggja í stórárnar á Breiðamerkursandi í slíku veðri og með þungklyfjaða hesta, höfðu þeir ákveðið að liggja um kyrrt á hagablettinum, þar sem þeir voru komnir.

Þegar við höfðum farið þriðjung vegar yfir sandinn, bar

---

1) Leiðrétt fyrir 1862, sem er vitanlega pennaglöp. Annars er hér átt við aurskriðu eftir gosið 1727. — J. Ey.

okkur að bænum Kvískerjum, sem stendur á dálitlum grashólma. Okkur fannst það tilvalinn áningarstaður og urðum fegnir, þótt votir værum, að setjast í húsaskjól um stund og fá kaffi og brennivín og tóbakspípu. Engir gluggar voru á vistarverunni og allt var fullt af spýtum og smíðatólum, því að verið var að stækka húsið. Eftir stutta viðdvöl hlupum við því á bak og riðum greitt í stefnu á fremsta sporð skriðjökulsins.

Jökull þessi virðist ólíkur flestum íslenzkum jöklum, sem ég hef séð. Í stað þess að enda í aðlíðandi bratta eða ávölum bunka, oft sprungnum, en oftast nær jöfnum við sig, endar hann í veggbröttu hrúgaldi úr alla vega klofnum og umsnúnum jakabáknum, og uppi á brúninni gnæfa trjónur og turnar eins og rosalegar jötnahallir. Sumar þeirra riðuðu til falls, meðan við stóðum og störðum á öll þessi forundur.

Það er vissulega alvarlegt mál, hversu stutt bilið er orðið milli jökuls og sjávar, á einum stað aðeins 250 yards [= 228 m], og auk þess hafa nýjar ár myndazt frá jökli til sjávar, og yfir þær verður að fara, en það myndi með öllu ófært í sunnanbelgingi. Jökulsá hefur löngum verið ill viðureignar, en þegar hún flæmist auk þess yfir alla bakka og breytir sandinum í kviksyndi á margra mílna leiðarkafla, nýjar vatnsrásir myndast og jökullinn sígur sífellt lengra fram, — þá er sízt furða, þótt héraðsbúar óttist um leiðina til Papóss.

Það kann að vera nokkur huggun, að jökullinn hefur áður hlaupið fram og síðan hopað eftir alllangan tíma. „Samt hefur hann aldrei ruðzt fram eins og hann gerir nú,“ sagði mér roskinn maður í byggðarlaginu, og við

fyrri framhlaup hefur hann samt alltaf unnið nokkuð á. — Já, vesalings Ísland! Bæði eldur og vatn virðast herja það í sameiningu, einkum vatnið í öllum myndum: Sjóðandi, kalt og freðið eða sem regn, hagl, snjór og saggi! Á kafla vorum við nauðbeygðir til að þræða fjöruborðið og komum þar auga á stórt fiskhræ og einhverjar dökkleitar þústir á hreyfingu í kringum það. Þegar betur var að gáð, reyndist þetta hvalþjós, sem bersýnilega hafði legið alllengi. Dökku þústirnar hófu sig í loft upp, þegar við nálguðumst — og það voru þá reyndar sömu fuglarnir og okkur hafði smakkazt svo vel um morguninn á Fagurhólsmýri. Mér hefur aldrei smakkazt svartfugl alveg eins vel síðan.

Loksins var Breiðamerkursandur að baki, ný fjallasýn opnaðist og það birti í lofti. Á hægri hönd varð einkennilegt lón, Breiðabólstaðarlón; það er mjór fjörður, tólf mílna langur, er takmarkast að sunnanverðu af háum granda meðfram sjávarströndinni. Ós liggur til sjávar úr lóninu að norðaustan, en hann er of grunnur til þess að vera fær skipum.

Um kvöldið náðum við að Kálfafellsstað. Það er skemmtilegt bæjarstæði undir fjallmúlum Vatnajökuls. Fjöll þessi eru aðallega úr möndlu-basalti og mikið af geislasteinum í; einkum er mikið af glossasteinum, og bezt gæti ég trúað, að þar mætti finna verðmikla ópala. Á þessu landshorni virðist sérlega mikið um geislasteina. Ég tók líka eftir þessu, þegar ég var í Berufirði.

Um nóttina gistum við hjá enn öðrum ættingja Páls; sá maður virtist eiga frændfólk um allt land, og sýndist mér það hinn ágætasti ættbálkur. Þessi ættingi hans var ekkja

fyrrverandi prests á Kálfafellsstað.[1]) Af henni keyptum við hest og réðum son hennar, 17 ára pilt, til fylgdar, því að við þurftum fullorðinn mann og ungling til þess að reka hestana austur og norður um land, meðan við færum yfir Vatnajökul. Ekkjan og dóttir hennar fylgdu okkur á leið, er við héldum til baka, og eftir tveggja daga reið vorum við aftur á Núpsstað.

Nú hófst undirbúningur undir för okkar yfir Vatnajökul fyrir alvöru. Sleðar og snjóþrúgur hafði verið smíðað eins og til stóð. Allt var komið nema fylgdarmennirnir og smjörið. Morguninn eftir fékkst samt nægilegt smjör til þess að gera kæfuna, og þar hafði ég sjálfur hönd í bagga.

Eldur var kveiktur, vatn hitað í heljarstórum potti og kjötið soðið. Því næst var allt kjötið brytjað í bita á stærð við flöskutappa. Páll eldri og ég hófum verkið með því að taka beinin úr. Við notuðum beitta hnífa og unnum af kappi í nokkrar klukkustundir og höfðum þá brytjað 78 pund af kjöti. Því næst voru 20 pund af söltu smjöri og hálft pund af salti brætt í pottinum og kjötið vandlega hrært saman við. Að vörmu spori var kæfan tilbúin, og skyldi því næst setja hana í skjóður til flutnings.

Skjóðurnar voru hafðar í köldu vatni, meðan þær voru fylltar, svo að eigi skyldi leka með saumum. Þegar þær voru fullar, var bundið fyrir opið, og síðan voru þær settar út í læk og borið á grjót til þess að fergja kjötið. Þegar kæfan var orðin nægilega köld (Það tók um 20 klst.), var hver skjóða sett í venjulegan poka til þess að gera þær

1) Oddný Friðrika (f. 8. júní 1820, d. 17. okt. 1888) Pálsdóttir prests að Sandfelli Thorarensens, ekkja séra Sigbjarnar Sigfússonar (1821—1874). Anna, dóttir þeirra, giftist síðar Páli *jökli*. — J. Ey.

meðfærilegri, því að fitugar skjóður, fullar af kæfu eru fremur sleipar í hendi og miður geðslegar viðkomu.

Hinn 25. júní hafði ég lokið öllum undirbúningi, og fylgdarmenn voru mættir. Þeir voru: Páll Pálsson og frændi hans úr Skaftafellssýslu; Helgi frá Króki; Finnur úr Mýrdalssýslu; Eyjólfur frá Hörgsdal, og skyldu þessir fylgja mér yfir Vatnajökul.[1]) Auk þeirra var Bjarni, sem fór með mér í fyrra; bóndinn á Rauðabergi, sem annast póstferðir milli Prestbakka og Berufjarðar; mállaus og heyrnarlaus maður og loks Vigfús nokkur. Þessir fjórir ætluðu að fylgja okkur norður að fjalli því, er ég kallaði Pálsfjall í fyrra, en þangað er um þriðjungur vegar yfir jökulinn. Ég hafði einnig samið um það við föður Páls og Árna litla frá Kálfafellsstað, að þeir skyldu fara með hesta okkar austur fyrir Vatnajökul til Norðurlands.

Farangur okkar ætluðum við að draga á litlum sleðum. Þar á meðal var lágt tjald, fjögur fet á hæð, og stór svefnpoki, átta feta langur og fimm feta breiður. Í honum áttum við allir sex að liggja. Önnur hliðin var gerð úr korki og flóka og klædd olíudúk, en hin úr þykku teppi einnig klædd vatnsheldu efni. Pokinn var opinn í báða enda, svo að þrír menn gætu sofið hvorum megin, tilfætis. Hettur voru á báðum opum og skýldu þær okkur ágætlega, þegar við sváfum, og auk þess hindruðu þær, að snjór kæmist

1) Nöfnin hafa brenglazt nokkuð hjá höfundinum. Í *Þjóðólfi* (2. sept. 1875) segir Watts, að þessir hafi fylgt sér yfir jökul: Páll Pálsson úr Vestmannaeyjum, Kristófer Þorvaldsson frá Fossi á Síðu, Olgeir Þorsteinsson frá Króki í Meðallandi, Eyjólfur Bjarnason frá Hörgsdal á Síðu og Sigurfinnur Ketilsson frá Bólstað í Mýrdal. Þeir voru menn á aldrinum 21—28 ára. — J. Ey.

ofan í pokann. Hann vó aðeins 16 pund, þótt hann skýldi sex mönnum. En legurúm þetta hafði sína anmarka, ef t. d. einhver fékk sinadrátt eða hafði mjög harðar draumfarir, sögðu þrengslin eftirminnilega til sín. Enn fremur reyndist lítt mögulegt að halda innra borði pokans þurru vegna útgufunar frá okkur sjálfum. Ég hef brotið heilann mikið um þetta efni, en niðurstaðan er sú, að þetta sé skársti útbúnaður, sem unnt er að fá, þegar um er að ræða langa dvöl á votum snjó og léttleiki er höfuðatriði.

Í nesti höfðum við 100 pund af kæfu í skinnskjóðum, 50 pd af smjöri, 100 pd skonrok eða danskt skipsbrauð, 15 pd harðfisk, 15 pd hangikjöt, 12 pk kraftsúpu, 2 stauka „Soupe Julienne“ í pökkum, 6 stauka súkkulaði og mjólk, 2 pd kakaó, 4 pd sykur, 2 gallon af ósviknu wiskýi, 1 gallon af spritti til brennslu, 5 pd tóbak og 3 stauka af Peek and Freans kjötkexi. Ég hafði lítinn rússneskan ofn, sem er ágætt tæki til að hita vatn og bræða snjó. Auk þessa höfðum við nóg af hlýjum fötum til skipta, regnföt og skinnsokka, því að ógerlegt er að ganga á leðurskóm í snjó, og loks nauðsynleg áhöld og mælitæki.

III. KAFLI

## Norður yfir Vatnajökul.

*24. júní 1875.*[1])

Allt var tilbúið, og sá dagur var loks upp runninn, er við skyldum leggja til atlögu við Vatnajökul. Við vorum árla á fótum, en það var komið hádegi, er við lögðum af stað. Ég kvaddi Eyjólf bónda, sem ekkert vildi þiggja fyrir uppihald mitt og minna hesta. Hann var of heilsulinur til þess að fylgja okkur á Vatnajökul, en hann virtist mjög hrærður, er hann kvaddi okkur, því að hann sagðist vera viss um, að það yrði í síðasta sinn, hvort sem við kæmumst yfir jökulinn eða ekki. Ég reyndi að hressa hann og kvaðst vonast eftir að koma einn góðan veðurdag aftur að Núpsstað. — Síðan stigum við á bak, riðum Djúpá og lögðum því næst á brattann upp yfir Kálfafellsfjall, en um það liggur leiðin upp að Vatnajökli.

Vegurinn var mjög þungur fyrir hestana. Það er hann,

Watts nefnir í raun og veru aldrei daginn, sem hann lagði upp á Vatnajökul. Hef ég því bætt dagsetningum inn í eftir bréfi hans í *Þjóðólfi* og *Annál 19. aldar* — eða áætlað þær samkvæmt frásögn Watts. — J. Ey.

jafnvel þá bezt lætur, en nú lágu enn djúpar fannir af hlákusnjó, og milli þeirra voru aurbleytur. Sums staðar varð að fara yfir gil og grafninga fulla af snjó. Hestarnir voru mjög ragir við slíkar snjóhuldur, og þar sem göt höfðu dottið á þær, var erfitt að koma þeim úr sporunum, því að niðurinn af ánni á gilbotninum gerði þá pratalega. En snjórinn hafði hlaupið saman í harðan og þéttan kökk af því að þiðna og frjósa á víxl og var víða nokkurra metra þykkur, svo að ég held, að hættan hafi í rauninni ekki verið sérlega mikil. Þessir fyrstu erfiðleikar urðu líka brátt yfirstignir, og kl. 6 um kvöldið vorum við komnir þangað, sem grjótin enda og sísnævi Vatnajökuls tekur við.

Á okkur skall hvöss krapahryðja. Ég lét þegar tvo menn fara að hita kaffi, því að við höfðum flutt með okkur spýtur í þeim tilgangi. Aðrir fóru að gefa hestunum og leysa baggana. Kaffið hitnaði fljótt, storminn lægði, og það hlýtur að hafa verið eftirminnileg sjón, jafnvel alveg *unique*, er við þyrptumst allir umhverfis glóðina mitt í öllu draslinu, sem átti að fara norður yfir Vatnajökul, en hestarnir kröfsuðu ólmir að komast aftur í heimahaga sína. Fram undan var hin mikla, hvíta jökulbreiða, að baki dökkleit hamrafjöll, í eyrum okkar niðaði Djúpá og í austri blasti við augum hinn fegursti regnbogi, er boðaði okkur fararheill. Við treystum því.

Hér kvöddum við föður Páls og Árna, frænda hans, og sögðum þeim, hvar þeir skyldu bíða okkar með hestana fyrir norðan. Veður var skúralegt, en mér var minnistætt sandrokið, sem ætlaði okkur lifandi að drepa, þegar við tjölduðum hér í fyrra sumar, svo að ég ákvað að halda áfram og tjalda á snjó, þegar þörf gerðist, enda þótt fylgd-



*Syðri-Hágönguhnúkur.* — (Svala S. Jónsdóttir teiknaði eftir ljósmynd).

armenn mínir væru þegar byrjaðir að hlaða skýli úr lausagrjóti við jökuljaðarinn.

Á þessum stað var jökullinn mjög sprunginn í fyrrasumar og þakinn svörtum kömbum og sanddrýlum. Nú var jökullinn sjálfur gersamlega kafinn í snjó! Við gátum þegar í stað beitt sleðanum. Stefnan var tekin í hánorður, og jafnframt snerum við baki við byggðinni, en fyrir höndum áttum við erfiðasta áfanga ferðarinnar. Svo langt sem augað eygði var ekkert að sjá nema veglausar, helhvítar

snæbreiður, firrtar öllu lífi, hvort heldur dýrum, pöddum eða plöntum. Fótatak okkar heyrðist ekki, og jafnvel málrómur okkar lét framandi í eyrum í hinni dapurlegu dauðaþögn, sem aldrei er rofin nema af þyt stormsins eða drunum eldfjalla. Auðsætt var, að snjókoma hafði verið miklu meiri síðastliðinn vetur en veturinn næsta á undan; nýsnævi náði okkur í hné og tafði mjög ferðina og þreytti okkur. Er við höfðum kjagað áfram í þrjár klukkustundir, tók að snjóa og dreif yfir svartaþoku, svo að ég ákvað að tjalda. Ég hef vanalega þann háttinn á, þegar ég gisti á snjó, — og ég held það sé einna bezt og hlýjast, — að grafa holu, þriggja til fjögurra feta djúpa, tjalda yfir hana og bera vel snjó að skörunum. Síðan breiði ég svefnpokann á botn holunnar og gæti þess, að hettan sé brotin yfir opið, svo að enginn snjór komist í hann. Ef hvasst er, hleð ég snjóvegg vindmegin og læt allt, sem eitthvað þarf að nota, inn í tjaldið. Því næst dreg ég sleðann að tjalddyrunum, og má þá komast í farangurinn, ef eitthvað þarf að nota óvænt, án mikillar fyrirhafnar. Eftir að hafa stungið öllum stöfum og skóflum duglega niður í snjóinn, svo að þau fenni ekki í kaf, skríðum við í tjaldið, setjumst á olíudúkinn ofan á pokanum og förum úr vosklæðum í þurr föt. Síðan skríðum við allir í pokann, en hengjum áður vatnsheld hlífðarföt á snjóvegginn við höfðalagið til þess að hafa við herðarnar. Ef frost er ekki mjög mikið, hengjum við vosklæði okkar á snúru í tjaldmæninum, ásamt bókatöskum og öðru slíku, en sé frosthart, breiðum við hlífðarfötin undir legurúmið. Þessu næst er bræddur snjór, soðin súpa eða súkkulaði og matur skammtaður, en að því loknu bætum við okkur í munni með groggsopa, kveikjum í pípu og

tökum lagið. Þar með er dags- og næturverkinu lokið, eftir því sem verkast vill, því að nóttin er björt sem dagur, og svo leggjumst við til svefns.

Á þennan hátt bjuggumst við um fyrir nóttina í þetta skipti, sex lágu í hvílupokanum á mjög svipaðan hátt og sardínur liggja í dós. Hinir fjórir, sem aðeins áttu að fylgja okkur að Pálsfjalli, bjuggu um sig, sem bezt þeir gátu, í teppum og olíukápum í framanverðu tjaldinu. Ég skipaði öllum að fylla vatnsflöskur sínar af snjó og stinga í vasann, svo að þeir gætu fengið sér vatnssopa, þegar þeir vöknuðu. Innan stundar heyrðist ekkert nema þungur andardráttur og hrotur hinna níu förunauta minna. Ég lauk við að skrifa í dagbók mína, sofnaði síðan og svaf vært um stund, en vaknaði þá við ógnarlæti í hinum enda tjaldsins. Ég kallaði til Páls og spurði, hver þremillinn gengi á í hans enda. Hann svaraði í djúpum, hátíðlegum rómi: „Sá mállausi er að sparka sér til hita." Enda þótt þeim góða manni væri ugglaust kalt á fótunum, gat ég ekki fallizt á þessa aðferð til að verma þá í tjaldi, sem aðeins var 10×6½ fet, svo að ég mælti svo fyrir, að annar maður skyldi nudda býfurnar á þeim mállausa og verma þær í handarkrika sínum.

*25. júní.*

Um morguninn var þoka og hvassviðri, en innan tíðar lægði veðrið. Ég hitaði súpuspón handa öllum, og svo héldum við af stað. Eftir stundarferð syrti að með bleytukafaldi, og ófærðin varð svo mikil, að ég varð að láta staðar numið, þótt mér væri það allt annað en ljúft. Á tíunda tímanum um kvöldið birti upp, vindur varð norðvestan-

stæður og sá til sólar. Við fórum þá á kreik, en snjórinn var hnédjúpur, og ég þóttist sjá, að fylgdarmenn mínir væru að gefast upp. Eftir nokkurra mílna göngu lét ég því nema staðar. Veður var frjósandi, og mátti því ætla, að snjórinn yrði mannheldur eftir eina eða tvær klukkustundir. Við hrúguðum upp skjólvegg og skriðum sex í poka okkar undir beru lofti, en létum hinum fjórum eftir tjaldið og öll aukateppi.

*26. júní.*

Kuldinn var napur, en loftið mjög tært og bjart. Kl. 3 f. h. vakti ég fylgdarmenn mína. Hitamælir sýndi 20 stig á Fahrenheit undir frostmarki [÷ 11 C°]. Sterkur skari hafði myndazt á snjónum, vel mannheldur. Veður var hið fegursta, en norðanstrekkingur í fangið. Sleðinn rann léttilega, og þegar sólin gyllti hin hátignarlegu, fannhvítu kennileiti í grenndinni, virtist það vita á gott veður og fararheill. Andrúmsloftið var tært og hressandi. Eftir þriggja stunda göngu gafst einn maður (Vigfús) upp, kvaðst ekki komast lengra og lagðist niður — á snjóinn. En með því að frostið var orðið vægara, maðurinn vel búinn og mig grunaði, að hann væri að skrópa, skildi ég hann eftir, félögum hans að mjög nauðugu. Við höfðum vart farið hálfa mílu, er mér veittist sú ánægja að sjá hann koma lallandi á eftir okkur, og virtist ekki svo haltur sem hann hinkraði.

Leiðin upp jökulinn hafði hingað til verið jafnt og þétt á fótinn, en ekki brött. Nú varð hún mishæðóttari og heldur brattari, einkum til norðausturs, þar sem hver snjóhjallinn tók við af öðrum upp að fjalli því, er ég kallaði Vatnajökull „Housie“ í fyrra, af því að hátindur þess, sem

þá var auður,[1]) líktist mjög húsþaki tilsýndar úr ákveðinni stefnu. Nú bar minna á þessu, er fjallið var alhvítt.

Ég get ekki látið hjá líða að geta þess, hvílíkur ágætismaður hann er, pósturinn frá Rauðabergi.[2]) Hann er alltaf kátur, viljugur og greiðvikinn og tveggja manna maki að afli og hreysti. Mér þykir verst að geta ekki tekið hann norður yfir jökul, en hann má ekki vera svo lengi að heiman vegna póstferðanna. Kl. 9 í morgun sáum við Pálsfjall. Þar átum við góðan morgunverð og sá volaði náði okkur. Hann var duglegri að borða en draga sleðann.

Pálsfjall er þyrping af eldbrunnum hnúskum, einum stórum og nokkrum minni, gnæfir um 150 fet [45 m] yfir snjóbreiðuna í kring. Sunnan undir því hefur bráðnað djúp, hálfmánalöguð gróf við endurkast sólargeisla frá berginu, og þar fengum við yfrið nóg vatn. Fjallið er hlaðið upp úr ýmsum afbrigðum hrafntinnu, sum líkjast mjög gleri, önnur gráleitu grjóti, — og svo er allt þar á milli. Nokkur hluti fjallsins er úr hrafntinnugleri, sem bindur saman fjölmargar hnöttóttar steinblöðrur, svonefnda kúlusteina eða baggaluta.

Við lögðum okkur til svefns í 1—2 klst. En færðin var

---

1) Hér er líklega átt við Þórðarhyrnu. Það er misskilningur, að hátindur fjallsins hafi verið auður. Vikurskaflar kynnu að hafa setið þar frá Grímsvatnagosinu 1873. Hitt er sennilegra, að Watts hafi tekið fyrir kletta kolsvarta skugga, sem oft eru norðan í snjóhengju á hátindi Þórðarhyrnu. Sú getgáta Ól. Jónssonar (Ódáðahraun I, 254. bls.), að Vatnajökulshús sé Esjufjöll, er fjarstæða, því að þau sjást alls ekki frá Pálsfjalli eða þar í grennd. — J. Ey.

2) Þessi ágæti maður hét Gísli Magnússon. Hann lifði frá 1829—1882, fluttist að Rauðabergi 1864 og var þar til æviloka. Annaðist póstferðir milli Prestbakka og Eskifjarðar. — J. Ey.



*Þórðarhyrna, sem Watts kallaði Vatnajökull Housie eða Vatnajökulshús. Þorv. Thoroddsen nefnir fjallið Búrfell í Vatnajökli.* — (Svala S. Jónsdóttir teiknaði eftir ljósmynd Hauks Hafliðasonar).

svo þung, að engin leið var að koma sleðanum áfram. Ég lét hjálparmennina fjóra halda heimleiðis. Þeir höfðu lítið sem ekkert að bera, enda höfðum við skilið eftir ríflegt nesti handa þeim við jökuljaðarinn. Með því að þeir áttu ekki sérlega góða vist í tjaldinu og veðurútlit var slæmt, vildu þeir heldur brjótast til baka í ófærðinni en eiga á hættu að verða veðurtepptir í 3—4 daga. Skömmu eftir að þeir fóru, tók að rigna, og þegar á kvöldið leið, varð það auðsætt, að ekki mundi frysta þá nótt. Vindur var orðinn SSA-stæður, hitamælir stóð við 33° Fahr. (= 0,6 C°), og snjórinn var orðinn svo gljúpur, að sums staðar sukkum við upp fyrir hné.

*27. júní.*

Daginn eftir var sama átt og þokan og slyddan engu betri. Þar eð engin tiltök voru að halda áfram, notaði ég tímann til að skoða bergið í Pálsfjalli nákvæmlega. Það gnæfir upp úr stórum gíg, sem nú er fullur af snjó. Fjallið er nærri eingöngu úr hrafntinnu og perlusteini. Þetta er eini staður á Íslandi, þar sem ég hef fundið hrafntinnu í föstu bergi. Vesturhlíð fjallsins vakti þó einkum athygli mína, því að hún er samsett úr óteljandi baggalutum eða kúlusteinum, sem límdir eru saman með hrafntinnu. Í þúsundatali höfðu smákúlur þessar veðrazt úr hrafntinnunni, og sums staðar hefði verið fljótlegt að tína fulla húfuna sína af þeim.

Veðrið skánaði ekkert um nóttina, og það var dálítið hlálegt að setja sér fyrir sjónir sex menn liggjandi í snjógryfju 4240 fet yfir sjávarmáli,[1]) og það á sjálfu Íslandi,

1) Þ. e. 1296 m. Að réttu lagi er Pálsfjall 1335 m, svo að mæling Watts er nærri lagi.



*Pálsfjall.* – (Svala S. Jónsdóttir teiknaði eftir ljósmynd Árna Stefánssonar frá apríl 1951).

— alla biðjandi um frost. — En það kom ekkert frost, og við gátum ekki hreyft okkur. Þetta var mikið mótlæti fyrir mig, sem hafði eytt miklu fé, tíma og erfiði til þess að ljúka við rannsóknarför yfir Vatnajökul. En veðrið var gott, og ég gat skrifað dagbók mína, hugsað mitt ráð, lært íslenzku, etið, drukkið og reykt á skriðufætinum í skjóli við Pálsfjall, þar sem hitamælir sýndi 75—80 stig á Fahrenheit móti sól. Það var einhver munur eða hafast við í snjónum. Undir kvöldið tók að frysta, svo að við bjuggum upp á sleðann og létum svo fyrirberast á Pálsfjalli, unz skarinn var orðinn nógu harður til þess að halda sleðanum. Kl. 10 um kvöldið var komið 12 stiga frost og norðvestan-blástur. Skarinn hélt sleðanum, en við urðum að kafa hnédjúpa fönn í hverju skrefi. Þetta var svo þreytandi, að við stöldruðum við eftir tvær klukkustundir í þeirri von, að skarinn mundi brátt verða sterkari. En vonbrigðin áttu ekki af okkur að ganga, því að vindur hljóp allt í einu í suðaustrið og jafnframt setti yfir þoku. Við drifum okkur samt af stað, og enda þótt færið versnaði og við sykkjum dýpra og dýpra í hverju spori, brutumst við áfram í fimm klukkustundir með því að blása mæðinni á 15 mínútna fresti. Svona færi kalla Íslendingar *brota* eða *brotafæri,* þegar skarinn brotnar við hvert fótmál.

*28. og 30 júní.*

Um 3-leytið um nóttina tók ég eftir skrýtnu fyrirbrigði. Sólin var á lofti og sást annað veifið gegnum þokuna, því að um þetta leyti árs, í 4500 feta hæð, getur varla heitið að sólin gangi undir, — hún syndir yfir sjóndeildarhring fast að hánorðri, hverfur þá hálftíma eða svo og birtist aftur í

NNA. Um sex-leytið er hún í háaustri, h. u. b. 40 gráður yfir sjóndeild. Að þessu sinni dreif þokuna á yfirborði jökulsins frá suðaustri, en gegnum hana gat að líta dökka skýjabólstra, sem rak óðfluga fyrir sólina úr þveröfugri átt.

Um þessar mundir herti veðrið og skall á svo iðulaust hríðarkóf, að ómögulegt var að átta sig á vindstöðunni. Áttavitinn hafði lengi verið að litlum notum, sennilega vegna seguljárns í berginu undir jökulsnjónum. Við höfðum því ekki annað en vindinn og sólina til að miða stefnu okkar við. Þegar áttavitinn er gagnslaus og veður bjart, held ég stefnunni með kringlóttu pappaspjaldi, sem skipt er í fjóra rétthyrnda parta. Með því að taka nákvæm mið á öll kennileiti má halda sæmilega beinni stefnu.

Nú gat ég hvorki notað áttavita, sól, vindstöðu eða spjald, og var því ekki um annað að gera en setjast að. Í tvo daga hélzt hríðin svo dimm, að enginn hefði farið mörg fet frá tjaldinu án þess að villast. Á þriðja degi lægði veðrið, vindur varð austlægur, og sá til sólar. Allir skriðu úr híðinu, en ekkert viðlit var að brjótast áfram sakir ófærðar. Við breiddum svefnpokann til þerris, því að hann var orðinn blautur af útgufun frá sjálfum okkur. Þetta var sumum fylgdarmanna minna samt lítt að skapi, því að aðgerðarleysið síðustu dagana hafði fengið talsvert á þá. Ég sá tvo dökkleita tinda upp úr jöklinum, annan um fimm mílur beint í norður, hinn um ellefu mílur til norðvesturs.[1]) Mig furðaði á því að sjá talsvert af ljósgráu eldfjalladusti á jöklinum. Mér þótti þetta næsta kynlegt, þar eð ég

1) Sennilega hefur Watts séð Hamarinn og Kerlingar, en bæði stefna og fjarlægð er ónákvæm ágizkun. — J. Ey.

vissi ekki um neitt eldgos í sunnanverðum Vatnajökli og stormurinn hafði staðið nokkurn veginn stöðugt úr suðaustri. Ég hafði alls ekki séð neina ösku af þessu tagi á sunnanverðum jöklinum. Mér skildist því, að þetta öskuryk hlyti annaðhvort að stafa frá gjósandi eldfjalli eða hafa borizt frá einhverju öskustráðu svæði norðan jökuls með loftstraumi úr öfugri átt við SSA-áttina, sem ríkt hafði hjá okkur síðustu dagana; hinir mislægu straumar hefðu skollið saman nokkru sunnan við tjaldstað okkar, en SA-áttin mátt sín meira og borið rykið á þessar slóðir.

„Vatnajökull Housie" [Þórðarhyrna] blasti við okkur og virtist hæsta kennileiti á öllum jöklinum. Við vorum staddir í 4500 feta hæð, en Hyrnan virtist að minnsta kosti 1500 fetum hærri. Hún er eins og hallfleytt keila í laginu, og í kíki mínum gat ég greint gríðarmiklar hraunkvíslar niður eftir hlíðunum. Að vísu voru þær á kafi í fönn, en samt mótaði fyrir óslėttum hryggjum báðum megin á fjallinu, og sums staðar náðu þeir býsna langt út á sjálfan jökulinn. Stórgos úr slíkum snævi þöktum eldfjöllum hljóta að vera hroðaleg, er feiknin öll af hrauni gubbast skyndilega yfir freðna jökulbreiðuna. Hins vegar er mér nær að halda, að smágos og lítils háttar hraunrennsli vinni ekki mikið á öðrum eins ógnarbreða og Vatnajökli. Ef ekki gýs einhverjum kynstrum af ösku fyrst, má gera ráð fyrir, að hraunið bræði sig gegnum jökulinn niður á fast berg og myndi eins konar pípu, sem hraunrennslið heldur áfram að streyma eftir, líkt og gengur og gerist á yfirborði jarðar eða stöku sinnum á mararbotni, — án þess að nein stórmerki gerist, og jafnvel stórgos geta varla haft áhrif út yfir þröngan bás.

*1. júlí.*

Um 4-leytið síðdegis snerist veður til SA-áttar eins og fyrri daginn, og þar eð engin von var um frost, skriðum við aftur inn í tjald. Nálægt miðnætti fór ég — víst í tuttugasta skipti — út ásamt Páli til þess að gá til veðurs. Við tókum í sleðann og komumst að raun um, að einn maður ætti fullt í fangi með að draga hann allslausan, en með lítils háttar æki sökk hann í, svo að við fengum ekki hreyft hann, þótt báðir toguðu af öllu afli. Sjálfir sukkum við mjög djúpt í, meðan við vorum að þessu. Síðustu þrjá daga hafði enginn fengið nema hálfan matarskammt, og þar sem allt er betra en aðgerðaleysi og ónógur matur, ákváðum við að skilja sleðann eftir og reyna að brjótast áfram með allan farangur á bakinu. Veður var dumbungslegt og slydduhraglandi, en vindur var nokkurn veginn stöðugur á áttinni: Við tilkynntum hinum ákvörðun okkar, og þeir samþykktu möglunarlaust. Því næst bundum við allt dótið í byrðar, snerum baki við sleðunum og illviðrinu, sem var í aðsigi, hrópuðum furðuhressilegt húrra og héldum í norðurátt. Því er ekki að leyna, að ástæður okkar voru allt annað en glæsilegar: Sex menn með þungar byrðar kjaga ófærðina í hné í hverju spori; ekkert sést nema þröngur þokuhringur, sem fylgir okkur fast eftir, tilbreytingarlaust, nema hvað hann er svartastur til suðurs, og úr þeirri átt stendur snarpur vindur með slyddudembum. Við stönzum með stuttu millibili, dauðuppgefnir, og eftir þriggja stunda strit voru tveir fylgdarmenn mínir orðnir örmagna og komust ekki lengra. Það var engin uppgerð. Ég lét því nema staðar og gaf öllum heitt grogg í snatri. Einn maðurinn spýtti blóði og annar hafði sára magaverki. Ég

hafði áður ráðlagt öllum að hafa ullartrefil utan um sig, en enginn hafði skeytt því. Í fyrrasumar kvaldist ég af iðraverkjum í Vatnajökulsferðinni, en nú hafði ég magabelti úr tjörubornu klæði og kenndi mér einskis meins á allri ferðinni.

*2. júlí.*

Daginn eftir var veður mun betra, sólskin og kaldara, en snjóél með köflum. Hitamælir var undir frostmarki allan daginn. Annar veiki maðurinn hafði náð sér, hinn var ekki ferðafær. Ég lét því sækja sleðana, enda höfðum við verið svo hyggnir að stinga þeim niður á endana, þegar við skildum þá eftir.

Kl. 9 um kvöldið var komið hörkufrost. Ég gaf öllum heitt grogg, og þar sem veiki maðurinn kvaðst heldur vilja drepast en hverfa til baka, tókum við stefnu NNA, en létum hann ganga lausan. Við höfðum sett allan farangurinn á annan sleðann, og drógu fjórir, en einn ýtti á eftir. Nú var skarinn orðinn svo sterkur, að þessi þungi sleði var léttari í drætti en tómur sleði hefði verið í gærkveldi. Leiðin var dálítið á fótinn þangað til kl. eitt um nóttina, að við komum upp á öldótta sléttu í 5750 feta hæð. Vesturloftið var skafheiðríkt og ég sá vel til Tungnafells- og Arnarfellsjökuls. Með því að taka mið af þeim þóttist ég sjá, að við værum komnir tvo þriðju vegar yfir Vatnajökul. Loft var þungbúið í suðri og austri, og vindur var kominn á suðaustan. Rétt á eftir hvessti og dreif yfir hrímþoku, svo allt klambraði. Mishæðirnar á jöklinum urðu meira og meira áberandi, oft um og yfir 100 fet. Þokuandstyggðin byrgði alla útsýn mér til sárrar gremju, því að

við hefðum vel getað farið fram hjá forvitnilegum hlutum án þess að verða þeirra varir.

*3. júlí.*

Við tókum ekki hvíld fyrr en kl. 3 um nóttina og átum þá Peek og Frean's kjöt-kex og snjó. Þegar ég segi snjó, á ég ekki við hið venjulega mjallhvíta sáld, heldur stórgerðan, ísborinn skarasnjó, sem við þrömmuðum á. Ég hef oft orðið að láta mér nægja snjó í vatns stað, bæði í N-Ameríku og á fjöllum uppi, og reynsla mín er sú, að því grófari og ísbornari sem snjórinn er, því betri er hann við þorsta og minni hætta á, að hann orsaki magaverki. Ef ekki næst í annað en lausamjöll, er skárra en ekkert að hnoða úr henni kúlu, — eins og hver aulabárður veit. Með öðrum orðum, því minna loft sem gleypt er með snjónum, því betra. Þegar snjórinn er hnoðaður, fer talsvert af lofti úr honum, eins og sést af litarbreytingunni, sem verður um leið og hann frýs aftur og hleypur í klaka. Þess vegna tókum við líka ísmærurnar í skaranum fram yfir hið tárhreina, frostkalda og freistandi nýsnævi, sem var fullt af lofti og hlýtur að hafa verið mun kaldara en hjarnsnjórinn undir. Við vorum staddir í 5900 feta hæð [1800 m], og frostið var 15 stig á Fahrenheit [÷ 8.3 C°]. Annað slagið grillti til sólar í gegnum þokuna, svo að auðvelt var að halda stefnunni, og áveðurs voru bjartir þokubogar stöðugir förunautar okkar. En þetta voru einfaldir bogar og hvorki krossar né kórónur innan í þeim, eins og ég sá á Mýrdalsjökli í fyrrasumar.

Kl. 6 sd. bar okkur að brattri brekku, þar sem áttavitinn lét öllum illum látum. Himinninn varð biksvartur áveðurs,

vindur var vaxandi og mikið veðurhljóð, eins og títt er á þessum slóðum á undan óveðrum. Sárkalt og blindandi hríðarkóf skall yfir. Það þyrlaðist um sleðann og sveipaði okkur hvítum hjúp, sem minnti á líkklæði og hinzta hvílurúm í klakakistu jökulsins. En við vildum að minnsta kosti taka gröfina á okkar vísu. „Ósköp mikill stormur kemur bráðum," sagði Eyjólfur. Hann tyllti sér sem snöggvast á sleðann, barði saman fótunum til þess að hrista af sér mesta snjóinn, og allir voru á sama máli og hann. Við vorum komnir í 6150 feta hæð, svo að ég gaf fyrirmæli um að grafa gryfju og setja upp tjaldið. Snjórinn var mjög harður og saman barinn allt niður í fjögurra feta dýpi, og við gátum höggvið holuna eins reglulega og í steinsalt, en hún fylltist jafnharðan af skafrenningi, svo að þeir urðu að halda tjaldinu upp til skjóls, meðan lokið var að grafa gryfjuna.

Við höfðum ekki fyrr búið um okkur og byrjað að matast en óveðrið brast á, svo allt ætlaði um koll að keyra, og hefði ekki fyrri reynsla kennt okkur að hlaða öfluga skjólgarða kringum tjaldið, er ég ekki í vafa um, að sá mikli þarfagripur hefði horfið okkur sjónum fyrir fullt og allt. En með því að við þóttumst vissir um, að öllu væri óhætt í því efni, lögðumst við rólegir til svefns, þótt vel gæti svo farið, að við fengjum nokkur fet af snjó ofan á okkur. Þegar við vöknuðum nálægt hádegi, var veðrinu tekið að slota, þokunni hafði létt, og við grilltum þrjú dökkleit fjöll norður undan, efalaust Skjaldbreið,[1]) Herðubreið og Dyngjufjöll.

---

1) Hér er átt við Trölladyngju. — J. Ey.

*4.—5. júlí.*

Við vorum að umsegja, hvort við ættum að leggja af stað þrátt fyrir ljótt veðurútlit, þegar þokan skall yfir aftur og vindþotur boðuðu nýjan storm í aðsigi. Eftir litla stund skall hann á, og aldrei hef ég heyrt svo yfirgengilegan stormbeljanda. Það var líkast því sem allir illir andar og stormpúkar jökulsins hefðu komið sér saman um að öskra og ráðast á okkur í einum hóp. Birtan dofnaði og tjaldið var að fenna í kaf, en okkur var hlýtt og notalegt, við vorum alveg óhræddir, og snjóþekjan deyfði versta stormhvininn. Við fengum okkur dálítið súkkulaði, reyktum og sungum og sofnuðum síðan. Kl. 8 um kvöldið var farið að lygna, og ég sendi mann út af örkinni til þess að moka mesta snjónum af tjaldinu og hleypa ljósglætu inn. Tjaldið var nærri komið í kaf, og kostaði mikið erfiði að hreinsa af því, svo að lesbjart væri inni í því. Úti var 10 stiga frost [= 6 C°], en inni var notalega hlýtt. Hríðin var svo svört að varla sáust handa skil.

Daginn eftir var linnulaus hríð og innilega. Við áttum nú ekki nema vikunesti eftir, svo að ég setti alla á hálfa matargjöf eins og fyrri daginn. Á þriggja stunda fresti urðu fylgdarmennirnir að fara út til skiptis til þess að moka snjó af tjaldmæninum, og innan tíðar var sem tjaldið stæði niðri í djúpri snjógryfju. Við styttum okkur stundir eftir beztu getu með því að sofa, éta, reykja, skrifa, syngja og segja sögur, og stundum skemmti ég hópnum með því að læra runu af íslenzkum orðum samkvæmt minnisgaldri Stoke's og þuldi þær í réttri röð bæði áfram og aftur á bak. Voru Íslendingar mjög hissa á þessu.

Áður en ég lagði upp á Vatnajökul 1871, óskaði ég mér

þess að lenda í versta hríðarbyl, sem þar gæti komið. Nú hafði mér orðið að ósk minni.

Óveður eru forvitnileg fyrirbæri í náttúrunni, en geta vægast sagt orðið leiðinlegur farartálmi, þegar þeim ætlar aldrei að linna. Og nú fór að draga af gamanið, að liggja uppi á hæstu bungu Vatnajökuls við minnkandi matarforða og þá tilhugsun, að óveðrið kynni að standa í heilan mánuð. Við ræddum málið vandlega og tókum þá ákvörðun, ef veður batnaði ekki innan tveggja sólarhringa, að þá skyldum við láta allt dót eftir nema nesti, áhöld og dagbók mína og brjótast norður af, hverju sem viðraði, — upp á líf og dauða.

Þegar við lögðumst út af og snjór huldi tjaldið að mestu, virtist sem stormgnýrinn kæmi neðan úr jöklinum, og það var furðuauðvelt að þykjast greina í honum því nær alla gamalkunna hljóma með margföldu magni — án þess að ofreyna ímyndunaraflið. Stórhríðin geisaði alla nóttina; stormurinn buldi á hálfmyrku tjaldinu, brotnaði á klökugu brjósti jökulsins, æddi um fannbungurnar og mokaði yfir okkur heilum snjóflóðum, svo að við vorum kaffenntir um morguninn. Um 5-leytið fór veðrinu að slota. Hinar illu nornir Vatnajökuls virtust hafa gefizt upp við þá ætlun að yfirbuga okkur. Hinn ægilegi veðurofsi fjaraði út með þungum ekkasogum, en þrálátur skafrenningur og útsunnanbelgingur héldu áfram að gera okkur lífið leitt.

Það var ljóst, að við urðum að brjótast áfram, því að bæði áttum við langan veg ófarinn á jökli, og svo þurftum við að komast yfir ógnarlegar sandauðnir, hraun og straumvötn, áður en við næðum til mannabyggða í Norðurlandi. Okkur var því ekki til setu boðið, svo djúpt var orðið á

tjaldinu og erfitt að komast inn og út úr því. Ég gaf okkur vel að éta, og af því að mönnum veitir ekki af hressingu, er þeir eiga að taka sig upp við svona aðstæður, þá blandaði ég dálítið grogg úr brennsluspritti, því að allt wisky var búið. Þetta örvaði blóðrásina, þótt ekki væri það lystugt. Það var, eins og Íslendingar mínir sögðu, „slæmur dropi", og satt var það, keimurinn var ekki góður fremur en sjálft bragðið.

*6. júlí.*

Við tókum dótið saman með allmiklum erfiðismunum, því að allt var beingaddað. Þegar ég var að fara, hólkaði ég mér í skinnsokka utan yfir snjóskóna. Þeir voru grjótharðir og ætluðu mig lifandi að drepa, en það var allt of kalt til að tefja sig á því að fara úr þeim, því að við ætluðum alveg að krókna, ef við stóðum kyrrir. Skinnsokkar þessir höfðu dugað mér vel til þessa og haldið mér þurrum á fótunum. Ég vonaðist eftir, að þeir mundu líka hlífa að þessu sinni. Mér fannst vera harður köggull undir vinstri ilinni, og væri það snjór, mátti ég búast við kali. En við því varð ekki gert, því að ekki kom til greina að stanza til þess að skipta um fótabúnað í slíku veðri. Vindur var orðinn vestanstæður, og kuldinn nísti gegnum merg og bein áveðurs. Við stefndum í NNA, og til allrar hamingju höfðum við nokkurt undanhald, því að við hefðum tæpast haft okkur á móti veðrinu. Eftir þriggja stunda harðan barning vorum við komnir í 6150 feta [1875 m] hæð og rétt á eftir fór að halla undan fæti, og það svo hastarlega að ég varð að láta þrjá menn halda aftur af sleðanum, svo að hann færi ekki veg allrar veraldar af

sjálfs dáðum. Allt í einu birti upp. Fram undan okkur blasti við djúpur dalur, en vestan hans á vinstri hönd, var dökkleitt fjall með fönnum í. Við héldum áfram í sömu stefnu, og alltaf varð brattara og brattara, unz við sáum okkar óvænna að komast lengra með sleðann á þeirri leið. Við Páll fórum því á undan til þess að athuga, hvað gera skyldi. Á aðra hönd var dalbrúnin snarbrött, þakin harðfenni með flughálum skara eftir frosthörkuna, en hinum megin voru meiri klungur, og stóðu klettanibbur víða upp úr snjónum. Út undan snjóbreiðunni virtist liggja mikil hraunbreiða norður á bóginn, en síðar komst ég að raun um, að þar á milli var jökulhaft sem Þrándur í götu okkar.

Við ákváðum að halda beint í norður meðfram brekkurótunum í stefnu á Kverkfjöll, að við héldum, en síðar reyndist vera Kistufell. Þegar við komum að sleðanum aftur og ég var að láta niður kíkinn minn, en það varð ég að gera berhentur, því að vettlingarnir voru allir klakaðir, — fann ég, að mig var að kala á fingrunum. En með því að berja mér og láta tvo fylgdarmenn mína klappa hendur mínar tókst að koma blóðrásinni í lag. Ég skipaði nú þremur mönnum að setja á sig mannbrodda, en án þessarar forsjálni hefðu ferðalokin efalaust orðið þannig, að við hefðum hrapað með sleða og allt hafurtaskið ofan í dalinn fyrir neðan, nema við hefðum stöðvazt í einhverri jökulsprungunni, sem göptu við miðja vegu í hinni flughálu og snarbröttu brekku, sem við vorum staddir í.

Við klöngruðumst áfram með mestu herkjum. Nú áttum við ekki í basli með að draga sleðann áfram, heldur

að halda aftur af honum. Það munaði oft litlu, að hann tæki okkur alla með sér. Vindur var hvass á eftir okkur, en fram undan var 800—1000 feta flugbrekka, og hjarnfláarnir, sem við reyndum að þræða, voru víða svo afsleppir, að það dró af allt gaman. Meðan við áttum í þessu basli, varð ég þess sárlega var, að mig hafði kalið á vinstri stórutánni. Vegna áreynslunnar og vægara frosts niðri í brekkunum hafði hún þiðnað. Kvalirnar voru hræðilegar. En nú tók að draga úr brattanum og síðustu 1500 fetin fórum við greiðlega.

Hamingjunni sé lof! Sólin skein aftur í heiði, en jafnskjótt og við námum staðar, nísti kuldinn okkur inn að beini. Fram undan okkur lá hið langþráða Norðurland. Við komumst niður í dalbotninn, en hann var fullur af lausasnjó, sem við sukkum í upp að knjám, því að skarinn hélt ekki, og annað slagið sluppum við í smásprungur. Eftir að hafa baksað áfram nokkrar klukkustundir, urðum við samt að tjalda.

*7. júlí.*

Ég varð feginn að fá ofurlítið af heitri súpu og skríða í pokann. Einn fylgdarmaðurinn, ágætur drengur, Sigurfinnur að nafni, tók vinstri fót minn í handarkrika sinn, enda þótt ég engdist sundur og saman og héldi vöku fyrir okkur báðum, meðan hinir sváfu. Mig hefur oft kalið á ferðum mínum, en aldrei hef ég liðið aðrar eins kvalir og í þessari tá.

Eftir nokkrar klukkustundir héldum við enn af stað, og enda þótt sleðinn rynni léttilega á skaranum, brast hann alltaf undan okkur, svo að mig sárkenndi til í hverju

skrefi. Loks settist ég á sleðann og var dreginn á honum, þangað til að við vorum komnir niður fyrir skarafærið. Þar sem snjórinn endaði, tók við krapaelgur. Hann var sums staðar mittis djúpur, en gegnum hann urðum við að ösla niður undir Kistufell. Þar endaði jökullinn, og tók við aurlag, sem huldi ísinn og var svo þykkt, að það varð ekki greint frá föstu landi án þess að grafa.

Hin dularfullu huldulönd og eldfjöll Vatnajökuls, sem dimmviðri og stórhríðar halda svo traustan vörð um, voru nú að baki okkar. Í norðri reis fjallaþyrping, og lagði upp úr henni reykjarmekki, er sveipuðust sem risavaxinn skýjahöttur um hæstu tindana. Til vinstri handar, í vesturátt, voru víðlendar hraunbreiður, og lágu út frá þeim hraunkvíslar, er líktust steinrunnu hafróti, inn á milli fjallanna í kring. Sums staðar voru hraunin þakin sandflákum, sem runnu saman í samfellda eyðimörk langt burtu í norðaustri. En í fjarska gat að líta eldbrunnin og veðurbarin fjöll, kynlega löguð, harðleg á svip og ófrýnileg. Geysimikil jökultunga skagaði þarna fram úr meginjöklinum, og náði hún um 10 mílum lengra til norðurs en sýnt er á uppdrætti Olsens frá 1844 samkvæmt mælingum Björns Gunnlaugssonar 1835. Ég sá til Snæfells, og varð mér ljóst, er ég hafði mælt stefnu þangað og á reykjarmekkina, sem bersýnilega voru úr Dyngjufjöllum, að við vorum staddir austan í Kistufelli, um 10 mílum of vestarlega. Okkur furðaði mest á því (ef við værum við Kistufell), að Jökulsá á Fjöllum var hvergi sjáanleg, en á uppdrætti Olsens sprettur hún upp undir Kistufelli. Vestan fellsins endar jökullinn í snjallri brún, eins og sýnt er á uppdrættinum, og þaðan rennur lítil kvísl norður eftir, en í A- og NA-átt

blasir hins vegar við ógnarstór skriðjökull, svo langt sem augað eygir.

Við Kistufell skildum við eftir sleðann[1]) og þrúgurnar, sem höfðu dugað okkur vel, og annað ónauðsynlegt dót. Síðan bundum við farangurinn í pinkla og klöngruðumst niður eftir stórgrýttum jökulruðningi, sem efalaust lá á jökli, því að sums staðar stóðu ístrjónur upp úr. Í lautum voru víða brattar fannir, sem við renndum okkur niður eftir, og flýtti það fyrir okkur. Þegar niður úr brattanum kom, vorum við í 3850 feta [1174 m] hæð. Þar varð fyrir okkur farvegur, sýnilega eftir stórvatn, en nú var aðeins læna í honum.

Austur undan, á hægri hönd, var jökulbunki sá hinn mikli, sem áður er nefndur. Hann var nú genginn alveg fram yfir slóð Björns Gunnlaugssonar frá 1835, og jafnframt hafði hann breytt upptökum Jökulsár, svo að hún kemur nú í mörgum kvíslum undan nyrzta sporði jökulsins. Vestur undan, á vinstri hönd, lá hin óravíða eyðimörk, Ódáðahraun.

Það var gott að ganga eftir hinum sendna farvegi, því að sandurinn hafði blotnað nægilega til þess að sléttast og þéttast. Okkur varð starsýnt á hinar kynlegu myndir í brúnum jökulhamranna á hægri hönd, handan árinnar, sem rann milli okkar og jökulsins. Annað slagið gátum við ekki stillt okkur um að stanza til þess að rýna í myrkar gjár og glufur, sem virtust hafa gengið á hol í hið klakakalda ferlíki, og dást að freyðandi smáfossum, sem spýtt-

1) Í Annál 19. aldar segir, að þeir hafi skilið hestana (!) eftir við Kistufell! — J. Ey.

ust út úr geilum með dökkgrænum ísveggjum, eða horfa á ísdranga riða til falls og steypast úr háalofti með skruðningum og miklum boðaföllum ofan í ána, sem bar þá í burtu og bræddi, en bergmálið glumdi fram og aftur um hvelfingar og kamba jökulsins.

Eftir stundargöngu settumst við að á litlum sandhólma í miðri ánni, sem hlýtur að hafa verið æsilega straumhörð og vatnsmikil, þegar hún gróf þennan mikla farveg, en nú var hún varla hnédjúp, er við óðum út í hólmann. Samt skaut þarna upp bylgjum annað slagið sums staðar í straumfarinu, eins og ég hafði oft séð annars staðar. Bylgjur þessar eða drýli geta verið mjög viðsjál í stórvötnum, en hér voru þau svo smávægileg, að hættulaust var að forvitnast um eðli þeirra. Drýli myndast í öllum sandvötnum og stafa af sandi og aur, sem árnar bera fram í ríkum mæli og getur hrúgazt saman við einhverja fyrirstöðu, þangað til að straumbeljandinn verður yfirsterkari og spýtir hinu snöggmyndaða sandrifi fram. Oftast lætur það fljótlega undan vatnsþunganum, en stundum er aurinn svo stórgerður og þungur fyrir, að straumurinn vinnur ekki á honum og verður þá að breyta um farveg. Á þennan hátt verða íslenzkar ár síbreytilegar, ýmist verða grynningar að hyldýpi eða hyldýpi að grynningum, og þannig getur áin öll tekið algerum stakkaskiptum.

Meðan við vorum að hreiðra um okkur, fóru gosmekkirnir í Dyngjufjöllum vaxandi. Ég gat ekki sofið fyrir þrautum í tánni, svo að við héldum áfram eftir tveggja stunda hvíld. Við áttum ekki nesti nema til tveggja daga, svo að við urðum að hraða förinni af fremsta megni til næsta bæjar, Grímsstaða. Fram undan okkur, í norðaustri,

var fjallgarður, sem náði frá syðsta rana Dyngjufjalla og suðaustur á bóginn að Jökulsá, og virtust dalir liggja norður með fjöllum þessum á báða vegu. En til þess að fá sem bezt yfirlit yfir landslagið, sem enginn okkar hafði áður séð, og með því að við máttum alls ekki villast af réttri leið, ákvað ég að stefna á miðjan fjallgarðinn og fara yfir hann. Á stuttum spotta áttum við leið fram hjá jökultanga nokkrum, innan við jökulöldu, sem sýndi, að jökullinn gat hopað engu síður en skriðið fram. Þaðan beygðum við meira til norðurs og komum norður að fjallgarðinum eftir þriggja stunda röskan gang. Fjöllin voru gerð úr þessari venjulegu samryskju úr hnullungabergi, sandi og hrauni, sem komið hafði upp úr þeim — einhvers staðar. Þau voru bersýnilega mjög forn, og víða voru hörðustu klappirnar jökulsorfnar, en hinar mýkri voru sem rústir einar. Eftir erfiða göngu komumst við yfir fjöllin, og tók þá við hinn dökkleiti eyðisandur, sem við höfðum séð af norðurbrún Vatnajökuls. Sandur þessi náði frá Dyngjufjöllum að fjallgarði austan Jökulsár á Fjöllum. Það var nú farið að rigna töluvert, en þokulaust. Fylgdarmenn mínir báru þungar byrðar, og sjálfur bar ég eins mikið og ég þoldi fyrir veika fætinum. Við urðum því oft að taka okkur hvíld, og tafði það auðvitað stórum för okkar. Um það bil miðja vegu á sandinum sáum við nokkra lága gíghóla og ákváðum að tjalda í grennd við þá. Eftir tvær stundir bar okkur að hrauni, sem hafði komið úr þessum kynlegu strýtum og flætt umhverfis þær. Strýturnar eru fjórar talsins og sýnast furðuháar og skuggalegar, enda þótt þær séu í mesta lagi 100 fetum hærri en sandsléttan. Þótt þreyttur væri og illa gengur, gat ég ekki

stillt mig um að skoða þær. Þær standa á sprungu, sem hraunið hefur hrúgazt upp úr í fjóra hrauka, og í tveimur þeirra mótar fyrir gígskálum nærri fullum af foksandi. Hraunið var úr basalti, en mjög gjallkennt, enda þótt ekkert lausagjall sæist umhverfis gígana, og má af því ráða, að engar teljandi sprengingar hafi fylgt gosinu.[1])

Versti gallinn við náttstað okkar var vatnsleysið. Við breiddum því regnfötin okkar út til þess að safna vatni á til morgunsins.

*8. júlí.*

Kl. var nærri hálf-tvö um nóttina, þegar við lögðumst til svefns. Sandur er notalegur að liggja á, en hann smýgur um allt, og þegar menn eru votir, er hann hrein viðurstyggð. Um sex-leytið voru allir vaknaðir, nægilegt vatn hafði safnazt til okkar þarfa, og við héldum áfram ferðinni norður hraunið, sem víða var slétt og svo þétt í sér, að sums staðar voru vatnspollar. Þannig gengum við í fjórar klst. og komum þá að stórri á austan við leið okkar. Þetta var Jökulsá á Fjöllum.

Er við höfðum gengið með fram ánni um stund, kom okkur saman um að skilja allt dótið eftir nema matarleifarnar, landabréf og dagbók mína, því að ég ætlaði mér að fá hesta og halda aftur til Dyngjufjalla við fyrstu hentugleika. Við hlóðum vandlega að dótinu, settum stöng með flaggi á næstu sandöldu og tókum þaðan nákvæm mið á kennileiti. Að því búnu tókum við stefnu á Vaðöldu-

1) Þessi náttstaður hefur verið í Holuhrauni, milli Urðarháls og Vaðöldu. — J. Ey.

fjöllin, sem voru ekki allfjarri. Fjöll þessi liggja meðfram Jökulsá á níu mílna kafla. Við rætur þeirra fellur Svartá, sem á upptök í Dyngjufjöllum, en hverfur brátt í sandinn og kemur ekki upp aftur fyrr en við Vaðöldu. Handan við þessa á fundum við hvönn, sem við átum með beztu lyst, bæði leggina og ræturnar. Við komum líka auga á tvær hvítar kindur, en hvernig þær ættu að geta dregið fram lífið, hlýtur að hafa verið erfið ráðgáta fyrir venjulega sauðarhausa. Að vísu segir máltækið, að betur sjái augu en auga, en ég efast um, að það hafi sannazt á þessum skjátum. Þó má vera, að í Ódáðahrauni leynist gróðurblettir með nægilegum haga fyrir íslenzkar kindur, þótt ég hafi ekki rekizt á þá. — Þær eru ekki sérlega vandfæddar og vanar harðrétti.

Þótt Vaðalda sé ekki hátt fjall, hafði ég þaðan mjög gott útsýni til Vatnajökuls og gat litið yfir farinn veg. Öll sléttan suður undan er svört og gróðurlaus, en umhverfis standa eldbrunnin fjöll með gígum og gjám, sem hafa spúið öllum þeim ókjörum af gosefnum, er þekja umhverfið. Smágígarnir, sem við höfðum haft náttból undir, risu einir sér og strembileitir á miðri sléttunni, eins og þeir vildu ögra stórkörlunum, bræðrum sínum, í kring. Í baksýn voru hinar víðlendu, snæbreiður Vatnajökuls, og frá honum gekk heljarstór skriðjökull norður á miðja sléttuna. Undan nyrzta jökulsporðinum kom Jökulsá á Fjöllum, sem við höfðum fylgt um stund. Hún liðaðist um dökka sandsléttuna, stundum í mörgum kvíslum með svörtum eyrum á milli, eða hún æddi áfram í einum stokk, sem hún hafði grafið sér milli viðsjálla bakka, og urðum við jafnvel sjónarvottar að því, er stórar spildur hrundu

úr þeim niður í skolgrátt vatnið og gerðu það ennþá gruggugra.

Af Vaðöldu sá ég loks greinilega til Kverkfjalla, sem virðast vera þyrping keilumyndaðra hnúka umhverfis gríðarmikinn eldgíg í norðurbrún Vatnajökuls. Enda þótt gígur þessi sé hálffullur af snjó, lagði úr honum reykjarstróka á þremur stöðum, Að öðru leyti sáust þar engin merki eldsumbrota. —

Er við höfðum gengið um mílu vegar eftir Vaðöldu, komum við á vikurbreiðu, sem myndazt hafði í gosinu úr Öskjugjá í vor sem leið. Hafði vikurinn fallið á h. u. b. 25 mílna breiðu belti frá miðri Vaðöldu til suðurhlíða Herðubreiðar, og frá Öskju nær það óslitið austur að sjó. Sex býlum eyddi gosið á Jökuldal og skemmdi önnur þar í grennd. Sýnir þetta, að vindur hefur yfirleitt verið suðvestanstæður, meðan á gosinu stóð.

Vikur þessi er áberandi glerkenndur og gljúpur að gerð og oft mjög fagur á að sjá, stundum líkastur svampi, hunangsköku, kóral eða æðóttu tré. Svo langt sem augað eygði var allt landið þakið gráleitu vikurgjalli, víða nokkurra feta þykku, en sums staðar hafði það fokið saman í stóra skafla, mörg fet á hæð, og á öðrum stöðum hafði það fært í kaf heilar hraunbreiður, svo aðeins hæstu hrjónurnar gægðust upp úr, sem vildu þær brjótast undan farginu og gera heyrum kunnugt, að hér væri hraun undir. Leið okkar lá niður í dalverpi, þar sem allt var vikri hulið — að vanda — nema fljótið, sem bugðaðist fram lygnum straumi, djúpt, dökkleitt og fúlt, en stórar vikurbreiður flutu á yfirborðinu.

Vikurinn hafði sýnilega fallið á vetrarsnjóinn, því að



*Herðubreið.* — (Burton, 1875).

stórir snjóskaflar lágu undir honum og bráðnuðu ekki, því að áhrif sumarhitans náðu ekki gegnum vikurlagið. Annað slagið brotnaði vikurlagið undan okkur, og við sukkum niður í sambland af snjó og ösku. Það var þreytandi, en okkur var heitt og sóttist ferðin greiðlega.

Leiðin lá aftur yfir hæðarhrygg, og annar dalur blasti við okkur. Hann lá í SSA, og eftir honum rann önnur á, sem ekki er sýnd á landabréfinu. Hún hafði grafið sér farveg milli kletta og féll í Jökulsá. Ofar nokkru var dyngja af fljótandi vikri, sem hafði setzt fyrir í árkvísl, og varð ekki séð á yfirborðinu, að þar væri vatn undir.

Senn opnaðist breið slétta fram undan okkur, og upp úr henni gnæfði ofurhátt fjall, líkast risavaxinni form-

köku í laginu, brynjað klaka og snjó á flatvöxnum kollinum, en upp úr honum miðjum gnæfði furðufögur skrautstrýta. Þetta var Herðubreið, sem Páll vissi þegar deili á, því að hann hafði komið í Norðurland áður. Norðan Herðubreiðar var landið dekkra ásýndum, af því að þar hafði enginn vikur fallið. Við námum nú staðar til þess að ráða ráðum okkar. Við þóttumst vera 45 mílur frá Grímsstöðum, staddir á norðurenda Vaðöldu, og þar sem nauðsynlegt var að rata beint á ferjubátinn, sem var geymdur vestan ár gegnt Grímsstöðum, ákváðum við að fylgja Jökulsá. Á uppdrættinum er áin látin renna nokkurn veginn beint, en það er nú eitthvað annað í reyndinni. Nestið var orðið lítið, svo að við fengum okkur aðeins í pípu og könnuðum birgðirnar. Eftir var ein hálfs punds dós af súkkulaði og rjóma, um eitt pund af skonroki, hálft pund af smjöri og þrír teningsþumlungar af „sósu-súpu", — fremur knappur kostur handa sex mönnum til 45 mílna göngu að minnsta kosti yfir andstyggilegustu vegleysur, og svo var vísast, að leiðin yrði mun lengri, er við ætluðum að fylgja ánni.

Kveldskinið var gullbjart og yndisfagurt, er við gengum norður af Vaðöldu. Sólin var að ganga niður í norðurátt og öskugráar hlíðar fjallanna glóðu í annarlegri birtu, sem gæddu hin einmanalegu hrjóstur umhverfis okkar óhugnanlegum stórleik; en sjálfir vorum við lifandi eftirmyndir útilegumanna og illvætta þjóðsagnanna, þar sem við þrömmuðum skítugir, sólbitnir og örþreyttir, hljóðlausum skrefum á leðurskóm okkar yfir öskustráða jörðina. Vissulega eru þetta tilvalin heimkynni ódáða og illra norna, og jafnvel þær hljóta að hafa fengið sig fullkeyptar, ef landið

hefur verið svipað í þann tíð og nú, en sennilega var það eitthvað öðruvísi.

*9. júlí.*

Kl. 2 um nóttina tókum við okkur hvíld og ætluðum að sofa dálitla stund. Ég hreiðraði um mig í vikrinum, lagðist í skjól við stóran stein og breiddi olíukápuna ofan á mig. Því miður gátu fylgdarmenn mínir ekki sofið fyrir kulda, svo að við héldum áfram. Kl. 5 vorum við beint austur af Herðubreið, og þar fengum við okkur hressingu, sem aðallega var vatn úr Jökulsá. Leiðin lá yfir gamla hraunbreiðu, sem að mestu var hulin vikri. Áin var orðin feikna mikið vatnsfall, því að henni hafði bætzt þriðja stórkvíslin.[1]) Sú kom austan að og beljaði á hraunflúðum í botni farvegsins. Sól skein í heiði, og skýin voru að leysast af hátindi Herðubreiðar. Allt glitraði af léttu hrími umhverfis okkur, og skeggin á okkur voru stjörf viðkomu. Vikurlagið var að þynnast, og brátt hvarf það alveg. Fram undan blöstu enn við sandar og hraun, en í fjarska mótaði fyrir Mývatnsfjöllum, sem Páll kannaðist við eins og gamla vini, því að hann hafði dvalizt nokkur ár í Mývatnssveit. Fyrsta spölinn verkjaði mig mjög í fótinn, en jafnskjótt og mér hlýnaði dró úr sársaukanum. Við gengum sem mest við máttum til þess að nota morgunkulið, því að það leit út fyrir að verða heitt um daginn.

Við gengum í sandi og möl meðfram ánni, og innan tíðar fór að votta fyrir gróðri; stöku fjárgötur sýndu líka, að kindur rásuðu hingað, en þær eru vanar að leita úr góðum högum og æða inn á öræfi, þar sem varla sést sting-

1) Kreppa. — J. Ey.

andi strá. Kl. 08.30 komum við að Grafarlandaá,[1]) ársprænu, sem rennur í Jökulsá. Þar var grösugt, og með því að nú áttum við aðeins 27 mílur ófarnar að Grímsstöðum, lögðum við okkur fyrir og sváfum tvær klst. Að því búnu héldum við niður með ánni, sem engan veginn er bein, svo sem fyrr getur. Leiðin lá nú orðið um gróðursælt land, aðallega vaxið stórgerðu grasi og möðru. Okkur bar að hálsadrögum nokkrum, sem áin féll fast upp að, svo að eigi varð komizt meðfram henni; afréðum við því að ganga yfir hálsana. Efst á þeim var stráð steinum innan um sand og smámöl, eins og títt er á Íslandi, og minnir helzt á lauslega malbikaðan veg. Þetta stafar efalaust af snjóþunga vetrarins, sem þrýstir steinunum niður, en í vorleysingunum verður allt að eðju, sem grjótið sígur auðveldlega í, og svo þornar allt og harðnar, þegar vatnið er sigið undan og góða veðrið kemur, því að niðurmulin feldspathraun hafa í sér mjög mikið bindiefni. Kl. þrjú eftir hádegi rákumst við á yndislegan fjallalæk, sem suðaði á grjótinu og vökvaði bakka sína, svo að þeir voru grænir af grasi og muru. Þar sem við fórum yfir hann, var fagur og freyðandi smáfoss. Hér stönzuðum við. Sólin var mjög heit, en okkur fannst það notalegt. Mikill hvannagróður var við lækinn og við átum ræturnar með nestinu, sem eftir var. Þá þvoðum við sokkana okkar og lögðumst síðan til svefns við ljúfan lækjarnið og sætan gróðurilm, sem okkur fannst mikið til um eftir hina ilmsnauðu útilegu á jöklinum.

---

1) Sjálfsagt Lindaá, en fjallalækurinn, sem nefndur er hér á eftir, mun vera Grafarlandaá. — J. Ey.

*10. júlí.*

Það var komið kvöld, er við héldum aftur af stað, og lá nú leið okkar yfir djúpan lausasand, sem var mjög þungur undir fæti og þreytandi, því að undir honum var mjallhvítt öskulag, líkast hveitisalla, — sennilega sundurleystur vikur. Ásamt sandinum virtist þetta góður áburður, því að melþúfurnar sýndu það í verki, þær sem fyrirfundust. Þegar við nálguðumst ána aftur, sáum við, að hún hafði brotizt þvert í gegnum hæðaþyrpingu nokkra, er stóð í jaðri dökkleitrar og nærri glerstorkinnar hraunbreiðu. Um miðnætti sáum við heim að Grímsstöðum í suðaustri, handan árinnar í allmikilli fjarlægð, en ferjan var nokkru norðar en bærinn. Við röktum nú árbakkann vandlega til þess að fara ekki fram hjá ferjunni, því að engir götuslóðar vísa leið á Mývatnsöræfum. Þannig gengum við í þrjár klst, áður en við fundum bátinn, sem reyndist hriplekur. En með því að róa lífróður og ausa sem ákafast, tókst okkur að ná landi hinum megin.

Kl. 5 um morguninn komum við heim að Grímsstöðum, heimilisfólkinu mjög á óvart; það átti alls ekki von á innrás sex manna, *gangandi,* á þessum tíma sólarhringsins. Sízt af öllu bjóst það við gestum sunnan yfir Vatnajökul.

Við vöktum bóndann, og innan stundar var allt fólkið komið á kreik til þess að sjá okkur. Grímsstaðir voru fortakslaust stærsta og bezta býli, sem ég hafði séð á Íslandi, ef Breiðabólstaður í Fljótshlíð er undan skilinn. Bóndinn var myndarkarl á íslenzka vísu, og allt var hreinlegt og notalegt á þeim bæ. Hann hafði alið allan aldur sinn í

Norðurlandi og ekki einu sinni komið snögga ferð til Reykjavíkur.[1])

Framan við bæjarhúsin var allstór vindmylla til þess að mala rúg og hveiti úr kaupstaðnum. Var þetta mikil framför frá hinum venjulegu, handsnúnu kvörnum, sem almennt eru notaðar í öðrum héruðum landsins. Vindmyllur virðast vera sérkenni á Norðurlandi.

Ég lét verða mitt fyrsta verk að semja um kaffi og góða máltíð, en að því búnu keypti ég fjórar kindur og sagði fyrir um slátrun á þeim og meðhöndlun. Eina áttum við að hafa til matar þegar í stað; úr hinum þremur skyldi gera kæfu, og skinnin ætlaði ég að þurrka og hafa með mér til Englands.

Mikið getur rúm verið dásamleg tilfæring. Mikill öðlingsmaður var sá, sem fyrstur tók upp á því að afklæðast áður en hann fór í rúmið. Hugsið ykkur allar þær dásemdir: baðker, heitt vatn, sápa, svampur, þurrka, hrein lök, æðardúnssæng, dálítið af tólg á mitt auma nef — og svefn! Hvílík alsæla. — Svo svaf ég eins og þreyttir ferðamenn einir fá sofið, unz ég vaknaði við nýstárlegt hljóð: Það var barið að dyrum á herberginu mínu. „Hvað er að? Hver er þar?“ — Úrið mitt var á slaginu 12.

Það var heimasætan með kaffi og fullan disk af pönnukökum, sem voru vandlega vafðar upp hver og ein, með nokkrum rúsínum innan í og hvítu sykri stráð yfir. Kæri lesari, fyrirgefðu mér veikleika minn, en mundi ég nokkru sinni geta gleymt þessum litla bakka og því, sem á honum var, svo ég tali nú ekki um laglegu tátuna, sem færði mér

---

1) Hann hét Guðmundur Árnason, f. um 1830. — J. Ey.




*Líklegasta ferðaleið Watts yfir Vatnajökul.* — (J. Ey. teiknaði).

hann? Hvort ég vildi meira? „Já, það veit hamingjan.“ Um miðdegisverðinn urðu miklar umræður fyrir fram milli mín og bóndadóttur, en niðurstaðan var sú, að ég bað um kindasteik, og innan stundar angaði ljúfasti steikarilmur um bæinn.

Páll var þegar farinn til Reykjahlíðar til þess að leita fyrir sér um fylgdarmann og hesta, svo að við gætum komizt til Öskju, því að mínir hestar voru ekki komnir. Mér var sagt, að mjög örðugt væri að fá menn og hesta, vegna þess að allir væri önnum kafnir við heyskap.

Um kvöldið bar að garði stúdenta úr Reykjavíkurskóla, og ætluðu þeir að dveljast fyrir norðan í sumarleyfi sínu. Það var glatt á hjalla um kvöldið, enda voru fylgdarmenn mínir kátir yfir því að vera komnir heilu og höldnu til Norðurlands um veg, sem enginn maður hafði áður stigið fæti á, frá því að Ísland reis úr sæ. Slíkt afrek mundi halda nöfnum þeirra við lýði, meðan landið byggðist.

Við höfðum farið 270 mílna veg, [435 km] sunnan frá Núpsstað norður að Grímsstöðum, á 16 dögum, þar af fóru 12 dagar í jökulferðina. Ég vil láta þess getið um leið, að hinir íslenzku förunautar mínir reyndust framúrskarandi að hugrekki, þrautseigju og framkomu í hvívetna. Án þeirra hefði ég aldrei komizt yfir Vatnajökul.

Næsta dag bar upp á sunnudag, og yfir morgunverði var mér tilkynnt, að bóndinn ætlaði að lesa húslestur í baðstofunni. Í þeirri vistarveru var fullt af litlum, veggföstum rúmstæðum; það minnti mig dálítið á sjúkrahús. Allt heimilisfólkið var saman komið og sat á rúmunum, vel til fara og prúðmannlegt. Það var sungið, lesið og beðin bæn.

Enginn getur efazt um hin mildandi og sálbætandi áhrif siðfágaðra trúarbragða, hverju nafni sem þau nefnast, þegar þau eru ekki yfirskyggð af ofsatrú, og á þetta ekki hvað sízt við um þá, sem búa við fremur örðugt veraldargengi.

Veður hélzt sólríkt og fagurt, svo að daginn eftir sáum við vel til Mývatnsfjalla í fjarska þvert yfir hin þurrlendu Mývatnsöræfi, þar sem vindþotur þyrluðu annað slagið ljósleitu eldfjalladusti hátt í loft upp. Stundum skrúfuðust líka háir sandmekkir upp af hvirfilvindum, og annað slagið urðu þeir óhugnanlega stórir og bárust jafnvel alla leið austur yfir Jökulsá, til hrellingar ferðamönnum, ef einhverjir væru, og til skelfingar hverri sauðkind, sem kynni að rása þangað á hlaupasnöpum.

Gígurinn í Dyngjufjöllum spúði af enn meiri grimmd en áður, og hinn dökkleiti mökkur, sem stóð undir miðjum skúmhettinum, er sífellt sveif yfir þessu kynjafjalli, sýndi, að eitthvað þyngra en gufa þeyttist þar í loft upp.

Um kvöldið kom Páll til baka með mann frá Grænavatni, Þorlák að nafni, sem ætlaði að fylgja mér í Ódáðahraun og Dyngjufjöll, en gallinn var sá, að mig skorti hesta, því að Páll hafði hvorki getað fengið keypta né léða hesta utan tvo, sem Þorlákur lagði til. Ég hafði ekki tíma til að bíða minna hesta, og þess vegna neyddist ég til að breyta fyrirætlun minni. Fyrst sendi ég Pál í kaupstaðinn á Vopnafirði til að útvega ýmsar nauðsynjar, en sjálfur lagði ég upp gangandi með hina fylgdarmennina og Þorlák vestur í Ódáðahraun. Bárum við hey á öðrum hestinum, en vistir á hinum. Fyrsti áfangi skyldi vera Grafarlönd. Þar var nógur hagi, en næsta dag ætluðum við að komast eitthvað suður á milli Dyngjufjalla og Svartár, allskammt frá dót-

inu, sem ég hafði skilið eftir. Þaðan ætlaði ég að fara með Þorlák og Eyjólf, en láta hina snúa við ofan í Grafarlönd með allt, sem við mættum án vera. Síðan áttu þeir að sækja meiri vistir að Grímsstöðum og jafnframt koma með hæfilega marga af hestum mínum (Þeir yrðu þá eflaust komnir.) til þess að flytja okkur og hafurtask okkar úr Grafarlöndum að Mývatni.

Tveir vinnumenn á Grímsstöðum, sem höfðu flúið eyðilögð býli á Jökuldal, sögðu okkur um kvöldið, hvernig gosið hefði hagað sér árið áður, en það varð síður en svo til þess að draga úr áhuga förunauta minna.

## IV. KAFLI

# Öskjuferð. – Ódáðahraun.

Daginn eftir notuðum við tímann til þess að undirbúa för okkar, og um kvöldið kvöddum við Pál og alla vini okkar á Grímsstöðum. Af því búnu lögðum við upp á nýjan leik inn í óbyggðir.

Í nestið höfðum við að þessu sinni 50 pd af kæfu, 25 pd af brauði, 10 pd af smjöri, tvær stórar, hertar Mývatnsreyðar og rúmlega tvo lítra af kornbrennivíni.

Er við höfðum ferjað okkur yfir ána, beindist athygli mín að dálitlum gíg eða gjá, sem Íslendingar kalla og opnazt hafði á jafnsléttu um tvær mílur vestan Jökulsár. Gígur þessi kallast Hrossaborg, og margir slíkir eru hingað og þangað á Mývatnsöræfum. Gjár þær, sem gosið höfðu um vorið, voru af svipaðri gerð, en hraunrennslið úr þeim gátum við aðeins greint lengst í vestri. Það leit út sem svartur garður, og annað slagið þeyttust litlir gufumekkir í loft upp, en yfir hraunbreiðunni sveif þunn, blágrá móða. Jafnvel þangað, sem við vorum staddir, barst magnaður þefur af gosefnum.

Við héldum nú leiðar okkar í stefnu á Herðubreið yfir sanda og hraunkvíslar, sem runnið höfðu hver yfir aðra.

Ég var enn mjög slæmur í fætinum, þótt ég hefði haldið algerlega kyrru fyrir á Grímsstöðum. Kl. 5 um morguninn áðum við í hálftíma til að láta hestana grípa niður í melhnotta, sem eru víða á þessum slóðum og líkjast heysátum bæði að lögun og stærð. Í fjarlægð getur sléttan litið út eins og engi með heybólstrum, sem á að fara að flytja í hlöðu. Hin skrýtna lögun melhnottanna stafar eflaust af því, að ræturnar binda jarðveginn svo langt sem þær ná, en á milli þeirra rífur vindurinn geilar í sandinn og ber hann burtu.

Við vorum nú vestur á móts við Grímsstaðanúpa, sem ekki eru sýndir á uppdrættinum. Áfram stautuðum við í morgunsólinni, og má það merkilegt heita, hversu sólbirtan megnar að hressa menn, fjörga og endurnæra. Ég hef oft tekið eftir því (og aðrir hafa sagt mér frá svipaðri reynslu), þegar ég er á ferð alla nóttina, að þreyta og drungi sækir mest að milli kl. 1 og kl. 5, en jafnskjótt og sólin kemur upp, lifna ég allur við rétt eins og eftir nætursvefn.

Við tókum eftir dálítilli gufu, ef til vill frá hver eða sprungu í hrauninu, um 7 mílur vestur undan, en því miður mátti ég ekki vera að því að skoða það.

Okkur bar næst að Grafarlandaá, árspræmu, sem kemur upp norðvestur af Herðubreið og rennur norðaustur í Jökulsá. Vatnið dregst eflaust saman úr snjófönnum í Dyngjufjöllum og Herðubreið og hverfur brátt í sand og hraun eins og títt er á þessum slóðum. Síðan bullar það aftur fram, þegar fyrirstaða verður í rennslinu neðanjarðar. Árbakkarnir eru vaxnir birkikjarri og víði, en hin stærri tré voru fallin, og virðist það benda til þess, að skógar hafi fyrrum verið víðlendari og stórvaxnari en þeir eru nú.

Hið sama hef ég séð í öðrum hlutum landsins. Þarna var líka mikið gras og því ákjósanlegur áningarstaður fyrir þá, er vilja rannsaka fjöllin í grenndinni. Á þessum slóðum leituðu hinir síðustu, íslenzku útlagar sér hælis, og eigi eru nema 100 ár síðan maður, að nafni Eyvindur, hafðist hér við um alllangt skeið. Hellir einn norður af Herðubreiðarfjalli geymir enn minjar um handaverk hans; er það hestmynd á þaki hellisins eða veggjum. Hann virðist ekki hafa verið neitt illmenni og var vel látinn af alþýðu manna.

Næst héldum við að Lindá, fjórum mílum sunnar og þrjár mílur norðaustur frá Herðubreið. Þar voru ágætir hagar fyrir hesta og mikill hvannagróður, en hvannaleggir og rætur eru mjög sæmilegar til átu og hressandi, enda um engar aðrar ætijurtir að ræða á þessum slóðum. Ég er hissa á, að landsmenn skuli ekki rækta hvönn í görðum sínum, því að mér er nær að halda, að hún gæti orðið þeim bæði vinsæl og holl ætijurt.

Eftir stutta göngu yfir hraunið komum við undir Herðubreið, og rákumst við þar brátt á hinn áðurnefnda, sérkennilega gleraða vikur, sem stafaði frá gosinu í Dyngjufjöllum.

Það dró af gamanið fyrir sárfættan mann að staulast yfir vikra þessa. Margar vikurklessur voru 4—5 fet ummáls, en flestir molarnir voru frá hnefastærð niður í flöskutappa. Víða hafði vikurinn fokið í stóra skafla, sem voru illir yfirferðar fyrir okkur, en enn þá verri fyrir vesalings hestana, sem virtust mjög þreyttir af ferðalaginu. Þegar gengið var upp á eða ofan af slíkum sköflum, kom iðulega fyrir, að þeir pompuðu niður, og við sukkum upp fyrir hné í dusti og vikri. Við fórum nokkru vestar en á leiðinni frá Vatna-

jökli, og vikrarnir voru þykkari en við höfðum áður séð eða reynt. Stundum rákumst við á hnöttóttar, ljósleitar hraunkúlur, gleraðar utan, en mjög gljúpar innan í. Það hlýtur að hafa verið ægilegt, meðan grjóthríð þessi stóð yfir, ekki sízt, þegar henni fylgdi myrkur, brennandi heit vatnsflóð og daunillar gufur.

Rykið sem þyrlaðist upp í spor okkar var afleitt fyrir augun og smaug jafnvel gegnum fötin. Víða hafði vatnsflóð bersýnilega flætt frá eldstöðvunum. Vikurinn var sem óðast að molna fyrir áhrif loftsins, einkum þar sem hann var votur, og mikill hluti hans virtist hafa komið þannig upp úr gígnum. Síðan hafði vikurinn sogið í sig eitthvert uppleyst járnefni, sem virtist stuðla mjög að molnun hans. Vatnsflóð þessi frá eldfjallinu, sem hvorki er jökull né jökultyppt, verða aðeins skýrð á tvo vegu: Annaðhvort hefur vatnið safnazt fyrir neðanjarðar í gospípunni eða það var frá upphafi blandað saman við gosefnin, sem upp komu.

Við vorum nú vestan undir Vaðöldu og sáum, hversu krókótta leið við höfðum farið með því að fylgja Jökulsá að Grímsstöðum. Kl. 2 um nóttina stönzuðum við og gáfum hestunum dálítið hey, því að þeir voru mjög þreyttir, og fylgdarmenn mínir höfðu fæstir náð sér eftir hina löngu gönguför. Eftir stundarhvíld héldum við áfram. Förunautar mínir kvöldust af þorsta, því að Íslendingar þamba meira vatn á göngu en nokkur önnur þjóð, sem ég hef kynnzt, og mun það stafa af því, að þeir lifa mikið á mjólk og mjólkurmat heima fyrir.

Vikurinn varð smágerðari, eftir því sem sunnar dró. Ég minntist þess, að hann hafði fallið að vetrarlagi, svo að ég gróf niður úr honum og náði í snjó, sem kom sér vel við

þorstanum. Við vorum komnir suður á milli Vaðöldu og Dyngjufjalla og komum þar á hraunbunka nokkurn því nær hulinn vikri. Þaðan blasti við okkur sandsléttan mikla, sem við gengum yfir í norðurleiðinni. Þarna tók ég eftir hraunkúlum, sem voru harðastar í miðju, en gljúpar hið ytra, þveröfugt við kúlurnar, sem ég gat um áður. Vikurinn minnkaði nú óðum, og við gengum aðlíðandi brekku niður á sandsléttuna. Þar léttum við af okkur byrðunum, um það bil einni mílu sunnan Öskju og tvær mílur vestan syðsta horns Vaðöldu. Því næst sendi ég svo menn með hestana til að leita uppi dótið, sem við skildum eftir vikuna áður, um fjórar mílur í SSA-átt frá þessum stað.

Tjaldið var reist hjá 3–4 grunnum vatnspollum, mynduðum af smálækjum frá Dyngjufjöllum, en þeir hverfa í sandinn, eins og fyrr er lýst, og koma aftur fram í Svartá nokkru sunnar og austar.

Sandurinn lék okkur grátt, því að vestanblástur þyrlaði upp andstyggilegu dusti. Fylgdarmennirnir voru býsna lengi í burtu. Þegar þeir komu, sögðust þeir hafa séð allmargar kindur, feitar og pattaralegar, og þeir hefðu komið í haglendi við upptök Svartár og áð hestunum um stund.

Eftir góða máltíð matar, lét ég þrjá menn halda heimleiðis með hestana, því að við höfðum ekki nægilegt hey handa þeim. Ég varð eftir með Þorláki og Eyjólfi, og við bjuggum um okkur sem bezt við gátum til þess að fá nægan svefn, áður en við legðum upp til Dyngjufjalla. Það var komið logn, svo að sandurinn var okkur ekki til ama, sól skein í heiði, og við sváfum eins og steinar eftir erfiði dagsins.

Klukkan var orðin 7 um kvöldið, er við héldum af stað.

Ég áleit, að gosið í Öskjugjá hlyti að vera í norðvesturátt frá tjaldstaðnum og ákvað því að ganga norður með fjöllunum að austan og taka svo fyrsta gil, sem fyrir yrði og lægi í vesturátt. Ég lét taka vistir til fimm daga í ferðina, en skilja hitt eftir á sandinum. Af wiskýi áttum við ekki eftir nema tvær litlar flöskur, því að ég hafði verið nokkuð örlátur á það kveldið áður. Lét ég því bæta einum potti af vatni á kútinn og skilja hann eftir, svo að við ættum eitthvað í bakaleiðinni.

Eftir að við höfðum farið yfir nokkra læki, sem allir runnu í pollana hjá tjaldstaðnum, varð vegurinn allgóður um smágerðan vikur, sand og leir, sem bersýnilega hafði komið úr gígnum. Sennilega hefur þessu rignt niður síðast í gosinu, þegar vikurinn hafði ýmist kastazt margsinnis upp úr gígnum eða fallið ofan í hann aftur á víxl, unz hann var orðinn að mylsnu og leðju, — um þær mundir sem gosið var að fjara út. Við gengum í þrjár klst. eftir þessum góða vegi, en þá tóku við afleitir vikurskaflar. Allt kvöldið vorum við að klöngrast yfir þetta, en fundum ekkert gil til að vísa okkur leið í Öskju.

Lesandinn getur ef til vill sett sig í mín spor og hugsað sér, að hann væri sjálfur að keifa yfir endalausa vikurskafla með 20 punda byrði á baki, í blautum skinnsokkum og þrælslega sárfættur. Ósjálfrátt varð okkur að nema staðar, því að sólin birtist í eldrauðum misturbjarma, sem breiddist út og magnaðist með deginum. Á vinstri hönd risu 1000 feta háar hamrahlíðar þaktar hraunsvuntum og vikurskriðum. Á alla vegu voru skrumskældar klappir og keilumyndaðar hæðir, sem minntu á eldgos umliðinna alda og glóandi hraunkviku undirdjúpanna. Þar var ein gapandi

gjá, að nokkru fyllt vikri, og margar sprungur höfðu gengið djúpt inn í fjallshlíðarnar í grenndinni. Sennilega hafa þær myndazt í jarðskjálftunum, sem fóru á undan síðasta gosi. Þær voru einkum áberandi í fjöllum norðan gígsins, en sunnan hans sá ég þær ekki.

Vindur var austanstæður, og fram að þessu hafði enginn óþefur frá gígnum angrað okkur, en í sama mund og miðnæturskýin tóku að sveipast um tindana, barst sterkur þefur af brennisteini að vitum okkar. Hann minnti á, að hin hræðilegu öfl, er skópu auðnirnar umhverfis okkur, væru enn að verki hið innra í fjöllum þessum, sem virtust líta næturrölt okkar óhýru auga. Á hinn bóginn glóði hin snjóhvíta stromphetta Herðubreiðar í sólskini, og hin bjarta ásýnd ljósgjafans brauzt gegnum mistrið í austri og hellti himneskri náðargjöf morgunljómans yfir hið vikurstráða breiðabæli umhverfis okkur.

„Já, blessuð sólin," mæltu báðir félagar mínir einum rómi, og allir stóðum við þögulir í nokkrar mínútur og biðum komu hinnar góðu dísar íslenzkra ferðamanna. Enginn skyldi undrast, þótt einfaldir og frumstæðir menn tilbiðji sólina! Börn náttúrunnar líta jafnan með hjátrúarblöndnum ótta og stundum ást og tilbeiðslu á það, sem yfirgengur skilning þeirra; og ef við trýðum ekki á almáttugan skapara sem upphaf allra hluta, værum við fullsæmd af því að taka sólina í guða tölu. En hér tjáði ekki að sökkva sér í drauma; það var of kalt til þess að halda kyrru fyrir, og ekki kæmumst við upp á fjallið með því móti, en þangað stefndi hugur okkar. Við vorum þegar komnir of langt norður eftir; og úr því að ekkert gil varð á vegi okkar, var ekki um annað að gera en leggja á brattann og stefna á

svartasta mökkinn og versta óþefinn, þ. e. a. s. láta þeffærin ráða, ef augun brygðust.

Meðan við vorum að kjaga upp fjallið, lentum við í svartaþoku. Óþefurinn magnaðist um allan helming, og vikurinn varð leirbornari. Hvað kom eiginlega úr loftinu, — regn eða aska? Hvorugt. Það var einhvers konar fitukenndur leir, sem féll í stórum kornum, og lagði mikinn ódaun af, en til allrar hamingju vorum við nærri því áveðurs frá gígnum. Annars hefðum við ekki komizt fetið. Hæðarloftvog mín sýndi 3500 fet. Þegar hærra dró, svifaði sortanum dálítið frá, og loksins stóðum við á hátindinum, en fyrir fótum okkar lá vítisgap gufu og viðurstyggilegra skruðninga. Skyndilega kvað við svo hár brestur, að við stóðum sem steini lostnir. Það var líkast því sem helmingur fjallsins handan þessa ægilega dals hefði hrunið til grunna. Um stund gátum við ekkert greint fyrir öskuregni og gufumökkum, sem þeyttust upp úr djúpinu, og neðan úr því bárust urgandi óhljóð og brestir, en hvergi sást í botn þessa ógurlega ginnungagaps. Hvað eftir annað kváðu við drunur og dynkir handan við gíginn og stundum þeim megin, sem við stóðum. Barmar gígsins voru bersýnilega að hrynja, og gapandi sprungur allt í kringum okkur sýndu, að ekki var hættulaust að standa þar, sem við vorum. En vindurinn var að sópa mekkinum frá, svo að við settumst á vikursteina, kveiktum okkur í pípu og biðum átekta. — Eitt var víst: Þetta var Öskjugjá, sem hafði valdið allri eyðileggingunni á Jökuldal og í nágrenni, og við vorum staddir á austurbarmi gígsins. Innan stundar loftaði undir í fjarska, mökkurinn rofnaði í flóka, sem bárust brott og eyddust hver af öðrum, og við sáum yfir hið eldsviðna, umturnaða

land, sem þandist óravítt að baki okkur. Hvert fjallið af öðru hristi af sér skýjahaminn, sem nóttin hafði lagt á þau, þokunni létti norður undan, og við gátum greint þríhyrnda sléttu, umkringda tindóttum, eldbrunnum fjöllum á alla vegu nema til norður-norðausturs. Í fyrndinni hafa sum þessara fjalla gosið hrauni og lagt þannig sinn skerf til hinna óravíðu brunaklungra Ódáðahrauns.

Slétta þessi er sjálf *Askjan* (aflangt tréskrín). Í suðurhorni hennar er gígurinn, en á austurbarmi hans vorum við staddir. Askja er um sex mílur á lengd, þrjár eða fjórar mílur á breidd og 4000 fet á hæð sunnan til. Ég held, að auðvelt sé að komast þangað um op nokkurt í Dyngjufjöllum að norðaustan. Djúpt undir fótum okkar og um eina mílu til norðurs grilltum við brátt barm gígsins, og meðan við störðum niður í hann, opnaðist víð sprunga og stór spilda steyptist hávaðalítið niður í botnlaust hyldýpið. Nú rofaði dálítið gegnum gosbræluna, og gapti þá við jarðfall, eins og op á stórri kolanámu, norðan-norðaustan við gígbarminn, og úr því lagði kolsvartan mökk beint upp í loftið. Hver dynkurinn af öðrum kvað við úr þessari kolsvörtu vítiskverk, og litlu síðar rigndi yfir okkur þéttri drífu af hinum leirkenndu kornum, sem áður var getið. Í sömu svifum blasti við á hinum svarta botni gígsins löng röð af sprungum og holum, og úr þeim þeyttust svartir gufustrókar með hvæsandi hljóði; sums staðar voru rjúkandi spildur og milli þeirra gínandi gjár. Nú brauzt sólin fram, og jafnframt léttu skýin sér upp úr kvosinni, hristu af sér eldmóðuna, sem hafði fjötrað þau yfir nóttina, og laumuðust burtu móti golunni, eins og þau blygðuðust sín fyrir að láta konung dagsins sjá sig svona hnappsetin.

Þegar hér var komið, gátum við virt fyrir okkur allan gíginn og umhverfi hans, þar sem gufumekkir byrgðu ekki sýn. Mér fannst sem það borgaði sig vel að koma alla leið frá Englandi til þess eins að fá allra snöggvast að líta ofan í slíkt ginnungagap, er gein hér við sjónum, með gapandi gjám og biksvörtum pyttum, gufustrókum, leirgraut, óþef og óhljóðum; en að baki okkar lágu óravíð öræfi hrauna og háfjalla, — bláberar auðnir þrúgaðar undir fargi öskunnar og þrymjandi af ömurleika.

Eldvarp þetta, sem ef til vill mætti nefna Öskjugjá, er eins og þríhyrna í laginu og nálægt 5 mílum að ummáli. Lengsta hliðin er að norðvestan, um 1½ ensk míla á lengd, flugbrattir og ógengir hamrar, svo að ómögulegt er að komast þar niður í gíginn. Þaðan hallar gígbotninn jafnt og þétt niður að miðjunni, sem sennilega er 400—500 fetum lægri en sléttan umhverfis. En ég hafði engin tök á að mæla dýptina, því að hvorki komst ég ofan í gíginn né heldur gat ég séð eða heyrt steinana, sem ég kastaði niður í hann. Það heyrðist ekki í þeim vegna hinnar mjúku leðju, sem þeir hljóta að hafa fallið í, því að gígbotninn virtist þakinn sams konar leirgraut og annað slagið dundi á okkur úr loftinu.

Austur- og vesturhliðar gígsins skárust í odda syðst. Þær eru girtar háum fjöllum, sem sums staðar gnæfa 1000 fet yfir Öskjusléttuna. Virðist sem goskrafturinn hafi rifið úr hlíðunum að innanverðu og myndað þannig gríðarhá, lóðrétt hamraflug. Gjábarmarnir voru líka sem óðast að molna, og sums staðar höfðu myndazt fláar úr grjóthruni og vikri, og hefði verið unnt að fara niður eftir þeim; en ofan á botn gígsins var samt ómögulegt að komast fyrir



*Askja 1875.* — (Watts, 1876).

þverhníptum stalli neðst í börmunum. Hitt er vafasamt, hversu lengi þetta helzt óbreytt, því að meðan við stóðum þarna, dundu grjótskriður í sífellu, svo vart leið mínúta á milli. Þær juku á gauraganginn og breyttu smám saman lögun gígsins. Þrjár meginsprungur með gígum og óreglulegum jarðföllum kvísluðust út frá gígmiðjunni milli suðausturs og vesturs. Voru þær ásamt dökkleitum, rjúkandi blettum og smárifum einu leifarnar, sem eftir voru, af hinni feiknlegu gjá, er eitt sinn hefur náð fjalla á milli í dalkvos þessari.

Er hér var komið, leitaði ég þangað, sem skriða hafði hlaupið úr gígbarminum og bratti var því með minnsta móti. Þar gróf ég upp snjóskafl frá síðasta vetri, og fengum við þannig nægilegt vatn í morgunverð okkar.

Förunautar mínir fengu sér blund, meðan ég var að skrifa dagbók mína, en brátt var ég truflaður í því verki af kynlegum vatnanið. Mér varð ósjálfrátt litið ofan í gíginn og sá þar í gufunni eitthvað, sem helzt minnti á hvítan þokuboga, en það leið ekki á löngu áður en mér varð fyllilega ljóst, hvað hér var á seyði. Þetta var gífurlega mikill vatnsstrókur, sem spýttist úr rifu á gígbotninum og stóð svo skáhallt upp í loftið, að hann myndaði því sem næst boga. Vatnið þeyttist langt upp fyrir sjónarhól okkar, en var þá vitanlega leyst upp í úða, er féll síðan með miklum þunga á gígbarminn hinum megin og losaði úr honum stórt stykki, sem hrundi með háværum skruðningum og olli svo miklum titringi, að hver grjótskriðan af annarri hljóp hér og þar úr börmunum. Af áhrifum þessa tiltölulega litla vatnsmagns mátti gera sér í hugarlund, hvílík ósköp hafi gengið á, þegar gosið var í algleymingi og gígurinn




*Uppdráttur G. Carocs af Öskju 1876. Þá er Öskjuvatn lítil tjörn, tæpur kílómetri í þvermál.*

ruddi úr sér vikri, leirgraut og vatni, svo að allur dalurinn var sem sjóðandi vítisbál. — Við drógum okkur í hlé undir stórum móbergssteini, gerðum okkur bæli í vikrinum, breiddum tjaldið ofan á okkur og steinsofnuðum.

Þegar við vöknuðum, gekk ég upp á hæsta tind gígbarmsins, sem er nálægt syðsta horninu. Með vasaloftvog mældist mér hann 4500 fet [1370 m] yfir sjávarmáli. Af þessum sjónarhóli sýndist gígbotninn miklu ósléttari og gjárnar víðari, sjálfsagt af því að þær blöstu betur við á lengdina. Satt að segja var engu líkara en hver sprunga reyndi að yfirgnæfa nágranna sína með því að láta sem hæst og spýta andstyggilegum ódaun upp úr sér. Ég dreg jafnvel í efa, að sjálf Köln, með sínar „þúsundir þefillra linda", hafi nokkru sinni getað andað eins viðbjóðslegum ýlduþef og þarna barst að vitum okkar! — Á einum stað virtist fær leið ofan í gíginn, og með því að það sparaði okkur mikinn krók, ef unnt væri að komast þvert yfir hann, tókum við dótið saman og lögðum af stað niður snarbratta vikurskriðu. Við klöngruðumst 750 fet ofan í móti, en þar ströndum við á hinu flugbratta klettabelti í gígveggnum, sem áður er getið. Við höfðum ekki séð þetta greinilega, af því að brún gígbarmsins slútti fram yfir sig, en nú kom í ljós, að hamrarnir voru um 300 fet á hæð og gígbotninn virtist þakinn dökkleitri leðju. Margar sprungurnar hljóta að hafa verið 20—30 feta víðar og sumar að minnsta kosti fjórðungur mílu á lengd. Ég reyndi að mæla hamrana með því að kasta stórum klumpi af þyngsta vikri, sem ég gat fundið, ofan fyrir, en það heyrðist ekkert til hans, þegar hann kom niður, enda gat ég ekki kastað honum nógu langt, til þess að ég sæi, hvar hann lenti. Við vorum líka



*Tjaldbúðir Johnstrups prófessors í Öskju 1876.* — (G. Caroc liðsforingi teiknaði).

ragir við að stíga mjög tæpt á brúnina, af því að bergið var svo laust í sér. Við áttum ekki annars völ en snúa aftur. Það dró af gamanið sakir brattans, og ég varð að reka veiku tána af öllu afli inn í vikurinn til þess að fóta mig, og á h. u. b. 200 feta kafla varð ég meira að segja að grafa mér spor með ísöxinni. Loks komumst við upp, löðursveittir og móðir, en sárfegnir að vera komnir upp úr brekkunni. Hefði okkur orðið fótaskortur, hefðum við sennilega hrapað alveg ofan í gígbotn. Við gengum nú fjallsröðulinn austur af gígnum og komumst þannig niður á Öskjusléttuna. Þar var allt þakið leirleðju, og enn féll hún yfir okkur eins

og skæðadrífa. Mér varð fyrst fyrir að athuga jarðfallið,[1]) sem ég hafði séð um morguninn. Það er alveg uppi á gígbarminum, skammt frá standberginu. Mér mældist það um fjórðung úr mílu að ummáli. Þegar horft var ofan í það, sást í fyrstu ekkert fyrir gufumökkum og leirgraut, sem bullaði og slettist til og frá. En eftir stundarkorn hrundi stór spilda úr barminum og sló þá um stund á gufumökkinn, svo að við grilltum djúpan strokk, sem mjókkaði niður, en fylltist jafnskjótt af gufu á nýjan leik. Í sömu svifum kom snögg gusa af sjóðandi gufu, leirgraut og brennisteinsfýlu, svo að við hrukkum frá sem skjótast.

Því næst athugaði ég vandlega sjálfan gígbarminn, hvort nokkurs staðar væri fært að komast niður, en alls staðar var klettabeltið til fyrirstöðu. Við reistum því tjaldið allskammt frá jarðfallinu til þess að eiga hægara með að athuga hin furðulegu og fjölbreyttu fyrirbæri, sem þar gat að líta annað slagið.

Það sem helzt bagaði okkur, var algerður skortur á vatni eða snjó, en leirinn var mjúkur, og okkur sofnaðist ágætlega. Samt leið ekki á löngu áður en við vöknuðum við leirgusu, sem lenti á tjaldinu, og hinn kynlegi nágranni okkar var svo andstyggilega hávær og daunillur, að við tókum það ráð að flýja af hólmi, — tókum tjaldið upp í skyndi og bjuggumst til ferðar. Á meðan dundi leirhríðin á okkur, og við vildum víst ekki bíða þess, að vikur og sjóðandi vatn kynni að fylgja með. Okkur var líka orðið óglatt og lá við uppköstum af gosfýlunni.

Við tókum stefnu í NNV meðfram gígbrúninni, því að

1) Hér er að sjálfsögðu átt við Víti. — J. Ey.

ég ætlaði að skrefmæla hana, til þess að eiga auðveldara með að áætla stærðina. Mér taldist svo til, að hún mundi vera 1¼ mílu [2000 m]. Yfirborðið var mjög sprungið, og sums staðar var sex feta djúpur vetrarsnjór undir vikrinum og leirgrautnum, sem gosið hafði upp úr gígnum. Við settumst að við eina sprunguna og átum morgunverð, en því næst snerum við baki við einhverri mestu undursjón, sem hugsazt getur, mér liggur við að segja furðulegasta og óútmálanlegasta fyrirbæri á öllu jarðríki!

Þessu næst örkuðum við af stað í stefnu á Skjaldbreið eða Trölladyngju öðru nafni, og lá leiðin fyrst spottakorn yfir sléttuna í Öskju, sem kvísl úr Ódáðahrauni hefur flætt inn yfir og runnið góðan spöl upp í móti á kafla. Leirinn úr Öskjugjá hafði gert hraunið mýkra við fótinn, og var það okkur mikil blessun. Við höfðum ekki lengi farið, er fram undan blasti við slétta mikil af hrauni og svörtum söndum, *Ódáðahraun*. Í fjarska gnæfði hin snævi krýnda bunga Skjaldbreiðs með hraunklepra á stangli upp úr fönninni og kynlegan klettahnúsk á kolli, ekki alls ósvipaðan og á Herðubreið. Austur lengra var Kistufell, þar sem leið okkar lá niður í Norðurland, en að baki þessu öllu hringuðust snæbreiður Vatnajökuls á allri sjóndeildinni frá austri til vesturs og virtust í fjarskanum renna saman við Tungnafells- og Arnarfells-jökul. Sprengisandur, sem er á milli þeirra, sást ekki þaðan, sem við vorum staddir, en í kíki mínum sá ég snjófönn á fjalli nokkru rétt austan við Skjaldbreið, og þangað ákvað ég að stefna, þvert yfir Ódáðahraun. Þar ætlaði ég að hvílast og skilja eftir farangur, meðan við gengjum á Skjaldbreið næsta morgun.

Hér er bezt að skjóta því inn í, að Ódáðahraun er eyði-

mörk sanda og hrauna, sem nær yfir 1200 fermílna svæði. Mestur hluti þess mun hafa runnið frá Skjaldbreið, svo að ég hygg það sé einhver elzta hraunbreiða landsins, því að Skjaldbreiður hefur ekki gosið síðan árið 1305.[1]) Nokkuð af hrauninu kynni að hafa komið úr Dyngjufjöllum eða jafnvel úr eldsprungum á sjálfri hraunbreiðunni. Mér var þó ekki unnt að koma auga á neinar greinilegar hraunspýjur úr Dyngjufjöllum, og enginn hefur heldur, svo ég viti, farið meðfram vesturhlið þeirra til þess að ganga úr skugga um það. Á nokkrum stöðum hefur hraunrennslið í Ódáðahrauni legið upp í móti. Þetta hygg ég að sé þannig til komið, að milli hraunskorpu á yfirborðinu og jarðar hafi haldizt rás, sem bráðin kvika gat streymt eftir, líkt og vatn leitar jafnvægis í lokaðri pípu, en þetta hefur farið eftir því, hversu þunnbráðin kvikan var.

En hvað sem þessu líður, vorum við 5 klst. á leiðinni yfir Ódáðahraun að snjófönninni, sem ég hafði að leiðarmerki. Þar hvíldumst við, en árla næsta morguns hélt ég af stað til Skjaldbreiðs. Þorlákur fylgdi mér, en Eyjólfur, sem var mjög lúinn, varð eftir í tjaldinu. Leið okkar lá meðfram firnamikilli hraunspýju upp í miðjar hlíðar. Annað slagið þóttist ég heyra þungan vatnanið undir hrauninu. Í miðjum hlíðum varð fyrir okkur djúpur og harður snjór, en upp úr honum gægðust hér og þar dökkir kleprar og hraunstrípar, sem gera fjallið svona dílótt tilsýndar. Skjaldbreiður er samt sem áður ekkert nema geysimikil dyngja úr blágrýtishrauni, þakin snjó á köflum; hæðin er um 4000

1) Í annálum er ekki getið um gos úr Trölladyngju eða neinu öðru eldfjalli, þetta ár, og virðist hér um misskilning að ræða. — J. Ey.

fet yfir sjávarmál og hlíðarnar mjög atlíðandi. Þaðan er mestur hluti Ódáðahrauns kominn, þótt vel geti verið, að önnur fjöll þar í grenndinni, sem öll virðast eldbrunnin, hafi lagt sinn skerf til þessa óravíða, gróðurvana brunaklungurs. En mér hefur ekki tekizt að rekja neina hraunspýju í Ódáðahrauni að öðrum upptökum en Skjaldbreið. Hátindur Skjaldbreiðs var sveipaður þokuþykkum skýjum, svo að ég nam staðar um 300 fetum neðan hans til þess að litast um. Í norðri sá yfir Ódáðahraun, hið yfirgengilega risaklungur, sem á engan sinn líka, að mínum dómi. Að vísu er það ekki stórt um sig í samanburði við mestu eyðimerkur í öðrum heimsálfum, en yfir því hvílir í senn ógnandi og heillandi harðneskjublær, eins og oft vill verða um íslenzkt landslag; og með því að ódáðaland þetta nær svo langt sem augað eygir, dregur það ekkert úr áhrifamætti þess, þótt vitnað sé í landabréfið og sýnt fram á, að hraunið taki aðeins yfir 1500 fermílna svæði. Þegar menn líta í fyrsta sinni yfir eyðihljóða, íslenzka hraunbreiðu, vekur það ámóta tilfinningu og þeir einir munu þekkja, er séð hafa eldsviðna gresju, rétt eftir að loginn æddi yfir hana. En jafnvel þótt haft sé í huga, að milljónir fermílna af svartsviðnu landi liggi umhverfis á alla vegu, vekur það ekki slík áhrif ógnarstærðar og öræfatignar sem Ódáðahraun, þótt minna sé að flatarmáli. Í norðaustri voru Dyngjufjöll, og rauk ákaflega úr þeim í hinu tæra og svala árdegislofti. Litlu austar var hin langa og stranga leið, sem við höfðum farið, og lengst í fjarska glampaði þar á ljósleitar vikurbreiður handan við víðáttumikla eyðisanda. Í suðri reis Vatnajökull, kaldur og gneypur, sveipaður þoku á hæstu bungum. Kverkfjöll og Kistufell sáust óvenju-

lega vel. Í Kverkfjöllum rauk á þremur stöðum, og þaðan virðist mikið hafa borizt fram af hrauni og sandi. Milli okkar og Kverkfjalla skagaði hin breiða jökultunga, sem nær langleiðis norður undir Vaðöldu. Frá jökulsporðinum koma fimm kvíslar Jökulsár, sem ég gat greint, en Kistufellskvíslin var í hvarfi. Að svo búnu héldum við áfram upp á háfjallið, og varð þar fyrir okkur lítill, fallegur gígur, um 500 stikur að ummáli, en ekki djúpur, því að í honum miðjum gnæfði kambur úr hraungjalli, og vegna hans sýnist fjallið svarttyppt í fjarska, eins og áður var getið.

Af lögun og gerð hraunanna umhverfis gíginn hygg ég, að síðustu gosin hafi orðið með þeim hætti, að hraunkvikan hafi ollið yfir gígbarmana, en eigi brotizt fram með offorsi; og líklega hefur lifað þar lengi í glæðunum, eftir að gosið var um garð gengið. Af tindinum gengum við spottakorn niður í norðvesturhlíðina bæði til þess að komast niður úr þokunni og til þess að sjá yfir landið vestur undan. Sama auðnin blasti þar við augum: Snjóhvítur jökull, svartir sandar og úfin hraun, kuldaleg, þögul og stirðnuð. Fjöllin voru ofurlítið frábrugðin að lögun, en auðnirnar engu síður stórhrikalegar og harðleitar, — sem væru þær reiðubúnar að kremja til bana sérhverja lifandi veru, er dirfðist að rjúfa hina tröllum vígðu einangrun þeirra.

Það varð því fangaráð okkar að halda heim í tjaldið, sárfegnir að fá vel úti látinn morgunverð, kæfu, brauð og smjör og vatn. Sól skein í heiði, og hitinn í hrauninu og sandinum varð svo gífurlegur, að við héldum kyrru fyrir og biðum kvöldkulsins, en þá héldum við af stað í stefnu á suðaustur-hala Dyngjufjalla. Þangað náðum við um miðnætti, en af því að þá skall yfir svartaþoka, hélt ég áfram

meðfram fjallsrótunum; vildi heldur taka á mig nokkurn krók en reika alla nóttina hálfvilltur á söndunum. Leið okkar lá yfir gamalt hraun, hálfgrafið í eldfjallaösku og þungt undir fæti, því að við óðum djúpt í öskunni og urðum oft að stanza til þess að tæma skóna okkar. Loks komum við á vikra og þóttumst þá vita, að við værum að nálgast Öskjugjá. Litlu síðar komum við að dálitlum læk og urðum næsta fegnir, því að við vorum allir mjög þyrstir. Vikurinn tók nú mjög að aukast, og með því að ég var hræddur um að lenda of austarlega, ákvað ég að ganga niður með næsta læk, í þeirri von að hann mundi renna í pollana, þar sem við skildum dótið eftir. Það varð krókótt leið, en við rötuðum rétt að lokum. Þegar þokunni létti, sáum við pollana og fundum dótið fljótlega og alls hugar fegnir. Okkur varð hendi næst staukur með súkkulaðidufti, svo að við settumst þá allir á poka okkar, tókum til hnífanna og hámuðum í okkur góðgætið. En brátt komumst við að raun um, að það er þorstlátt verk að éta súkkulaðiduft, svo að við belgdum í okkur vatn, þegar staukurinn var tómur, en að því búnu reistum við tjaldið og lögðumst fyrir.

Fram til þessa höfðum við notað steina í stað tjaldhæla, en hér var ekkert grjót, og með því að við höfðum nú engar heytuggur eins og síðast, er við gistum þarna, tókum við skóna okkar, bundum þá í tjaldstögin og grófum þá niður með hæfilegum millibilum kringum tjaldið. Þetta gafst vel, með því að nauðsynlegt er að grafa ógarfaða leðurskó í jörð, meðan staðið er við, svo að þeir hlaupi ekki saman og harðni um of, mætti segja, að við hefðum á þennan hátt „slegið tvær flugur í einu höggi“.



*Fótabúnaður þeirra Watts og félaga hans í Ódáðahrauni var léttur, en entist ekki vel. – (Paijkull, 1866).*

Eftir að hafa sofið vel og lengi, var það mjög ofarlega í mér að halda til Kverkfjalla, sem ég hafði mikinn hug á að athuga, en bæði var leiðin löng og yfir Jökulsá að sækja, auk þess sem Þorlákur fullyrti, að við mundum brátt verða „að ganga á berum kjúkunum", ef við færum þangað, svo hér var úr vöndu að ráða. Við vorum þegar orðnir illa gengir eftir hraunið, höfðum slitið fernum skóm hver, síðan við fórum frá Grímsstöðum. Skórnir, sem héldu tjaldinu, voru senn útslitnir, og í farangrinum voru aðeins tvennir skór nýir, svo hér var allt annað en gott í efni. Við áttum langa leið fyrir höndum, og að öllu samanlögðu komst ég að þeirri niðurstöðu, að ógerlegt væri að fara til Kverkfjalla. Ég ákvað því að ganga aftur á Dyngjufjöll og líta yfir landið í síðasta sinn af næsta tindi, en á meðan skyldi Eyjólfur bera allt dótið að lækjarsytru undir fjöllunum, um tveim mílum norðar. Til þess þurfti hann að vísu að fara tvær ferðir. Við Þorlákur lögðum hins vegar á brattann, en töfðumst mjög af gjám eða sprungum, sem urðu á leið okkar, sumar mjög djúpar, sennilega nokkur hundruð fet. En sums staðar fundum við á þeim brýr úr snjó og vikri, sem unnt var að klöngrast yfir.

Sól var gengin í vestur um þær mundir, er við komumst upp á fjallið, og mér verður satt að segja orðfátt, er ég leitast við að lýsa útsýninu. Að baki okkar var eldfjallið, sem þeytti upp svörtum reykjum og gufustrókum; fjöllin, sem skinu eins og skrauthnappar á grjótunum suður undan, voru öll hulin einlitum, gráum kufli; í norðri mótaði fyrir svörtum söndum Mývatnsöræfa, og svo langt sem augað eygði til austurs skiptust á fjallgarðar, dalir og sandsléttur. Í samfleyttar tvær klukkustundir mátti heita, að við gleymdum okkur í draumalandi útsýnisins. Ég vissi satt að segja ekki, hvað tímanum leið, fyrr en sólin var að hverfa á bak við Hofsjökul og sló gylltum bjarma á brúnir hans. Þá minnti úrið mig á, að ellefta stund dagsins væri senn liðin.

Með sólarlaginu gerðist mjög kalt í veðri, það stirndi í hélu á steinum, og purpurarauð kveldglóð færðist yfir fjöllin, svo að brúnir þeirra bar óljóst við kveldroða himinsins; okkur var því mál að hugsa til hreyfings. Ofangangan var talsvert kátleg, því að við runnum hvað eftir annað á fleygiferð fram af snarbröttum vikursköflum. Við höfðum verið yfir þrjár stundir að paufast upp fjallið, en tæplega eina að komast ofan af því. Eyjólfur beið okkar þar sem honum var til vísað. Við tókum hressilega til matar okkar, bættum skóna okkar sem bezt við gátum við tunglsbirtu og tókum því næst beina stefnu á Herðubreið, en fórum aðra leið en við komum.

Í sólarupprás vorum við hjá Herðubreið, og satt að segja var ég allfeginn að vera á heimleið, því að bólgan í stórutánni fór versnandi, og mér var nauðsynlegt að hafa blásteinsbakstra við hana og hvíla mig, svo að þetta batnaði.

Veðrið gat líka brugðizt til beggja vona, því að gullmistraðir regnbólstrar hnöppuðust á loftið og var mikið far á þeim efra, þótt stillilogn væri við jörð, en slíkt veit jafnan á hvassviðri á Íslandi.

Þegar við vorum komnir yfir vikrana, tók við hraunaklungur, sem að nokkru leyti hefur runnið frá fornu eldfjalli, sem ekki er sýnt á uppdrætti, um 8 mílur suðursuðaustur af Herðubreið, en að nokkru leyti virðist það vera frá Dyngjufjöllum og jafnvel Trölladyngju. — Hjá vatnspolli, sem varð á vegi okkar, settumst við að.

Herðubreið, sem hefur mælzt 5447 fet á hæð, er snævi krýnd keila, sem hvílir á lóðréttum klettastabba, og er hæð hans um það bil tvöfalt þvermál keilunnar. Suðaustan og vestan á fjallinu eru brattar urðir af molnuðu og veðruðu grjóti, en út úr þeim skaga kynlega löguð klappaköst og molabergshausar. Að öðru leyti eru hlíðar fjallsins alls staðar lóðréttur hamraveggur, er rís allt að 2000 fet frá rótum fjallsins upp á brún. Umhverfis fjallið er sendinn slakki, sums staðar fullur af hnullungsgrjóti, er fallið hefur úr samryskju þeirri, sem er aðalefnið í Herðubreið.

Fjall þetta er líklega eftirtektarverðast vegna þess, að engir lækir fossa niður hlíðarnar, en við rætur flestra annarra snæfjalla á Íslandi er lækur við læk, sem oft á tíðum hverfur í sand eða holuhraun, eins og þegar hefur verið drepið á. En allt það vatn, sem hlýtur að myndast við leysingu á jökulhettu Herðubreiðar, virðist hverfa með öllu, unz það kemur fram í lindum alllangt frá fjallinu. Sumar dragast saman í upptökum Lindár, en aðrar safnast í polla eða tjarnir, svo sem Herðubreiðarvatn.

Giljarásirnar, sem víða hafa sorfið á hlíðar Herðubreið-

ar hina furðulegu lögun, sem er sérkenni fjalla úr molabergi, virðast til orðnar fyrir áhrif regns og vinda. Einu staðirnir, sem mundu vera kleifir, eru að sunnan-suðaustan og norðvestan. Á síðarnefnda staðnum reyndi Burton liðsforingi fyrir sér 1872, sá þaulreyndi ferðagarpur, og virtist hann álíta, að Herðubreið sé kjarni úr miklu stærra fjalli. Þetta er hugsanlegt, en útlitið bendir eindregið til, að Herðubreið sé allt annað en mjög fornt eldfjall. Annálar herma líka, að hún hafi gosið oftar en einu sinni. Hin einkennilega gerð fjallsins gefur tilefni til alls konar ágizkana um uppruna þess og eðli, en einungis nákvæm rannsókn frá rótum að efsta tindi getur leitt til viðunandi niðurstöðu. Palagónít-molabergið (sem er aðalefni fjallsins) er svo laust í sér, máttur íslenzkra veðra svo mikill og atgangur jarðeldanna svo harður, að engan skyldi furða, þótt fjöllin séu furðuleg ásýndum og undarlega gerð.

Mér þótti mjög leitt að verða að fara fram hjá Herðubreið án þess að freista uppgöngu á hana, en fótabúnaður okkar var gatslitinn og táin á mér þurfti lækningar með, svo að við settumst að á sandorpnu hrauni í stóru gildragi, um mílu á lengd og hallandi til norðurs. Tjaldið breiddum við yfir okkur sem teppi, en við höfðum aðeins fest svefninn, er við hrukkum upp við snarpa vindhviðu og slíka hvolfu af roksandi og vikri, að ég vissi hreint ekki fyrst í stað, hvaðan á mig stóð veðrið. Við stukkum á fætur, en fengum augun þegar full af vikurdusti, og þegar ég reyndi að koma upp orði, fylltist munnurinn af sandi. Við urðum að horfa á eftir öllu smádóti úr farangri okkar sendast í loftköstum til hinna skjólsælli staða landsins. Ég reyndi að bjarga hattinum mínum, en þá rak ég

veiku tána í stein, flækti mig í tjaldstögunum og skall kylliflatur, enda var það mér fyrir beztu, því að í sama vetfangi var bylurinn liðinn hjá og ég gat áttað mig.

Blindaðir af sandi og úrvinda af sársauka, sem það olli okkur, bröltum við að pollinum og skoluðum augun. Meðan við vorum að því, kom önnur roka, svo hörð að við urðum að húka á hnjánum með andlitin niðri í vatninu unz hún var liðin hjá. Þá stauluðumst við þangað, sem dótið hafði verið, allir ataðir í sandi og vatni. Ég sagði *hafði verið* um dótið, því að það var ekki allt á sínum stað. Barðastóri hatturinn minn, danski, og helmingurinn af smádóti mínu var horfið, og það sem verst var, uppdrátturinn og taskan. Hvað var orðið af því? Fjórir hvítir dílar úti í hrauni, um fjórðung mílu í burtu, komu mér til að taka sprettinn, meira að segja harðasprett, — þrátt fyrir tána og allt annað. En sársaukinn og spretturinn borguðu sig fyllilega, er ég handsamaði uppdrátt Björns Gunnlaugssonar, sem bókbindari í Reykjavík hafði límt undir og búið um í hylki af mikilli prýði. Nú hefði sjálfur bókbindarinn vart dregið kennsl á handaverk sitt. Ferðin yfir Vatnajökul hafði að vísu ekki fegrað útlit þess, en með því að fara gagnveg yfir pollinn og út í hraunið hafði innihaldið orðið ólæsilegt á köflum. Til allrar hamingju var samt Vatnajökull og nágrenni hans ásamt margvíslegu kroti eftir mig dásamlega varðveitt, en hylkið sá ég ekki framar.

Nú víkur sögunni að tjaldstæðinu. Allt, sem við höfðum grafið í sandinn, var á tjá og tundri, og í sama bili og við vorum að verða ferðbúnir á nýjan leik, kom einn bylurinn enn æðandi niður eftir gilinu og ætlaði okkur að kæfa.

Við drógum regnkápurnar upp yfir höfuð, meðan ósköpin gengu yfir, og þá varð Þorláki mínum að orði: „Ekki er það gott", og undir það tók ég af öllu hjarta eins eindregið og orðaforði minn á íslenzku leyfði frekast.

Okkur sóttist nú greiðlega yfir hraunið, og þar böðuðum við augun, í skjóli við slútandi hraunkamb, úr zinksúlfati og rósavatni, sem oft hafði hjálpað mér vel á Íslandsferðum mínum, og ræð ég eindregið öllum þeim, er kynnu að feta í fótspor mín, að gleyma ekki þessu bráðnauðsynlega meðali. Leið nú ekki á löngu, unz við komum á graslendi við upptök Lindár, en hún kemur úr lindum tvær mílur NNA af Herðubreið. Við Lindá tókum við okkur hvíld þá, sem okkur var meinað að njóta í fyrri áfangastaðnum, og um kvöldið fundum við hina félaga okkar við Grafarlandaá. Varð ég næsta feginn hestunum og ríflegum matarforða, sem hafði verið sendur ásamt vinsamlegu bréfi frá þessu ágætisfólki á Grímsstöðum. En auk þess hafði það sent pönnukökur, flatbrauð, kaffi og mjólk, og þó að hún væri orðin súr, kom hún sér vel. Frá Vopnafirði hafði ég pantað dálítið brennivín og súkkulaði, svo að nú lifðum við kóngalífi, að okkur fannst. Og eftir að hafa skolað rækilega af mér, svaf ég værum svefni í svefnpokanum góða, en hann hafði skýlt fylgdarmönnum mínum, meðan þeir biðu okkar á bökkum Grafarlandaár.

V. KAFLI

# Mývatnseldar. – Ferðir á Norðurlandi.

Kl. 5 morguninn eftir vorum við komnir á hestbak og riðum greitt yfir sanda og hraun Mývatnsöræfa. Að baki var Vatnajökull og heimkynni ódáðamanna, hulin ljósgráu rykmistri, sem SA-golan þyrlaði upp á vikrunum. Ryk þetta var, svo ég skjóti því inn í, mesta óhræsi, líkast örsmáu glerdusti. Það settist í fötin, svo að þau urðu snörp, og af mér höfðu þau rifið ónotalega. Um hádegisbil vorum við komnir á móts við Grímsstaði, en miklu vestar; og þar áðum við og létum hestana kroppa melþúfur, því að sólarhiti var afarsterkur. Eftir að hafa matazt, hljótum við að hafa oltið út af, því að allt í einu hrökk ég upp og sá, að klukkan var orðin eitt og allir hestar horfnir. Tók það fulla klukkustund að smala þeim saman. Að því búnu lögðum við á nýja hraunið, sem runnið hafði þá um vorið á Mývatnsöræfum. Við höfðum æðilengi fundið fyrir brennisteinsþef þaðan, enda þótt vindáttin væri því heldur til fyrirstöðu. Hraun þetta, sem er um 15 mílur á lengd og 2—3 á breidd, hefur að mestu leyti flætt yfir önnur og eldri hraun. Megnið af því hefur runnið úr gömlu eldvarpi þarna í grenndinni, og nefnist það Sveinagjá. Nýja

hraunið nær um eina enska mílu norður fyrir gamla veginn milli Reykjahlíðar og Grímsstaða.

Á þeim slóðum er fremur gróðursælt meðfram hrauninu, og nokkrar kindur voru þar að kroppa í sig víðilauf, enda þótt ágætir hagar séu fyrir hendi nokkru norðar. Hraunið var úr basalti, úfið og klungrótt, eins og hraun eru flest, með hraunkarla, kamba, blöðrur og gjallhrúgur. Það var kolsvart á litinn og ennþá heitt. Yfir því grúfði þunn slæða af rammri svælu, og víða þutu upp gufustrókar í allar áttir. Hraunkvísl þessi, eða öllu heldur báðar spýjurnar, sem síðar runnu saman í eitt, hafa runnið úr langri sprungu á jafnsléttu, og var stefna hennar mörkuð af röð keilumyndaðra hóla, er hrúgazt höfðu upp í gosinu að áliðnu vori. Verður þeim nánar lýst hér á eftir, og í *Viðbæti* er sagt nokkuð frá fyrri gosum á þessum slóðum.

Við klöngruðumst spottakorn út á hraunið, en komumst ekki að gíghólunum, vegna banvænnar gufu, sem streymdi frá þeim. Sprungur í hraunin voru bryddar ýmiss konar salthélu, sums staðar allt að hálfum þumlungi á þykkt. Meðal þeirra bar mest á salmíaki, en það var óðum að leysast upp. Ef til vill hefur borgað sig að taka það, því að magnið var talsvert.

Þessu næst tókum við á okkur mílukrók til þess að ná í vatn, sem Þorlákur bjóst við, að þar væri, en við vorum allir sárþyrstir. Leiðin lá yfir gamalt helluhraun, en síðan komum við í stórþýft graslendi norðan hraunsins. Þar voru sprungur margar, er myndazt höfðu í jarðskjálftanum, og hafði sandur, grjót og hraunslettur þeytzt upp úr sumum, að því er Þorlákur tjáði mér. Við fundum ekki annað en uppþornaða pytti, þar sem Þorlákur bjóst við vatni, svo að

við áttum ekki annars úrkosta en að halda rakleitt til Reykjahlíðar. Efalaust hefur vatnsleysið stafað af hinum mörgu sprungum og brestum, sem nýverið höfðu myndazt á þessum slóðum.

Vegna nýja hraunsins urðu ferðamenn að leggja þriggja mílna lykkju á leið sína milli Grímsstaða og Reykjahlíðar. Við fórum yfir lægð, víst 30 feta djúpa, og allmargar fermílur að flatarmáli; hafði hún myndazt af eldgangi. Umhverfis lægðina var jörðin mjög sprungin og umturnuð. Sagði Þorlákur mér, að lægðin hefði myndazt skömmu eftir fyrstu goshrinuna þá um vorið. Brátt bar okkur að fjöllunum við Mývatn, og þar náðum við í ofurlítið vatn. Síðan lá leiðin yfir Námafjall. Í hlíðum þess skiptast á leirgulir, moldrauðir og leirbrúnir litir, er minna oft og einatt á upplituð auglýsingaskilti. Ilmur var þar allt annað en sætur. Á þessu svæði eru auðlindir félags þess, er nefnist *Northern Sulphur Mining Company,*[1]) en mér var nú meira hugsað til væntanlegs kvöldverðar en falinna fjársjóða undir fótum okkar. Meira um þá síðar.

Við riðum eftir þurru lækjardragi upp á skarðið milli Dalfjalls og Námafjalls, og þaðan eygðum við í fyrsta skipti Mývatn, en við norðurenda þess stendur bærinn Reykjahlíð. Mývatn nýtur sín bezt úr fjarlægð, en hefur ekki af mikilli fegurð að státa, þótt vissulega hafi það margt til síns ágætis. Það er umgirt eldbrunnum fjöllum og úfnum

---

1) Danska stjórnin leigði brennisteinsnámana Alfred A. Lock til 50 ára frá 1. sept. 1872 að alþingi fornspurðu. Var því fálega tekið hér á landi. Leiga skyldi vera 50 pd sterling fyrsta ár, en hækka um 10 pd á ári, unz hún náði 100 pd á sjötta ári og standa óbreytt úr því í 45 ár. — J. Ey.

hraunbreiðum, alsett ólögulegum smáhólmum og því harla kynlegt ásýndum. Eftir stutta reið fram hjá fnæsandi og rjúkandi brennisteinsaugum bar okkur að garði í Reykjahlíð og var þar vel fagnað af Pétri bónda Jónssyni, sem bjóst við komu okkar.

Reykjahlíð er í betri bæja röð. Jörðin er góð undir bú og hefur verið í eigu sömu ættarinnar í 600 ár. Ég varð feginn að hitta Pál, sem beið þar með allt okkar hafurtask, og ekki þótti mér lakara, er mér var sagt, að Englendingur nokkur hefði aðsetur sitt í gestastofunni. Þessi landi minn reyndist vera G. Fitzroy Cole[1]) og var hann við landmælingar í grenndinni fyrir félag það, sem hyggst nytja brennisteinsnámana. Ég frétti líka, að hópur námumanna undir stjórn hins landskunna Burton's liðsforingja væri nýfarinn áleiðis til Húsavíkur. Með því að gestastofan var þannig setin, var mér vísað til annars herbergis ásamt þeim Páli og Þorláki. Um morguninn veittist mér sú ánægja að kynnast herra Cole, sem bauð mér að vera hjá sér í stofunni, og þangað var okkur borinn indæll lax.

Næstu tvo daga héldum við kyrru fyrir, því að veðrið var leiðinlegt. Ég gerði upp reikninga og greiddi kaup öllum fylgdarmönnum mínum — nema Páli og Olgeiri — og lét þá halda heimleiðis til Suðurlands. Herra Cole fór alfarinn um þessar mundir, svo að ég fór að rannsaka brennisteinsnámana á eigin spýtur. Þeir eru á Námafjalli við austanvert Mývatn og kallast einu nafni Hlíðarnámar. Þar er margt brennisteinshvera, ekki aðeins í Námafjall-

---

1 Cole ritaði bók um dvöl sína: *Summer Travelling in Iceland,* London 1882. Hann nefnir ferð Watts yfir Vatnajökul, en getur ekki um samfundi þeirra. — J. Ey.

inu sjálfu, heldur og alllangt út frá því til beggja hliða. Námafjall er úr palagónít-samryskju og hrauni. Brennisteinsnámarnir eru blátt áfram kalk- og kísilblandaðir leirpyttir, myndaðir úr sundursoðnu hrauni og móbergi. Á yfirborði pyttanna sezt brennisteins-skorpa, sem getur verið frá hálfum þumlungi upp í nokkur fet á þykkt. Brennisteinsnámar eru svo alþekkt fyrirbrigði, að óþarft er fyrir mig að fjölyrða um þá. Ég athugaði fyrst vesturhlíðar Námafjalls og fann þar bæði virkar og óvirkar brennisteinsholur. Hinar fyrrnefndu frussa og hvæsa eða rjúka hljóðlaust; þær síðarnefndu eru kaldir haugar af brennisteini, kísilleir og gipsmylsnu. Ég gat fylgt slóð þeirra, sem höfðu verið að rannsaka námana á undan mér. Þeir höfðu grafið í brennisteinshaugana og sums staðar höfðu þeir höggvið upp kalk- og kísilleirinn, sem verður að eins konar hverahrúðri, er hann harðnar. Leirinn inniheldur líka ögn af brennisteini frá 5 til 40 af hundraði í sýnishornum þeim, sem ég tók. Víða fann ég brennisteinsskorpur undir ljósleitu grjótrusli, og virtust þær ná yfir talsvert svæði. Ég gerði lauslega áætlun með því að skrefmæla lengd og breidd helztu brennisteinsblettanna, en slumpaði til um hina smærri, og taldist mér til, að þarna væru um 20 brennisteinsblettir 20 ferhyrningsstikur að stærð — hver þeirra — og meðalþykkt af hreinum brennisteini um hálft fet.

Upp á Námafjall gengum við eftir þurru, djúpu gildragi og tókum eftir allþykku lagi í börmum þess úr gljúpum sandsteini, sem myndazt hefur við veðrun á hinum losaralegu bergtegundum fjallsins. Á háfjallinu voru margir brennisteinshverir, og þar er brennisteinslagið lík-



*Leirhver austan undir Námafjalli.* –
(Baring-Gould, 1863).

leg þykkast, en að öllu samanlögðu held ég það nái tæplega yfir eins stórt svæði og í vesturhlíðinni. Efst á fjallinu eru allmargir hraunkarlar úr blágrýti, mjög veðraðir og etnir af súrum gufum úr næstu brennisteinshverum. Í austurhlíð fjallsins er krökkt af brennisteinsholum, og líklega er meira þar af hreinum brennisteini en á háfjallinu

eða í vesturhlíðinni. Þess ber að gæta, að ég miða einungis við brennistein, sem stendur upp úr, en undir niðri er sjálfsagt miklu meiri brennisteinn en á yfirborðinu.

Austan undir fjallinu voru kringlóttir pyttir með bláleitri leðju í. Af þeim lagði illan daun, er minnti nokkuð á óþefinn, sem við kunnum verst, í Öskjugjá. Pyttir þessir eru sísjóðandi, en færast annað slagið í aukana og sletta þá leirgrautnum 4—5 fet upp í loftið. Umhverfis þá hafa hlaðizt barmar úr hörðum leir, nokkurra feta háir. Skörð voru brotin í tvo barmana, og ætla ég því, að stundum komi snögg umbrot í pytti þessa. Þegar við vorum að nálgast nyrzta leirhverinn, brast jörðin allt í einu undir mér, og ég sökk í sprungu upp undir hendur. Undir mér gaus jafnskjótt upp gufumökkur, og varð ég þeirri stundu fegnastur, er Olgeir, félagi minn, dró mig upp úr sjálfheldunni. Var það vissulega heppni, að sprungan skyldi ekki vera full af sjóðandi leirgraut, ella hefði ég sennilega brennt mig enn þá verr en ferðafélagi minn, séra J. Wynne, er hann slapp ofan í hveraholu í Krýsuvík sumarið 1874. Sprunga þessi hefur sennilega myndazt í jarðskjálftunum um vorið, fyllzt af leirgraut, sem harðnaði á yfirborðinu, en rann burtu hið neðra; þannig myndaðist hættuleg tálgröf hverjum þeim ferðalang, er kynni að taka upp á því að grandskoða hverasvæði þetta.

Er ég fór um vesturhlíð fjallsins í bakaleiðinni, tók ég mér bessaleyfi og skóf allan brennistein úr einni smáholu og setti í eina hrúgu á barminum. Mesta vandamál Brennisteins-félagsins er, að mínum dómi, þetta: Hversu lengi er brennisteinninn að safnast í holurnar? Ég treysti því, að herra Lock, eigandi námanna, fyrirgefi mér uppátækið;



*Reykjahlíðarkirkja, þegar Watts kom þangað.* — (Burton, 1875).

en eftir eitt ár eða tvö ætti hann að geta farið nærri um, hversu ört brennisteinninn myndaðist. Ég fyrir mitt leyti mun fylgjast með þessu af fyllstu forvitni.

Því næst héldum við til Reykjahlíðar og áfram með Pétri bónda og Þorláki, tengdasyni hans. Bóndi virtist eitthvað önugur yfir öllu þessu brennisteinsstappi, og eftir því, sem ég komst næst, hafði það frá fornu fari verið viðkvæmt mál, hvort Reykjahlíðarbændur eða danska stjórnin ætti brennisteinsnámana. Á þessu gat víst ekki leikið neinn vafi,

en mig furðaði engan veginn á afstöðu hans. Fjölskylda, sem átt hefur sömu landareign í 600 ár, lítur eðlilega svo á, að hún eigi blátt áfram fjöllin, sem þar eru. Þessi ágreiningur skýrir fyllilega alla stirfni, sem Brennisteinsfélagið kynni að hafa orðið fyrir. Fyrir mitt leyti vil ég aðeins geta þess, að meðan ég dvaldist í Reykjahlíð, átti ég mjög góðu að mæta, fékk allt hið bezta, sem til var, og greiðslur voru sanngjarnar. Pétur gamli sagði mér, að hann væri að byggja steinkirkju í stað torfkirkjunnar gömlu, sem var orðin hrörleg. Af grjóti átti hann nóg, en aðalvandkvæðin voru skortur á kalki. Svo sannarlega hafði hann orðið að flytja allt, sem hann hafði fram til þessa notað, frá Danmörku, og það varð honum vitanlega mjög dýrt. Ég ráðlagði honum að reyna að brenna gips úr námunum og leiðbeindi honum með aðferðina. Virtist þetta gleðja hann af öllu hjarta.

Gamla kirkjan er sú hin sama bygging, með nokkrum endurbótum, sem svo mikið hefur verið talað um og ritað, vegna þess að hún komst hjá eyðileggingu í Kröflugosinu, 1724. Hér nægir að geta þess, að hraunrennslið gat ekki náð kirkjunni, nema það hefði áður fyllt upp Mývatn. Síðasta verk mitt um kvöldið var að undirbúa skyndiferð að Dettifossi.

Næsta morgun var veður ófýsilegt; hafði snjóað mikið um nóttina, fjöll og byggðin voru hvít af snjó, vindur nístingskaldur á norðvestan, líkast því sem allt í einu væri kominn hávetur. Samt sem áður vorum við ferðbúnir kl. 9. Á leiðinni fannst okkur kátlegt að sjá fólk við heyvinnu í hríðarveðri. En sannleikurinn var sá, að fólkið í Reykjahlíð gekk í óðaönn að túnaslættinum. Sumir voru að slá,

en aðrir að raka nýslegið hey í sæti, svo að það yrði fyrir sem minnstum skemmdum. Við fórum yfir hraunkargann vestan undir Námafjalli og síðan krókótta götu upp Námaskarð, sem skilur Námafjall frá Dalfjalli; riðum svo norður með fornu, grónu hrauni, en beygðum þá snögglega í norðaustur og komum að Skarðsseli, litlum hrörlegum kotbæ, sem eitthvað af vinnufólki frá Reykjahlíð hafðist við í að sumrinu, er það gætti búsmala þar í högunum. Þarna þömbuðum við mjólk, en skildum eftir stóran bita af laxinum frá herra Cole, eitthvað af skonroki, súkkulaði og brennivíni til þess að hressa okkur á í heimleiðinni. Við þræddum okkur yfir Sandbotnafjall eftir sendnu dalverpi, og tóku þá við hin sléttlendu Mývatnsöræfi. Þar var æsilegt sandrok. Leiðin lá nú enn yfir sandorpið hraun, sem kvað vera runnið frá Kröflu. Áfram héldum við, þótt NNA-stormurinn ætlaði að svipta af okkur kápugörmunum. Smám saman vottaði fyrir gróðri, og litlu síðar þeystum við yfir ágætt sauðland, þótt grýttir og graslausir blettir væru á milli. Alloft urðu tafsamar sprungur á leið okkar, sjálfsagt nýlegar og til orðnar í sambandi við eldgosin um vorið. En þær voru mjög lítilfjörlegar í samanburði við sprungur, sem áður höfðu orðið fyrir okkur á Mývatnsöræfum.

Eftir sex klst. reið sáum við loks úðamökkinn yfir Dettifossi, og litlu síðar lá leiðin yfir drag nokkurt, er leit út eins og farvegur eftir stórfljót, sennilega Jökulsá, sem gæti hafa flutzt í núverandi farveg af jarðskjálfta. Þegar við riðum upp á eystri bakkann, bárust okkur að eyrum þungar dunur frá Dettifossi. Eftir að hafa klöngrazt yfir basaltklappir, bar okkur að ánni. Þar fórum við af baki á grös-

ugum hagabletti og höfðum þaðan ágætt útsýni yfir fossinn, sem er næsta mikilúðlegur. Jökulsá er þarna um 250 stikur á breidd og veltur fram í syngjandi strengjum, unz hún steyptist fram af lóðréttum basalthamri, að minnsta kosti 200 feta háum, niður í allvíða gjá, þar sem vatnið vellur og ólgar í ógnarlegum hamförum; boðaföll rísa, rekast á og hvirflast sem bólgið öfugstreymi með þrumugný, unz það losnar úr klettaþrönginni og flýtur nokkru neðar sem breið og straumþung, skolgrá elfur. Dettifoss er mestur foss á Íslandi og, ég hygg, í allri Norðurálfu. Hann mun slaga hátt upp í Niagarafossinn Canada megin. Afstaðan við Dettifoss er ekki vel til þess fallin, að hæð hans vaxi í augum, því að menn verða að virða hann fyrir sér ofan frá, og það miklar hann ekki. En allt um það, þótt Dettifoss skorti fegurð til jafns við Niagara, þá mun engum finnast sem fallþungi vatnsins sé minni en í hinum vestræna gljúfrabúa. Gætum þess, að fríðleiki hins síðarnefnda er að verulegu leyti umhverfinu að þakka, skógi vöxnum hæðum, og tærleika vatnsins. Enda þótt Dettifoss sé miklu minni en allir Niagarafossarnir til samans, er hann samt bæði ægilegur og fagur ásýndum og enn mikilúðlegri vegna hins tröllslega landslags, sem hann er greiptur í.

Annar foss er nokkru ofar í ánni, ekki hár og tekur því varla að nefna hann í samanburði við Dettifoss. Einn fossinn er öðrum svo líkur, að þeir geta orðið þreytandi, þegar menn hafa skoðað hina stærstu, — nema eitthvað sérlega forvitnilegt sé við þá bundið.

Er við höfðum fengið hrifningu okkar af fossi og útsýni fullnægt, var tekið til nestisins og síðan haldið heim á leið í ausandi rigningu. Laust eftir miðnætti vorum við komn-

ir vestur yfir Mývatnsöræfi, og með því að þokunni var að létta af fjöllunum, sneri ég hesti mínum í áttina til Kröflu. Er við höfðum farið nokkur hundruð fet upp í móti, skall þokan yfir okkur á nýjan leik, og víða var svo mikill snjór, að leiðin varð býsna viðsjál í næturhúmi og þoku. Við hættum því við Kröflu að svo stöddu, fundum læk, sem rann til suðurs, og fórum með honum niður að selkofanum, þar sem við skildum eftir laxinn og annað matarkyns. Fólk var í fastasvefni, en ein stúlkan fór þegar á fætur til að stjana við okkur, en önnur dró fyrst upp brennivínsflöskuna, því næst skonrokið og síðast súkkulaðið — úr einu geymslunni, sem henni virtist tiltæk, en það var undir sængurfötunum! Með því að þrír sváfu í rúminu, fór ég að verða smeykur um, að laxinn hefði hlotið miður æskilega geymlu á sama stað, en hann hafði verið vistaður úti við. Skonrokið og súkkulaðið hefur sjálfsagt verið jafngott eftir geymsluna, en það var óhugnanlega volgt, svo að ég kaus heldur að bíða, meðan laxinn var soðinn; og þreyttur ferðamaður gat svo sem fengið það, sem verra var, eftir nærri sólarhrings ferðalag í kuldasteytingi, enda fékk ég í ofanálag gott kaffi, sauðamjólk og brennivín.

Heim að Reykjahlíð komum við kl. 5 um morguninn. Ég fleygði mér út af fram að morgunmat, kl. 7, og síðan héldum við af stað til Kröflu. Á leiðinni yfir Námaskarð fórum við fram hjá allavega litum hrúgum, brekkum og brennisteinshaugum, sem minntu mig á úrgangsefni frá geysimikilli litunarstöð, en því næst beygðum við meðfram Dalfjalli að austan milli hrauns og hlíða. Á þessum slóðum var mikill gróður, eftir því sem gerist á Íslandi, víðir og birkikjarr. Því næst tókum við stefnu á

Sandbotnafjall og stönzuðum snöggvast í Skarðsseli til þess að fá okkur sauðamjólk að drekka. Því næst hröðuðum við ferðinni yfir hraun og klungur til Kröflu. Hestana heftum við undir hálsinum milli Kröflu og Leirhnúks og lögðum svo tafarlaust á brattann. Þar urðu á vegi okkar allmargir brennisteinspyttir, og lagði af þeim lítt þolandi óþef, en annars fátt um þá að segja. Litlu ofar komum við á hjalla nokkurn suðvestan undir sjálfu Kröflufjalli. Þaðan sáum við, okkur til ánægju eða hitt þó heldur, að hestarnir voru lagðir af stað heimleiðis þrátt fyrir höftin, en áfram héldum við meðfram suðvesturbarmi á gígvatni nokkru, sem ég áætlaði yfir tvær mílur að ummáli.[1]) Það er um það bil tvöfalt lengra en breiddinni mundi nema og háir leirbakkar að því á alla vegu með sundursoðnu bergi og lausagrjóti á köflum. Svipaður gígur, en öllu kringlóttari, var nokkru norðar og vestar. Gengum við eftir rima, sem verður milli vatnanna, og bar okkur þá að hlíðum sjálfrar Kröflu, sem er nokkurn veginn keilumyndað hrúgald að efsta tindi. Hlíðarnar voru þaktar lausaskriðum. Í þeim var mikið af líparíti, og í því sá ég sums staðar agnir af járnsteini, en hvergi gat ég fundið þær í föstu bergi. Eftir harðsóttan hálftíma gang vorum við komnir upp á fjallið. Hæðarmælir minn sýndi 300 fet yfir Reykjahlíð eða nærri 4000 fet yfir sjávarmál. Er við lituðumst um, sáum við á hjallanum vestan undir fjallinu allmarga vatnspolla, sennilega dálítil gígvötn, og hið sama gildir eflaust um báðar kvosirnar suðvestan við fjallið. Fylgdarmaðurinn sagði, að síðasta Kröflugos hefði komið úr nyrðri kvosinni,

1) Hér er átt við Víti. — J. Ey.

og vatnið í henni hefði löngum verið heitt. Hann sagði mér líka, og það staðfesti faðir hans eftir á, að Krafla hefði aldrei gosið hrauni, heldur eingöngu ösku og vikri, sandi og vatni, enda gefur útlit þessara gígpytta vissulega auga leið í því efni. Ég var mjög undrandi, er ég fann enga hrafntinnu, því að ég hafði heyrt mikið látið af hrafntinnunni í Kröflu, en síðar komst ég að því, að steintegund þessi er eingöngu bundin við þann hluta fjallsins, er nefnist Hrafntinnuhryggur, og finnst þar samt aðeins í molum. Eini staðurinn á Íslandi, þar sem ég hef fundið hrafntinnu í föstu bergi, er Pálsfjall í miðjum Vatnajökli.

Mjög er víðsýnt af hátindi Kröflu. Hæðirnar suðvestan undir fjallinu voru flekkóttar af brennisteinsskellum og býsna vetrarlegar eftir hríðarbylinn daginn áður. Suður lengra blasti við Hlíðarfjall og Dalfjall, Mývatn með öllum sínum kringilkrókum og sveitin öll suður að Sellandafjalli, sem gnæfði eins og eyja upp úr dökkum jaðri Ódáðahrauns. Í suðurátt, milli snjósleginna fjalla austan Skjálfandafljóts og hinna sírjúkandi Dyngjufjalla, gat að líta hrjóstur Ódáðahrauns með Skjaldbreið fannhvítan að baki, en víðáttur Vatnajökuls virtust renna saman við sjálfan himininn, — og loks óx þetta svo í augum, að þau leituðu hvíldar við nálæga og ljúfleitari, græna bletti, sem eldfjöll og jöklar hafa látið Íslendingum eftir.

Nokkru austar en Sellandafjall er Bláfjall og austur af því brennisteinssvæðið Fremri-Námar og hinar eldbrunnu Trölladyngjur.[1]) Loks er hin tígulega Herðubreið með

1) Lýsing höf. á þessum kafla er nokkuð ruglingsleg. Með Trölladyngjum er átt við einu nafni Ketildyngju, Kerlingardyngju og fleiri fjöll á þeim slóðum. — J. Ey.

mjallhvítan hjálm af nýföllnum snjó. Í austri og norðaustri sér yfir hin sléttlendu Mývatnsöræfi, og móðar þar fyrir dökkum blettum nýrunninna hrauna. Í NNA gnæfði hár gufustrókur, sem sólin blikaði á. Það var úðamökkur frá Dettifossi. Hann breytti lögun, eftir því sem vindurinn blés, og annað slagið flöktu um hann regnbogalitir. Norður eftir opnaðist útsýn milli Hágönguhnúks og Jónstinds yfir sléttlendi nokkurt norður að Þeistareykjum. Þar er þriðja brennisteinssvæðið. Klukkan var orðin 7. e.h., þegar við komum aftur að Reykjahlíð. Litlu síðar kvöddum við Pétur gamla og héldum sem leið liggur suður með Mývatni austanvert að Grænavatni. Í för með mér voru þeir Páll og Arngrímur. Vegur var slæmur, yfir sífelldar hraunbreiður, sem hafa runnið út í Mývatn og myndað hinar kynlegu smáeyjar innan um stararbreiður meðfram landinu. Við styggðum upp margar endur, sem nutu lífsins á andavísu við vatnsbakkana. Kl. 3 um nóttina náðum við loks að Grænavatni og höfðum verið lengi á leiðinni, enda var varla um annað að gera en fara fót fyrir fót á slíkum vegi. Mér er minnisstæðast úr þessari ferð, hversu mörg hlið þurfti að opna og loka. Þau eru á landamerkjum milli bæjanna, og svo hindra þau sauðfé í að rása úr einu heimalandi í annað, því að oft eru hliðin þannig sett, að hraunið lokar öllum öðrum leiðum — jafnvel sauðfénaði.

Heimilisfólkið á Grænavatni er í einu orði sagt „hamingjusöm fjölskylda". Tveir synir Péturs í Reykjahlíð, Jón og Arngrímur, höfðu gengið að eiga tvær systur Þorláks, fyrrum fylgdarmanns míns, og hann hafði ekki látið standa upp á sig og kvænzt einni af systrum þeirra. Allir

bjuggu þeir undir sama þaki og faðir Þorláks, og bjuggu blómlegu búi í sameiningu.

Um hádegi lögðum við af stað suður í Fremri-Náma, austan og vestan undir Bláfjalli og Hvammfelli. Leiðin lá SSA yfir hraunið, sem þekur allt láglendi austan Mývatns, og síðan upp yfir hæðirnar undir Bláfjalli. Þar skoðuðum við tvo litla, en mjög reglulega lagaða gíga. Úr báðum hefur runnið hraun ofan í dalinn fyrir neðan. Nokkru ofar komum við á slóð brennisteins-leiðangurs Burton's liðsforingja, sem hafði farið þar um fyrir nokkrum dögum. Þarna var ljómandi útsýni yfir Mývatn, til Kröflu og fjalla í grennd við hana, en í suðvestri grillti í Arnarfellsjökul í fjarska. Okkur þótti þessi leið erfið fyrir hestana, og ekki bætti úr skák, er við komum að hrauninu, sem hefur runnið frá Fremri-Námum, er þar gaus síðast. Hraun þetta hefur runnið eftir dalverpi nokkru milli Bláfjalls og Hvammfells og eyðilagt þar allan gróður utan lítinn „grænan hólma", sem er því sem nær umflotinn. Þessi litli gróðurblettur er kallaður Heilagsdalur. Þar völdum við bezta blettinn fyrir áningarstað og fengum okkur bita. Grasið var þó ekki beysið, aðallega sauðgróður, sem kallað er, eða lágvaxið birkikjarr og víðir, stórgert gras og blómjurtir. Kindur bíta þetta með áfergju, en hestar því aðeins, að þeir séu sárhungraðir. Fylgdarmaður minn hafði enga vatnshelda flík, en ég var í olíukápu, sem herra Kent, einn brennisteinsmanna, hafði gefið Páli. Við leituðum því í var undir kletti í gamla hrauninu, sem er undir gróðurlendinu, og tjölduðum yfir með olíukápunni og svipunum okkar. Þarna máttum við dúsa á aðra klukkustund. Óveðrið var svo æðisgengið, að við sáum ekki nema fáein

skref frá okkur. En okkur tókst að verjast bleytunni að mestu leyti, en ég held, að hestarnir okkar, holdvotir og skjálfandi, hafi orðið þeirri stund fegnastir, er þeir komust af stað aftur.

Það var komið fram undir kvöld. Vindur var suðvestanstæður, og rennblautir hnakkarnir voru allt annað en þægilegir, en óveðrið skall svo skyndilega á, að við höfðum ekki tíma til að spretta af hestunum. Við héldum áfram góðan spöl inn með hraunjaðrinum, unz við fórum að sjá ofan í gulleita lægð, sem brennisteinninn er í. Okkur kom saman um, að bezt væri að fara þangað fótgangandi, svo að við bundum hestana saman og tókum því næst stefnu á gulu skellurnar, sem svolítil gufa frussaðist úr annað slagið.

Eftir nokkurt príl bar okkur að reglulegast löguðum gíg, sem ég hef séð á Íslandi. Hann er ílöng skál, um hálf míla ummáls og 150 feta djúpur, kallaður Stóriketill. Barmarnir voru úr gjallkenndu basalthrauni. Úr sjálfum gígnum virtist ekki hafa runnið neitt hraun, heldur um sprungur skammt vestur af honum. Þar var mikil hraunspýja, en engar gjár sáust þar eða eldvörp, því að allt var slétt af hrauni. Aðalnámarnir eru norðan og austan á fjallinu, og á síðarnefnda staðnum ná þeir alveg upp á gígbrún; mótar jafnvel fyrir þeim í innanverðum gígnum að austan. Ég elti slóð þeirra námumanna, eins og ég hafði gert í Hlíðarnámum, og gróf víða eftir brennisteini. Brennisteinninn liggur ofan á kalk- og kísilleir eins og hjá Reykjahlíð. Víða eru í honum gipsmolar og hraunsteinar með skorpu utan á úr alls konar söltum. Sums staðar fann ég tveggja feta þykkt lag af hreinum brennisteini, en með-

alþykktin er líklega um hálft fet. Brennisteinninn nær hér yfir miklu stærra svæði en í Reykjahlíð, og ég hef fráleitt farið um það allt.

Að svo búnu gengum við aftur upp á hábunguna, en ekki var útsýnið upplífgandi. Austur undan lágu Mývatnsöræfi með svörtum skellum af nýju hrauni, en yfir þeim hvíldi þunn gosmóða, svo að þau sáust ógreinilega. Í suðurátt blöstu við Trölladyngjur. Handan þeirra gnæfði Herðubreið, og sindraði sólin enn á hvítum kolli hennar, en kveldskuggar grúfðu yfir gneypum og nöturlegum auðnum Ódáðahrauns. Í hásuðri voru Dyngjufjöll kafin þokuþykkum næturskýjum. Sviptivindar þyrluðu upp háum sandstrókum á aurunum austur undir Jökulsá. Illviðri var sem óðast að byrgja vesturloftið, og geigvænlegt húm seig á klettaklungrin umhverfis okkur. Það hefði dregið af gamanið að eiga að elta uppi hestana í óveðri á slíkum hrjóstrum. Við flýttum okkur því eins og við gátum til vesalings hestanna, sem hímdu skjálfandi af kulda. Svo riðum við löturhægt á móti hríðarveðri og sáum varla út úr augunum. Fötin frusu utan á okkur og hnakkarnir urðu klambraðir.

Klukkan tvö um nóttina vorum við komnir niður fyrir Bláfjall. Snjókoman var orðin að regni og svartaþoku. Þannig kókluðumst við yfir hraunið niður að Grænavatni. Við urðum vitanlega að fara hægt, og klukkan var orðin fjögur, er við náðum til bæjar. Þar beið okkar ágætur matur, sem þetta prýðisfólk hafði borið á borð fyrir okkur, áður en það gekk til hvílu. Við gerðum fæðunni góð skil, svo skrifaði ég dagbók mína og fór í rúmið. Um morguninn fleygði ég mér til sunds í vatninu, en eftir morgun-

verð bjuggumst við Páll til ferðar. Var förinni heitið til Húsavíkur, en þar gerði ég mér von um að geta slegizt í för með brennisteinsmönnum. Héldum við sem leið liggur meðfram sunnanverðu Mývatni og yfir Laxá, sem dregur nafn af hinni miklu laxagengd, sem þar er einkum í norðanverðri ánni. Við Laxá hitti ég gamlan kunningja, sem bauð mér til kaffidrykkju, og dvaldist mér þar góða stund.

*

Hér má geta þess, að Laxá kemur úr vestanverðu Mývatni og rennur stuttan spöl áður en Kráká fellur í hana. Frá Mývatni að Grenjaðarstað er mikil silungsveiði í ánni, en á þeim slóðum verður foss (Brúarfoss) í henni, sem er ekki laxgengur. En frá Brúarfossi til sjávar er einhver bezta laxveiði, sem til er á Íslandi, eins og margir enskir veiðimenn geta borið um. Laxá fellur til sjávar í Skjálfandaflóa skammt frá Húsavík.

Þegar komið er yfir Mývatnssand, liggur vegurinn yfir bungótt heiðarland. Af bungunni sunnan við lítið stöðuvatn, Langavatn, birtist okkur í sömu andránni gufustrókar frá hverunum á Reykjum, Norðuríshafið, sem leikur um norðurströnd Íslands, og loks Þeistareykjabunga, þar sem er þriðja brennisteinssvæðið.

Við riðum sem mest við máttum, því að enska gufuskipið gat verið á förum; við vissum ekki greinilega um ferðir þess. En þegar við komum að Mýrakvísl, varð ég harla glaður að hitta þar fyrir herra Kent, sem var að veiða lax. Hann sagði mér þau gleðitíðindi, að skipið væri ekki komið og allur rannsóknarleiðangurinn væri á Húsavík. Rétt

á eftir bar okkur að garði á Laxamýri. Það er reisulegasta býli, sem ég hef séð á landinu og hlýtur að hafa kostað stórfé á íslenzkan mælikvarða, því að húsið var byggt af dönskum handverksmönnum. Yfir útidyrum var útskorinn lax og æðarkolla úr tré, svo sem til að minna á helztu auðlindir eigandans. Hér fékk ég góða máltíð, sofnaði allrasnöggvast, en að svo búnu urðum við herra Kent samferða til Húsavíkur, og var mér tekið opnum örmum af leiðangursmönnum og kaupmanninum, hr. Guðmundsson.[1])

Leiðangursmenn höfðu orðið að bíða á Húsavík, af því að skip þeirra var orðið viku á eftir áætlun. Þeir héldu til í húsi sýslumannsins, sem stóð autt af einhverri tilviljun, og lifðu kóngalífi, einkum veiðimennirnir. Hygg ég þeir muni lengi muna og lofsyngja Laxá.

Auk hins þrautreynda ferðamanns, Burton's liðsforingja, var annar víðfrægur maður í hópnum, herra Baldwin, sem um langt skeið var með dr. Livingstone heitnum í Afríku. Bók hans, *Tólf ára veiðimennska í Suður-Afríku,* segir frá mörgum heillandi ævintýrum og veiðiferðum.

Húsavík stendur á fögrum stað undir Húsavíkurfjalli, austanhallt við Skjálfandaflóa. Skipalægi er gott nema í norðanveðrum. Víknafjöll vestan flóans setja mjög svip á útsýnið. Þau voru þakin snjó, þótt komið væri fram á sumar.

Ég hafði nú fetað svo lengi í slóð leiðangurs þeirra brennisteinsmanna, að ég gat ekki slitið hugann frá framtíðarhorfum *Norður-íslenzka brennisteins-félagsins.* Niður-

---

1) Hér mun átt við Þórð Guðjohnsen verzlunarstjóra, og má furðulegt heita, að höf. skuli afbaka nafn hans, því að allajafna hefur hann bæði staða- og mannanöfn rétt. — J. Ey.

staðan af umþenkingum mínum varð eitthvað á þessa leið: — Brennistein skortir vissulega ekki, hvorki í Hlíðarnámum né Fremri-Námum, og leitarmenn láta líka vel af Þeistareykjanámum. Leiðin milli námanna og þaðan til strandar er ekki svo löng eða erfið, að ekki sé fært að gera þar sæmilegan veg eða flytja brennistein á sleða að vetrarlagi. Ef félagið fer rétt af stað og heldur starfseminni á fárra manna höndum, eru allar líkur til, að þeir muni annars vegar bæta hag sinn og jafnframt bæta verðmætri útflutningsvöru við Ísland, sem þarf þess með. Verði hins vegar hlutabréf seld í kauphöllinni, er hætt við því, að fyrirtækinu verði íþyngt með of miklu fjármagni, svo að það verði ofurselt bröskurum, er hafi allt ráð þess í hendi sér.

Ég gisti fyrstu nóttina hjá þeim félögum í bezta yfirlæti, og samvistin við þá átti mikinn þátt í því að gera mér dvölina á Húsavík ánægjulega, en ég þarfnaðist hvíldar, og því tók ég þakksamlega boði herra Guðjohnsens kaupmanns, er hann bauð mér til sín.

Gestgjafi minn var hverjum manni alúðlegri, og ég veit satt að segja ekki, hvernig hefði farið fyrir brennisteinsmönnunum, ef þeir hefðu ekki notið góðsemi hans og fyrirgreiðslu. Það kom því verr við mig en orð fái lýst, er ég sá í skozku blaði eftir heimkomu mína, að einhver eða einhverjir úr hópi leiðangursmanna höfðu gerzt til þess að afflytja því nær alla hluti á Húsavík og m. a. fara móðgandi orðum um vínið, sem herra Guðjohnsen lét okkur í té af birgðum sínum og við drukkum allir af á heimili hans. Aðrir leiðangursmenn, sem ég hef síðan haft þá ánægju að hitta, hafa allir verið á mínu máli um það, að þetta væri til stórskammar.

Eftir nokkurra daga hvíld lagði ég upp frá Húsavík til þess að skoða hina frægu hamraveggi í Ásbyrgi, en herra Guðjohnsen hafði frætt mig á því, að þeir kæmust í samjöfnuð við Almannagjá. Systir hans og systursonur slóust í för með okkur Páli, svo að þetta var ánægjulegur hópur. Því miður gat enginn hinna farið með okkur; þeir vissu von skipsins á hverri stundu, og það gat ekki beðið þeirra. Leiðin í Ásbyrgi liggur um sviplítið heiðarland, Reykjaheiði. Er hún að mestu leyti bungótt háslétta, þakin fornum hraunum, sem sums staðar eru gróin hrísi og smágróðri. Vegurinn yfir heiðina kallast Bláskógavegur, og sannarlega er bláberjalyngið helzti skógargróðurinn á þessari leið. Af því er býsnamikið, og það slagar að hæð hátt upp í birkikræklurnar, sem sjást þarna á stöku stað. Hefði ekki verið glatt á hjalla í hópnum, hefði mér fundizt ferðin tiltakanlega daufleg, en nú fann ég ekki til þess. Um miðnætti komum við loks að Ási, litlu býli skammt vestan við Jökulsá. Þar drukkum við kaffi, keyptum lamb til slátrunar og héldum svo í Ásbyrgi um sólarupprás, og fylgdi bóndinn okkur. Ásbyrgi er V-myndaður dalur, 300 feta djúpur og kringdur standbjörgum úr basalti að austan og vestan, en „norðrið er opið", og þar gnæfir ílangur klettakambur eins og sæbrött eyja í sjálfu dalmynninu. Dalverpi þetta mun vera nokkuð yfir eina danska mílu að ummáli. Það er í barði á fornu hrauni, og álítur Burton liðsforingi og jarðfræðingur í för með honum, að Byrgið hafi myndazt við sævarströnd, löngu áður en sögur hófust, og séu veggir þess fornir sjávarhamrar. Sennilega hafa þeir rétt fyrir sér.

Í Byrginu er fegursti skógur, sem ég hef séð á Íslandi, þéttir runnar af birki og víði, 30—40 feta háir.

Fylgdarmenn sögðu okkur, að á vorin steyptust stórir lækir fram af hamrabrúnunum syðst í dalnum og mynduðu stórfenglega fossa. Við sáum líka, að þeir höfðu grafið sér farvegi á þremur stöðum, en þar voru nú sytrur einar. Þarna voru líka tvær djúpar gryfjur fylltar vatni og virtust þær grafnar af fossum í vorleysingum. Veðrið var yndislegt, og ilmandi björkin minnti mig á marga dýrlega stund, er ég var á labbi í Norðvestur-Ameríku.

Við settumst að innst í Byrginu og suðum lambakjötið alveg mátulega undir yfirumsjón samferðarkonu okkar. Er við höfðum matazt, hrópuðum við okkur hás til þess að vekja upp bergmálið, sem sennilega hafði sofið öldum saman í hinum fornu, gráleitu sjávarhömrum. Klukkan var því orðin 10 að kveldi, er við héldum loks heimleiðis. Samferðarkona okkar bar sig eins og hetja og sat hestinn af snilld, þótt hún hljóti að hafa verið dauðþreytt eftir langa reið á vondum vegi.

Við stönzuðum á smábýli, er nefnist Geitastaðir[1]) og fengum þar kaffi og geitamjólk að drekka. Til Húsavíkur komum við kl. 6 um morguninn. Leiðangursmenn voru þá að búa sig til ferðar að Dettifossi, allir nema Tennant og Baldwin, og ætluðu að koma við í Ásbyrgi í leiðinni. Ég átti notalega kveldstund með gestgjafa mínum, en varð feginn að ganga tímanlega til hvíldar. En ég hafði ekki lengi sofið, er ég var hastarlega vakinn af tveimur röddum, er létu kunnuglega í eyrum og skipuðu mér upp að rísa. Þessir næturhrafnar reyndust vera herra Slimond og herra Wight frá Leith, en þeim hafði ég kynnzt mér til

1) Nafnið ekki á korti. – J. Ey.

mikillar ánægju vorið áður. Þeir tilkynntu mér að eimskipið *Buda* væri komið á Húsavíkurhöfn. Við þessi tíðindi var ég fljótur í fötin og skipaði Páli að taka röskustu hestana og flýta sér eftir Burton og félögum hans með skrifaða orðsendingu og bréf, sem þeim höfðu borizt. Því næst hraðaði ég mér út í skipið til þess að bjóða hinum nýkomnu vinum mínum til morgunverðar.

Þegar mig bar að skipinu, kallaði herra Slimond til mín, að þeir væru að skreppa til Borðeyrar og hvort ég vildi koma með. Þeir voru tilbúnir að hala stigann upp, svo að ég þáði boðið umsvifalaust, og fimm mínútum síðar var skipið komið á hreyfingu, en við setztir að ósviknum, enskum morgunverði. Þegar skipið hafði tekið krókinn út fyrir Flatey, í mynni Skjálfandaflóa, opnaðist hin fegursta útsýn til hinnar fjöllóttu norðurstrandar Íslands. Veðrið var dásamlegt, ég var komin meðal gamalla vina og hafði nóg af nýlegum fréttablöðum að heiman, svo að næsti sólarhringur leið undrafljótt. Mér þótti jafnvel miður, er ég komst að því morguninn eftir, að við værum að sigla inn eftir Húnaflóa, en Borðeyri er í syðsta og vestasta horni hans. Þarna hafði herra Cockle skipstjóri, sem ég þekkti frá fornu fari, beðið í hálfan mánuð með 300 íslenzka hesta, en þannig stóð á, að vélin hafði bilað í skipi því, *Fifeshire,* sem herra Slimond leigði upphaflega til Íslandsferðar sinnar. Ég verð að bæta við til skýringar, að herra Slimond er algerlega einn um hituna í hrossaverzlun á Íslandi og hefur gert meira en nokkur maður annar til að efla þá verzlunargrein landsmanna. Frá því hann fór að hafa afskipti af þessum viðskiptum, er mér sagt, að hann hafi keypt fyrir full 50 000 sterlingspund í landinu. Þessir pen-

ingar hafa hjálpað mörgum Íslendingum furðanlega mikið til að bæta húsakynni sín, og ekki getur hjá því farið, að þeir hafi jafnframt glætt íslenzka verzlun yfirleitt og komið öðrum atvinnuvegum til nokkurs þroska.

Hestunum hafði öllum verið smalað í eina rétt, og í sama mund og *Buda* varpaði akkerum á Borðeyrarhöfn, var hinn óstýriláti farmur búinn til útskipunar, — en það er fremur erfitt verk, því að hestarnir eru ferjaðir á smábátum að skipshlið. Aldur þeirra er frá tveggja til fimm vetra, og má því nærri geta, að erfiðleikar og stympingar við að koma þeim að skipshlið, hala þá upp og koma á sinn stað í lestinni séu meiri en orð fái lýst. Meðan á útskipun stóð, fór ég í land með frú Slimond, systur hennar og herra Wight, og verð ég að játa að engu okkar geðjaðist sérlega vel að því, sem fyrir augun bar, hvorki staðnum eða fólkinu.

Borðeyri sjálf er frámunalega ómerkilegur staður eins og flestir hinna gróðursælli staða á Íslandi. Þeir eru hvorki nógu hrjóstrugir til þess að öðlast hið stórleita yfirbragð ýmissa annarra landshluta, sem ég hafði farið um undanfarna tvo mánuði, og ekki heldur nógu frjósamir til þess að verða unaðslegir ásýndum. Með hörkudugnaði af hálfu Slimonds, skipstjórans og nokkurra skipverja ásamt seigduglegri aðstoð landsmanna tókst loks að koma hrossunum í lestina, *Buda* sigldi út Húnaflóa og kom morguninn eftir til Húsavíkur. Þar stigu þeir brennisteinsmenn á skipsfjöl með allt sitt hafurtask. Herra Lock varð samt eftir, því að hann átti ýmsum erindum ólokið á Húsavík og Reykjavík. Ég kvaddi nú herra Slimond og förunauta hans með miklu þakklæti fyrir gestrisnina, tók í hendina á leiðang-

ursmönnum að skilnaði, og allir óskuðu hver öðrum góðrar ferðar.

Ásamt herra Lock klifraði ég ofan í bátkænuna, sem beið við skipshlið, og hélt til míns ágæta gestgjafa, herra Guðjohnsens, en hið góða skip *Buda* jók skriðinn áleiðis til Skotlands. Herra Lock, Guðjohnsen og systir hans ætluðu til Reykjavíkur, en ég hafði afráðið að fara suður Sprengisand og leggja lykkju á leið mína að Skaftárjökli. Okkur kom saman um að hafa samfylgd nokkurn hluta leiðarinnar, og var auðvelt að telja mig á að slást í för með þeim til Akureyrar, því að mig langaði til að sjá næststærsta kaupstað landsins, — borg verður hann naumast nefndur. Daginn eftir lögðum við af stað, herra Lock, herra Guðjohnsen, kona hans og systir, sonur hans ungur og fylgdarmaður, Páll, Olgeir og ég. Fyrst var ferðinni heitið til Mývatns, en þar athugaði ég brennisteinsnámana, sem ég hafði hreinsað þrem vikum áður. Gulleit húð hafði myndazt, en enginn teljandi brennisteinn safnazt.

Frá Mývatni héldum við til Akureyrar, fórum yfir Skjálfandafljót og kræktum svo norður að Goðafossi til þess að skoða hann. Foss þessi er ekki mikill í samanburði við Dettifoss. Fallið er um 30 fet, og Skjálfandafljót er miklu vatnsminna en Jökulsá. Annar og fegurri foss kvað vera ofar í fljótinu, um það bil hálfa aðra dagleið frá Goðafossi. Við gistum að Ljósavatni og héldum næsta dag sem leið liggur meðfram vatninu til Akureyrar. En þar við vatnið skildust leiðir og frú Guðjohnsen, sonur hennar og fylgdarmaður yfirgáfu okkur, en við riðum greitt upp á Ljósavatnsskarð. Í björtu veðri mun þar vera fagurt um að litast, en nú lá þoka langt niður í hlíðar og byrgði okkur alla

útsýn. Brátt bar okkur að prestsetrinu Hálsi, en þaðan lá leiðin niður í Fnjóskadal. Þar er fegursti birkiskógur, sem ég hafði séð fram til þessa, ef skógurinn í Ásbyrgi er undan skilinn. Því næst fórum við yfir Fnjóská og lögðum í brattann á Vaðlaheiði, fjallshrygginn austan Eyjafjarðar, andspænis Akureyri. Á háheiðinni var slík þokubræla, að öll von um mikilfenglegt útsýni, sem hlýtur að vera úr slíkri hæð, 2118 fetum, var að engu orðin, og við riðum því tafarlaust niður á Akureyri, en á leiðinni þurftum við að fara Eyjafjarðará á vaði. Það er aðeins fært um fjöru. Á Akureyri settumst við að í gistihúsinu og rákumst brátt á ýmsa kunningja, svo að ekki skorti gleðskap.

Enda þótt Akureyri sé ekki eins staðarleg og Reykjavík, er þar miklu betri höfn. Hefur hún skjól af Vaðlaheiði að austan, en Súlum og undirfjöllum Vindheimajökuls að vestan; þau eru allt að 3000 fetum á hæð. Bærinn stendur við suðurbotn Eyjafjarðar, er dregur nafn af Hrísey nær fjarðarmynninu. Verzlun er ekki eins mikil og í systurborginni, og kann það að stafa af hinum mörgu kauptúnum við firðina norðan lands, en Reykjavík og Eyrarbakki draga hins vegar undir sig mestöll viðskipti á Suðurlandi vegna hafnleysis á strandlengjunni. Byggðin á Akureyri stendur meðfram tveimur götum. Húsin eru úr timbri, og önnur gatan er svo nálægt flæðarmálinu, að stundum gengur sjór yfir hana, en hún hefur hlotið frægð af því, að við hana kvað vaxa stærstu tré á öllu landinu. Hér er þó aðeins um tvö eða þrjú reynitré að ræða, 25—30 feta há. Þau standa framan við hús, sem veit að firðinum, og eigandi þeirra er einn af helztu kaupmönnum á staðnum.

Vöxtuleiki trjáa þessara er að því leyti merkilegur, að í Reykjavík hafa allar tilraunir til trjáræktar mistekizt fram til þessa, enda þótt meðalhiti sé mun meiri þar en á Akureyri. Skýringin er líklega sú, að Akureyri er í skjóli, en Reykjavík liggur opin öllum stórviðrum af austri og vestri.

Skammt norðan við bæinn rákumst við á svarta kofaþyrpingu, og lagði þaðan andstyggilegan þef, sem gerði okkur þegar ljóst, hvaða iðja væri þar stunduð, enda var hún í fullum gangi. Úr fjarlægð hafði ég fundið þennan þef áður og vissi, að hann stóð í sambandi við þá arðsömu en ógeðslegu atvinnu að breyta hákarlslifur í lýsi. Ég ákvað nú að sjá, hvernig þetta færi fram, svo að við Páll réðumst til inngöngu. Fyrst gengum við eftir ranghala milli kagga, sem voru fullir af úldinni hákarlslifur, og lagði af henni argvítuga stækju í sólskinsmollunni, en við tróðum vasaklútum upp í okkur og ruddumst inn í bræðsluhúsið. Þar kraumaði hákarlslifur í hálfri tylft stórkatla yfir hægum eldi, og úr henni „smitaði" hið óþrifalega en verðmæta hákarlslýsi. En ógóður var þefurinn! Þrír sótugir bræðslumenn og einn unglingur, sem virtust una sér ágætlega, unnu að því að skara í eldana, hræra í lifrinni og ausa lýsinu ofan af, jafnharðan og það rann, í langt trog, en þaðan fór það sjálfkrafa í stórt járnkerald úti fyrir. Þaðan var það síðan látið renna í tunnur og flutt á þeim til hinna ýmsu staða í veröldinni, sem þarfnast þessa óhugnanlega feitmetis. Bræðslukarlarnir virtust steinhissa á því, að okkur fyndist grútarþefurinn eitthvað óþægilegur, og þeir skemmtu sér við að skerpa á lifrarkötlunum fyrir okkur, en við kunnum þeim litlar þakkir fyrir.

Um kvöldið heimsóttum við lyfsalann, en heimili hans

virtist vera samkomustaður allra skipstjóra, sem áttu skip á höfninni. Þar var það afráðið, að við legðum upp daginn eftir.

Hér er bezt að skjóta því inn í, að tvær höfuðleiðir eru farnar frá Norðurlandi til Suðurlands. Hin styttri, en jafnframt torfarnari, liggur yfir Sprengisand og hin lengri og greiðari yfir Stórasand. Herra Lock ásamt herra Guðjohnsen og systur hans höfðu ákveðið að fara Stórasand til Reykjavíkur, en ég vildi heldur fara eystri leiðina yfir Sprengisand, svo að ég gæti athugað Skaftárjökul. Enda þótt ég hefði hugsað mér að leggja snemma upp, var komið kvöld, er við losnuðum frá Akureyri, því að tíminn, sem fer í að kveðja, stendur jafnan í öfugu hlutfalli við stærð staðarins eða fjölmenni.

Við héldum nú aftur yfir Vaðlaheiði og komum að Ljósavatni í dögun. Þar hafði ég skilið eftir farangur minn og áburðarhesta. Svo riðum við upp með Skjálfandafljóti að Stóruvöllum. Skjálfandafljót fellur um breiðan, grösugan dal, en basaltfjöll halda að honum á báðar hendur. Þau hæstu verða um 1300 fetum hærri en fljótið. Eftir að við komum að Skjálfandafljóti, fórum við eftir breiðu graslendi um 25 mílna veg upp að Stóruvöllum, myndarlegu býli á grösugu landi. Fólk var allt í heyönnum, svo að mér varð reikað upp á hæðir nokkrar á bak við bæinn til þess að litast um, en þá dreif yfir skýjaþykkni, áður en ég komst upp á hæsta kollinn, svo að útsýni var mjög takmarkað.

Árla næsta morguns kom maður, er flutti þau tíðindi, að nýtt gos hefði brotizt út á Mývatnsöræfum. Þetta voru vissulega tíðindi, og með því að nú var sunnudagur, sendi

ég Pál á næsta kirkjustað til þess að leita nánari vitneskju hjá utansveitarmönnum, sem þangað kynnu að koma. Jafnframt lagði ég aftur af stað í fylgd með syni bónda upp á hæðir til þess að vita, hvað ég sæi. Ég var ekki kominn nema í miðjar hlíðar, er ég sá háan og mikinn, ljósleitan mökk í austri, og þurfti þá ekki framar vitnanna við. Af hæsta kollinum sá ég sex minni mekki í beinni línu við hinn stóra, en um það bil helmingi lægri. Gosmekkir þessir áttu sýnilega upptök á Mývatnsöræfum og risu þráðbeint upp í loftið, en breiddust út í kollinn eins og kynjaskuggar risavaxinna pálmaviða á þessum kyrrláta, haustlega morgni hvíldardagsins!

Af sjónarhóli mínum var stórkostlegt útsýni yfir Dyngjufjöll og til Kverkfjalla, en þau eldfjallasvæði eru bæði suður af Mývatnsöræfum. Á hvorugum staðnum bar samt á neinni ókyrrð, en hinn barðabreiði gosmökkur grúfði enn yfir Dyngjufjöllum, eins og hann hafði gert allt sumarið. Í Kverkfjöllum virtust engar breytingar hafa orðið á hinum þrennu gufustrókum, er ég hafði áður séð þar tilsýndar. Þétt móða hvíldi yfir sléttlendinu austur undan. Líktist hún mjög þoku, en var sennilega gufa og aska frá hinum nýju gosum. Dreif sorta þennan hægt í áttina til Vatnajökuls. Í þessum svifum hvarf stóri mökkurinn á Mývatnsöræfum, en eftir varð þunnt, dökkleitt móðuský; en ekki leið á löngu áður en mökkurinn þeyttist í loft upp á nýjan leik í þremur greinilegum sprengingum og varð nú enn hærri en áður. Ég flýtti mér nú heim á bæ, lét söðla hestana, og að vörmu spori riðum við á harðaspretti áleiðis til hinna nýju gosstöðva.

Um kvöldið náðum við að Grænavatni, og varð fagn-



*Sól og sunnanvindur yfir Vatnajökli. Litið um öxl úr Norðurlandi.* — (Burton, 1875).

aðarfundur með okkur Þorláki og mági hans. Gerði ég þegar ráðstafanir til þess að geta haldið til gosstöðvanna morguninn eftir, en sú ráðagerð fór í hundana sakir illviðris, sem hindraði gersamlega allar ferðir inn á öræfi. Ég var hamstola yfir töfinni, en þar við sat. Við urðum að bíða.

Kvöldið áður hafði borið mann að garði austan frá Grímsstöðum, handan Mývatnsöræfa. Hann sagði frá því, að sunnudaginn 15. dag ágústmánaðar, milli kl. 10 og 11 um morguninn, hefði fundizt snarpur jarðskjálftakippur á Grímsstöðum, og gekk hann frá norðaustri til suðvesturs, en jafnsnemma að kalla sáust reykjarmekkir yfir Mývatnsöræfum, og nýtt gos hófst þar á svipuðum slóðum og áður um vorið.

Hinn 17. hafði veðrið skánað svo mikið, að ég lagði upp til gosstöðvanna, og fylgdi Jón mér (Pétursson), sem hafði verið leiðsögumaður minn í Fremri-Náma. Við lögðum leið okkar eftir dalverpi nokkru í Mývatnsfjöllum, beinustu leið inn á öræfi. Nokkrir reykjarstrókar í fjarska gáfu til kynna, að við stefndum á gosstaðinn, og þá er við komum austur úr draginu, blöstu allt í einu við okkur 20 gosmekkir í röð. Nyrzt í röðinni voru tvö dökkleit hrúgöld með stuttu millibili. Úr hinu syðra þeyttust tveir svartir og þéttir reykjarmekkir, hnykluðust upp í loftið, en sló niður aftur fyrir vindinum og breiddust út sem þétt þokubræla á marga mílna svæði yfir hraunbreiðurnar austur undan, settust á hæðirnar eins og svartar, illsvitandi flyksur, en myrkvuðu lægðirnar með öllu. Úr hinum nyrðri granna stóð hár strókur af ösku og gjalli, sem gaf til kynna, að þar væri aðaleldvarpið, og meðan við störðum á ham-

farirnar, kvað skyndilega við brestur; allt fór í logandi bál, hver sprengingin af annarri þeytti stórum stykkjum hærra í loft upp en við mættum greina vegna sortans, sem yfir hvíldi, og jörðin nötraði undir fótum okkar. Hraunið vall yfir norðurbarm gígsins, og annað slagið datt hinn mikli eldstólpi niður, en hraunklessur einar og gjall þeyttust upp í loftið. Ég veitti því athygli, að *grjótflug* þetta var mjög breytilegt, stundum kom það í gusum eins og býflugnasveimur innan um reykjarmóðuna, varla yfir 100 fet upp úr gígnum, en þess á milli þeyttust upp miklir mekkir sem í sprengigosi og mátti heyra hvininn af þjótandi gjalldrífu í loftinu. Svo datt allt niður og hljóðnaði um stund, unz brothljóð heyrðist og nýr gígur opnaðist norðan undir hólnum og spýtti upp gusu af hvítglóandi kviku, er féll sem freyðandi fosslöður ofan á gamla hraunið — frá síðasta vori. Myndaðist þar þéttur reykjarmökkur og heyrðust miklir skruðningar, unz fagurrauðir lækir tóku að seytla eftir ójöfnum eldra hraunsins, safnast í polla við jaðra þess, glóa sem snöggvast, en sortna síðan.

Meðan við virtum fyrir okkur þennan undursamlega hrikaleik náttúrunnar, féll dökkleitt húm yfir, þótt ekki væri liðið fram yfir miðaftan. Við færðum okkur því á melþúfur nokkrar með hestana og skildum þá eftir, en melgróður er þarna mikill á söndunum. Sjálfir settumst við upp á hæð um það bil mílu vegar frá gígunum og tókum til nestisins. Sjónarsviðið var stórfenglegt, en ekki virtust hestarnir sérlega hræddir við gosið. Þeir stóðu um stund og horfðu á það; svo fóru þeir að bíta hinir rólegustu, eins og ekkert væri um að vera.

Ég gekk nú eins nærri gígnum og ég komst fyrir hit-

anum. Sá ég þá, að hann var í raun og veru þyrping dökkleitra hóla, er til samans mynduðu óreglulegan hring, en í miðju hans var stór gígskál, á að gizka yfir hálfa mílu ummáls og sennilega til orðin í lok vor-eldanna. Norðurbarmurinn hafði nú sýnilega brotnað, en í miðri skálinni stóð keilumyndað eldvarp, og úr því kom gosið. Þaðan gusaðist hraun annað slagið út um skarðið í norðurbarminum. Út um margar raufar á börmum eldvarpsins lagði hvítglóandi birtu innan frá, svo að efsti hluti þess sýndist standa í björtu báli. Og sem ég rýndi í þetta, birtust mér allt í einu tveir nýir gígar, annar norðan í rótum hins gjósandi eldvarps, hinn nokkru norðar, úti á sjálfu hrauninu. Af báðum stafaði hvítglóandi birtu, og heyrðust frá þeim urgandi brothljóð, en ekki gusu þeir mikið. Frá þessum tveimur gígum kom aðalhraunrennslið og fór allhratt yfir. Annað slagið lukti það um smáhæðir í gamla hrauninu, unz þær færðust í kaf og hurfu. Með því að myrkt var orðið af nóttu, gat ég ekki komizt nær eldvarpinu en í nokkur hundruð skrefa fjarlægð sakir hitans af hrauninu og hættulegra lofttegunda, svo að ég kveikti mér í pípu við næsta hraungúl og hélt til tjaldsins. Þar settist ég aftur á hátt sandbarð og horfði lengi á hinar voldugu lindir jarðeldanna, sem héldu uppi dýrlegri sýningu náttúrugerðra flugelda og beindu þeim í óstöðvandi straum til himins. Meðan dimmt var, hélt gígurinn áfram að brenna og drynja, en annað slagið heyrðust ferlegir sprengibrestir, sem skóku hina kuldalegu auðn allt í kring að dýpstu rótum. Um miðja nótt leit ég út til þess að sjá einu sinni enn hina ægifögru sjón; og enn hélt áfram að gjósa af fullum krafti og slíkum tilþrifum, að mér býðst varla tækifæri til að sjá

annað eins á lífsleiðinni. — Hinir ófrýnilegu sandar og hraunbreiður Mývatnsöræfa voru sveipaðir annarlegri birtu, sem sló roða á þokuþrútið loftið og þyngdi skugg-ana milli hraunkambanna, svo að svipur þeirra varð enn draugalegri en ella; og mitt í þessu eldspúandi breiðabæli stóð tjaldið okkar!

Talsverður blástur var af norðvestri, og hafði, sem betur fór, verið við þá átt allt kvöldið, svo að mér tókst að þræða mjóan rima milli hraunanna og komast í 200 skrefa fjarlægð við gíginn, sem var að gjósa. Frá „varðbergi" þessu átti ég hægt með að fylgjast nákvæmlega með gosinu. Hitinn var mjög mikill, þrátt fyrir þessa fjarlægð, en í kíki mínum gat ég greint, að eldstólpinn virtist myndaður úr aragrúa bráðinna smáagna. Í raun og veru er ómögulegt að lýsa því, sem fyrir augun bar, en ég gat ekki varizt þeirri hugsun, hversu óvenjuleg og þýðingarlítil þessi undrasýn væri í samanburði við stórgosin, sem annað slagið brjótast út í slíkum jötunfjöllum sem Vatnajökli og Skaftárjökli. Hversu ógurleg og gersamlega ótilgengileg hljóta ekki slík gos að vera! Já, það er skammt öfganna á milli: Þegar gosin standa sem hæst, er ómögulegt að komast nálægt þeim, og þess á milli fá menn að klöngrast krókloppnir og skjálfandi yfir grafir þeirra, unz þau ganga aftur — og sama sagan endurtekur sig.

En hvað sem þessu líður, fór ég á stúfana kl. 6 að morgni til þess að skoða hina rjúkandi gígaröð, sem sýndi stefnu aðalgjárinnar. Eins og áður er getið, myndaðist gjá þessi snemma um vorið og opnaðist á nýjan leik 15. ágúst 1875, og komu þar upp gos þau, er hafa sprengt og umturnað sléttunni í kring. Gíghólarnir höfðu hlaðizt upp 50—60

fet um nóttina, en gosið sjálft var að mínum dómi í rénun. Í næstu hólaþyrpingu suður undan voru þrír gígar. Hinn stærsti þeirra var þakinn ljósgulu áfalli, sennilega brennisteini og salmíaki. Þar rauk jafnt og þétt, en engin umbrot höfðu orðið þar nýlega. Þannig voru á allri sprungunni gíghólar með nokkru millibili; sumir ruku sem ákafast, og margar hliðarsprungur ruku líka, en ekki eins mikið. Sprungur þessar voru algerlega umkringdar heitu hrauni, nýlegu, og kringum þær hafði myndazt lægð, 2—4 mílur á breidd, og sums staðar 50 feta djúp. Á sléttunni í kring voru líka margar og djúpar sprungur. Þær lágu að mestu samhliða eldgjánni og urðu því fleiri og meiri, sem nær dró lægðinni, en á sjálfum lægðarbarminum skárust þær sitt á hvað, enda var jörðin þar alla vega sundur kubbuð og gengin úr skorðum. Allt sprungukerfið, sem rauk úr, virtist mér hafa spúið hrauni bæði um vorið og nú, í ágústmánuði. Sprungan endaði í mörgum smárifum, og á börmum þeirra voru víða brennisteins- og salmíaksskánir.

Með NV-sveljanda í bakið og sterka leðurskó á fótum tókst mér að komast á einum stað yfir hraunið, þótt heitt væri, og alveg að eldsprungunni um hálfa mílu frá suðurenda hennar. Hún reyndist víða 5—6 fet á breidd, sums staðar full af storknuðu hrauni, sums staðar galopin og gínandi. Á stöku stað voru brýr yfir hana úr gjalli og hrauni, er saltskorpa hafði setzt á, og mátti af því ráða, að þar hefði ekki gosið nýlega. Sums staðar höfðu slíkar brýr sprungið í síðustu umbrotunum í smámola með saltskorpum á, svo að ég hélt fyrst, að gjáin hefði rutt úr sér marglitu gjalli. Svo mikið er víst, að alls staðar þar, sem gosið hafði verið sérlega öflugt, höfðu myndazt hringar úr gjalli

og smágrjóti frá einu upp í mörg fet á hæð. Þar, sem gosið hafði varað lengst, höfðu hlaðizt upp keilumyndaðir hólar, er stóðu á sjálfri sprungunni og byrgðu hana. Þetta fannst mér allkynlegt, því að ég hefði álitið líklegra, að smágrjótið hrúgaðist upp í garða báðum megin sprungunnar í stað þess að mynda svona reglulegar keilur, stundum þvert á stefnu sprungunnar, sem gaus þeim. — En þar, sem sprungan var opin, rauk ákaflega úr henni illa þefjuð gufa, og miklir skruðningar heyrðust úr djúpinu. Dýptina gat ég ekki mælt, því að fastelja frá hrauninu, er ég stóð á, rak mig á flótta sem fætur toguðu, og satt að segja fann ég til svima af henni allan daginn.

Gjá þessi á Mývatnsöræfum hefur sömu meginstefnu og Mývatn sjálft, frá NNA til SSV. Hæðin er tæp 1000 fet yfir sjávarmál. Lengd gjárinnar er um 12 enskar mílur og hraunbreiðan frá henni er um 14 enskar mílur á lengd og líklega um 3½ mílu að meðaltali á breidd, þótt hún sé miklu mjórri á köflum, einkum syðst. Þetta nýja hraun, bæði frá vorinu og síðsumrinu, hafði flætt yfir gömlu hraunin og sandana og breytt stóru svæði af Mývatnsöræfum í algera eyðimörk. Sérstaklega lagði það undir sig mikinn hluta af gamla hrauninu úr Sveinagjá. Nýja hraunið virtist frábrugðið hinum eldri að því leyti einu, að í gömlu hraununum er ólivín, en það gat ég ekki fundið í hinum nýlegu, þrátt fyrir ýtarlega rannsókn í smásjá. Ég tók líka eftir því, að fram til þessa hafði enginn vikur komið úr gjánni, en einungis hraun, steinar, gjall og aska. Á gossvæði þetta má líta sem nyrðri miðstöð nýlegra eldsumbrota, en Öskjugjá sem hina syðri, því að bæði hafa sömu sprungustefnu, frá NNA til SSV, og falla því saman við megin-

sprunguna, sem talin er skipta Íslandi í tvennt frá norðaustri til suðvesturs.

Eftir að ég hafði tekið nákvæm mið á næstu fjöll með áttavita frá suðurenda sprungunnar, hætti ég mér tvisvar eða þrisvar yfir heila hraunbreiðu til þess að líta ofan í kverkarnar á eldgjám, sem höfðu gosið af miklum krafti, því að hæð og stærð gíghólanna máttu heita mælikvarði á ákafa gossins og gostíma. En þegar norðar dró, varð hraunið of breitt til þess, að slíkar ferðir væru á viti byggðar, svo að ég labbaði upp á hæð nokkura vestan við gjána til þess að fá yfirlit yfir gossvæðið. Eins og áður er nefnt, liggur gjáin eftir nýlega myndaðri sigdæld frá NNA til SSV. Hún hefst um það bil eina mílu norðan við veginn frá Grímsstöðum að Reykjahlíð og nær suður þangað, sem stefnan á Jörund er 19° N og Búrfell 349° NV. Mikil gos höfðu orðið á sjö stöðum og hlaðið upp keilumyndaðar hæðir með mörgum gígum. Er ég hafði lokið að skoða þá, sneri ég baki við hinni rjúkandi gígaröð. Þar var ekki fleira að sjá, og ferð mín allgóð orðin. Við snerum því til hesta okkar og fórum gagnveg yfir gamalt hraun, sem hefur að nokkru leyti runnið úr Sveinagjá og að nokkru leyti úr Mývatnsfjöllum. Riðum síðan sem leið liggur að Grænavatni og daginn eftir að Stóruvöllum.

Þaðan fórum við í afspyrnuroki, og fylgdi bóndinn okkur að Halldórsstöðum. Presturinn þar var nokkuð enskumælandi, og fengum við ekki að fara þaðan án þess að þiggja, súkkulaði, kaffi og brennivín. Að svo búnu kvöddum við Stóruvallabónda, sem hafði sýnt okkur gestrisni og tekið mjög hóflegt gjald fyrir.

Daginn eftir kvöddum við á Halldórsstöðum og héldum

að Mýri. Þar var gamall maður, faðir bóndans, og hafði hann fyrstur[1]) manna farið yfir Sprengisand, árið 1810, en fram til þess tíma höfðu allir, sem þurftu suður, farið yfir Stórasand. Gamla manninum þótti gaman að hitta mig og gaf mér fúslega lýsingu á leiðinni, er hann hafði ritað til leiðbeiningar ferðamönnum. Ég komst að því, að höfundurinn var orðinn 83 ára gamall. Að skilnaði keypti ég af honum spón, sem var sagður 50 ára gamall. Var hann svo listilega gerður, að hann skiptist í fimmtán parta, ef losað var um skrúfu. Ég keypti líka trékefli, sem hafði verið notað til að slétta með lín í fyrri daga, og loks viðvaningslega mynd af krossfestingunni saumaða í grænt vaðmál, og sagði gamli maðurinn það unnið af nunnum í íslenzku nunnuklaustri fyrir langalöngu, hann vissi ekki hvað löngu, en hann vissi það eitt, að dúkurinn væri „eldgamall“. Hann sagði mér enn fremur frá því, að þá er hann fór til Reykjavíkur í fyrsta skipti að sækja skreið, hefði ekkert skip komið til Norðurlands. Þá hefði kaffi og sykur kostað í Reykjavík 5 mörk pundið (um 1 s. 10½ d.), en fyrir ullarpundið fengust aðeins 15 skildingar (3½ d.). Núverandi verð á þessum vörum er, má ég segja, kaffi 3 mörk (1 s. 1½d.), sykur 32 eða 34 skildinga (6 d. eða 8d.) pundið, — en nú má fá 1 s. 1½ d. fyrir ullarpundið.

1) Of mikið sagt. Hér er átt við Ingjald dbrm. Jónsson (f. 1793 — d. 1883). — J. Ey.

VI. KAFLI

# Suður Sprengisand. – Ferðalok.

Ég lét Pál og Olgeir fara á undan með lestina, en sjálfur fór ég með syni gamla mannsins dálítinn útúrdúr til þess að skoða Aldeyjarfoss. Þar fellur Skjálfandafljót niður í h. u. b. 45 feta djúpa gjá í fornri hraunbreiðu. Foss þessi er miklu tilkomumeiri en Goðafoss og vel þess virði að taka á sig krók til að skoða hann.

Merkilegri en fossinn sjálfur er samt klettastallurinn, sem hann fellur fram af. Neðsti hluti stallsins er úr lóðréttum basaltsúlum, en ofan á þeim liggur óstuðlað hraunlag með stórgerðum kristöllum. Súlurnar eru úr mjög þéttu basaltbergi, en í hvorugu sýnishorninu, sem ég braut úr þeim, gat ég greint einn einasta kristall. Samt sem áður hallast ég að þeirri skoðun, að bæði hraunlögin séu af sömu gerð og álíka gömul.

Er ég hafði satt forvitni mína hjá fossinum, sneri ég á leið og reið léttan eftir Páli og Olgeiri. Náði ég þeim nálægt Íshólsvatni, og riðum við þaðan stuttan spöl heim að bænum Íshóli. Þar bjó ógiftur bóndi með þremur systrum sínum. Þarna fengum við góðan kvöldverð, urriða

og jarðepli, (Þau voru nú þegar sprottin til átu.) og nauðsynlega næturhvíld, áður en við lögðum upp á Sprengisand.

Enda þótt ekkert veiðist í Skjálfandafljóti, er mikil veiði í Íshólsvatni og Fiská, sem rennur úr því í Fljótið. Býst ég við, að þetta stafi af hinu grugguga vatni Fljótsins, sem er blátt áfram jökulvatn.

Þegar við hófum suðurferðina frá Íshóli, var norðvestanstormur og sandrok. Bóndinn á Íshóli fylgdi okkur. Í leiðinni heilsuðum við upp á bróður gamla mannsins á Mýri. Hjá honum fékk ég nokkra gamla spæni sem minjagripi, þar á meðal einn, sem mátti taka sundur í fimmtán hluta – eins og þann á Mýri, enn fremur gamla bænabók, þrykkta að Hólum árið 1742. Þessi maður átti heima í Mjóadal og hafði orð á sér sem heppinn grasalæknir. Ég varð þess var, að honum þótti gaman að sjá okkur, og áður en við fórum, gæddi hann okkur á hvannarótarbrennivíni, sem var mjög hressandi. Vindur var nú orðinn suðvestanstæður og rokhvass. Sandrokið ætlaði að gera út af við okkur, smaug jafnvel gegnum léreftshlífar á snjógleraugunum, svo að við urðum hálfblindir. Annað slagið var sandbylurinn svo þéttur, að við sáum ekki hvor annan, þótt ekki væri armslengd á milli. Vesalings hestarnir fengu líka að kenna á þessu. Á sumum urðu augun full af sandi, svo að við urðum að skola þau með vatni, þegar við komum í grashólana norðan Kiðagils. Þegar þangað var komið, lá leiðin um grýttar hæðir, sem víða voru grónar mosa og grashýjungi, svo að rykið varð ekki eins kveljandi. En fegnir urðum við að fara af baki um kvöldið í hinu óðfræga Kiðagili. Efstu grös norðan Sprengisands eru í

þessum dal, og þaðan er margra stunda þeysireyð í næsta hagablett.

Kiðagilsá rennur eftir dalverpi þessu og bjargar gróðrinum. Hún fellur í Skjálfandafljót fast hjá áfangastað okkar. Um kvöldið gerði fagurt veður, og gekk ég þá upp á Kiðagilshnúk, en þaðan er víðsýni mikið til Arnarfells-, Tungnafells- og Vatnajökuls og hinna ýmsu dökkleitu hnappa og hnúka, er standa upp úr snæbreiðum þeirra. Í norðaustri sá yfir landið norðan Vatnajökuls með hin eftirminnilegu kennileiti, sem ég hafði þrautskoðað af forvitni minni, og eyðisléttumar, er ég hafði þrammað yfir langar stundir, sárfættur og lúinn. Veðrið hafði dottið niður með sólarlaginu, og skörðóttar brúnir Dyngjufjalla urðu dekkri og dekkri undir hinni þungu reykjarmóðu, sem enn grúfði yfir þeim, en fjöll í nágrenni þeirra huldust smám saman húmi og máðust út, eftir því sem birtan dvínaði á vesturloftinu.

Tjaldið mitt stóð í dalnum neðan undir. Haustnóttin fór í hönd, og flögrandi norðurljós minntu mig á, að sumarferð minni væri senn lokið. Og sem ég leit yfir þetta gamalkunna landslag, — ef til vill í síðasta sinni, — varð ég svo hrærður, að ég gat ekki orða bundizt, og til þess að reyna að láta í ljós tilfinningarnar, sem brunnu mér í brjósti, mælti ég stundarhátt af allri þeirri hrifningu, er mér var í vöggugjöf gefin: „Farðu vel, kæra, gamla Norðurland. Framandi, en fullur eftirvæntingar kom ég að hrjóstrugum og harðleitum ströndum þínum, albúinn og ákafur að leita uppi undragripi þá, er þú geymdir í klakafylgsnum þínum. Og nú, er ég hef notið hinnar óbrotnu, fölskvalausu gestrisni þinnar, verð ég að kveðja þig. En

geyma mun ég hjartfólgna minningu um eldfjöll þín og hveri og jökla, og ofar öllu man ég hina alúðlegu og dyggilegu fyrirgreiðslu, sem hinir harðgerðu og hjálpfúsu synir þínir og dætur hafa mér í té látið."

Eftir að ég hafði létt af tilfinningum mínum með þessum einföldu orðum, renndi ég einu sinni enn löngunaraugum yfir landið og gekk því næst til hvílu. Innan um söknuð minn yfir því að kveðja Ísland, var ég í og með dálítið laundrjúgur, af því að ég, lítill karl í Alpaklúbbnum, hafði komizt þetta langt og það þrátt fyrir efasemdir Forbes,[1]) sem virðist hafa gert sér alranga hugmynd um Vatnajökul — eða ef til vill var ég hreykinn af viljafestu og þrautseigju, sem maður úr Alpaklúbbnum á til að bera, þegar hann hefur afráðið að kanna fjöll.

Nú víkur sögunni að ferðalaginu. Skömmu eftir dögun vorum við ferðbúnir og komnir á bak. En því miður hafði veður breytzt til hins verra, og var það mikið áhyggjuefni, því að við áttum fyrir höndum langt og þreytandi ferðalag um slæman veg, og máttum búast við ýmsum erfiðleikum, sem jafnvel hinum hraustustu þætti nóg um. Skýin voru þrútin og svört sem hrafnsvængir; napur vindur stóð beint í fangið, og annað slagið rak á svo sterka bylji, að við réðum okkur ekki. Það var hrollur í mér, en ég huggaði mig við það, að þegar öllu væri á botninn hvolft, ætti veðrið að vera eftirminnilegt, þegar ég væri að kveðja Ísland. Og

1) Charles S. Forbes, kunnur Alpaklifrari og jöklafræðingur, kom til Íslands sumarið 1859. Ritaði ferðabók, *Iceland; Its Volcanoes, Geysers and Glaciers.* London 1860. Forbes gekk á Heklu og sá þaðan til Vatnajökuls, sem hann segir, að enginn maður hafi stigið fæti á, og heldur að þangað muni aldrei nokkur maður komast! — J. Ey.

brátt komu mér í hug ýmsar skáldlegar hugmyndir, sem hituðu mér svo í hamsi, að um það leyti sem ég hafði hrundið svefni fyrir fullt og allt, var mér orðið vel heitt og þar af leiðandi miklu síður uppnæmur fyrir storminum.

Minn gamli vinur, bóndinn á Íshóli, sjálfum sér líkur með góðsemina — eins og Íslendingar yfirleitt, — hann sagðist ætla að fylgja okkur spottakorn enn áleiðis. Enda þótt mér væri óljúft að valda honum töfum, verð ég að viðurkenna, að þetta litla vinarhót og tillæti gladdi mig ákaflega mikið. Og þegar skilnaðarstundin kom, kvöddumst við með hlýlegu handabandi og drukkum sem hestaskál síðustu brennivínslöggina mína. Er við höfðum kvaðzt „góða ferð", á báða bóga, herti ég mig upp og sneri baki við töfrum hinna fjarlægu fjalla og stefndi í suðurátt með vætustorm og sandrok beint í fangið.

Leiðin lá fyrst um lága melahjalla, þreytandi reið og hráslagaleg, en innan tíðar bar okkur að nokkrum vörðum úr grjóti og umhverfis þær heilmikið af hrossbeinum. Ég held að hestunum okkar hafi ekki þótt þetta falleg sjón, og þeir virtust hálfkvumpnir við dapurlegar leifar bræðra sinna.

Páll sagði mér, að það væri algengur siður að skrifa vísu og skilja hana eftir í hrosslegg í svona vörðum handa næsta vegfaranda. Þetta ætlaði ég að gera líka, en þegar til kom, mundi ég enga viðeigandi, svo að okkur kom saman um, að við værum ekkert skyldugir til að fara eftir gömlum venjum. Það hefði líka allt komið fyrir ekki, þótt við hefðum verið allir af vilja gerðir. Eins og veðrið og umhverfið var þennan dag á Sprengisandi, hlýtur hver skáldskaparæð að frjósa, hversu auðug sem hún er.

Okkur var nú í mun að komast sem fyrst af þessum slóð-

um og ákváðum því að fara svokallaðan Arnarfellsveg, vestan Þjórsár. Með þessu móti gátum við farið upptakakvíslar Þjórsár hverja fyrir sig, en annars gæti svo farið, að við yrðum að bíða dögum saman áður en áin yrði reið hið neðra, þar sem hún er öll komin í eitt.

Við fórum milli Arnarfells- og Tungnafellsjökla, en hölluðum okkur þá vestur á bóginn og fórum eins nálægt Arnarfellsjökli og hægt var til þess að fá kvíslarnar sem minnstar. Þær hljóta að vera erfiðar í hitatíð, því að sumar þeirra voru vel á miðjar síður þrátt fyrir kuldanepjuna þennan dag.

Arnarfell gnæfði norðaustan[1]) megin upp úr jökulfláka, en þaðan liggja brattar snjóbrekkur upp að hinum dökkleitu tindum Arnarfells-hins-mikla, sem hlýtur að vera býsnahátt, rúma danska mílu frá jökuljaðrinum. Landið, sem við fórum um, var mjög ógreiðfært og ómögulegt að fara hart, enda vorum við 5 klst. (frá vegamótum) í Arnarfell-hið-mikla, en þar ætluðum við að gista um nóttina. Fjall þetta er margtindótt, úr móbergi, sem hefur veðrazt og grafizt alla vega sundur í nibbur og snaga, en gegnum það hafa brotizt gangar og innskot úr basalti. Við fundum góða hestahaga og mikið af hvönn undir hlíðum fellsins og einnig á bökkum árinnar austan þess.

Þegar okkur bar þarna að, kom styggð að miklum fjölda svana, sem höfðu fellt flugfjaðrirnar og gátu því ekki flogið. Þetta notuðum við okkur og hófum eltingaleik. Höfðum fjórar upp úr krafsinu.

---

1) Hér er eitthvað ruglað kennileitum. Eftir lýsingunni gæti verið átt við Klakk. — J. Ey.

Sem betur fór, var veður miklu hýrlegra morguninn eftir. Vindur var blásandi af norðvestri og sólskin með köflum, enda þótt skýjaflákar héngju á fjallabrúnum. Við tókum okkur því til og breiddum dót okkar og föt til þerris. Á meðan það var að þorna gekk ég upp á Arnarfell-hið-mikla, enda sá ég ekki eftir þeirri ferð. Það var að létta til, svo að ég sá bæði til Vatnajökuls og yfir sléttuna miklu milli hans og Arnarfellsjökuls. Héðan að sjá er Sprengisandur ristur mörgum ám og kvíslum, og renna allar í Þjórsá.

Úr Arnarfelli héldum við í glaðasólskini um mýrar og mosagróna jörð, miklu notalegri undir fæti en grjótið, sem við vorum á daginn áður. Yfir margar ár urðum við að fara, og víða var í þeim sandbleyta, enda voru þær talsvert dýpri sakir veðurblíðunnar, sem við áttum að fagna. Loks gátum við beygt í hásuður og komum þá von bráðar að sjálfri Þjórsá. Ferðamenn á suðurleið, sem fara eystri leiðina, eru vanir að fara vestur yfir Þjórsá á þessum stað [við Sóleyjarhöfða], en þeir verða stundum að bíða dögum saman vegna vatnavaxta, sem geta hlaupið í ána á öllum árstímum. Þess vegna þykir öruggari leið með Þjórsá að vestan, þótt hún sé lítið eitt lengri. Á þessum slóðum, austan ár, var margt fé á beit, eign bænda á Suðurlandi. Eins og nærri má geta, litum við á það sem fyrsta merki þess, að við værum komnir í Suðurland.

Eftir góða áningu við vaðið héldum við áfram ferðinni, en náttuðum okkur milli ánna Kisu og Miklalækjar. Segir nú fátt af ferðum okkar um mýrar, móa og melabungur, en í góðu veðri blasir Hekla jafnan við augum, og loks bar okkur að gömlu hrauni, sem runnið hefur frá Rauðu-



*Arnarfell hið mikla og Arnarfellsjökull.* (Burton, 1875).

kömbum vestan vegarins. Úr því lá leið okkar um hraun, vikra og svarta sanda, eins og svo oft áður.

Ég ætla ekki að þreyta lesandann með því að lýsa hinu fábreytta og ömurlega landslagi á þessum kafla ferðarinnar, og oft sat ég í hálfgerðri leiðslu á hestinum og rifjaði upp fyrir mér hin mörgu atvik, sem gerzt höfðu, síðan ég kom á eyland þetta. Ég lokaði augunum svo gersamlega fyrir umhverfinu, að oftar en einu sinni rankaði ég ekki við mér fyrr en klárinn minn hnaut um stein eða óvenjulega snörp vindhviða þeytti sandi framan í mig. Þá vaknaði ég allt í einu til meðvitundar um, að ég væri enn að ferðast, starði í kringum mig eins og villuráfandi vegfarandi innan um grafir dauðra, því að hið lífvana umhverfi hafði lamandi áhrif á mig. Stundum hvarflaði hugur minn úr þessu ríki þagnarinnar til hinna aðsúgsmiklu jötna (Öskjugjár o. fl.), sem enn voru til vitnis um orku og umbrot á löngu liðnum og gleymdum öldum í sögu veraldarinnar. Þeir áttu því þýðingarmikla og undursamlega hlutverki að gegna, að tengja nútímann við upprunasögu jarðarinnar.

En sleppum því. Seint um síðir komum við að bænum Skriðufelli, en því miður áttum við ekki góðu að mæta á þeim bæ, enda var bóndinn alþekktur nirfill. Í stað þess að taka okkur með rausnarlegri gestrisni, eins og við áttum að venjast annars staðar, þverneitaði hann um alla fyrirgreiðslu, bannaði okkur jafnvel að láta hestana okkar undir þak í gömlu gripahúsi. Förunautar mínir færðu honum til málsbóta, að hann gæti ekki að þessu gert, því að hann hefði orðið fyrir vonbrigðum í ástamálum. Tók ég mér þau tíðindi mjög nærri og vona af heilum hug, að

slík óhöpp verði ekki til að spilla öðrum landsins börnum.

Við urðum því að halda af stað, ekki erindi fegnir, en komum brátt að öðrum kotbæ, og þar var okkur tekið opnum örmum, fengum ágæta mjólk og annað, sem okkur vanhagaði um. Var það bæði vel þegið og veitt af góðum hug. Eftir stutta viðstöðu héldum við niður með Hagafjalli að Haga,[1]) og blasir Hekla vel við á þeirri leið, en eins og vant er, var tindurinn hulinn skýjum. Í Haga fengum við góða gistingu, en með því að mig langaði til að fá einhverjar minjar frá Geysi, ákvað ég að leggja leiðina um Geysi og Þingvelli til Reykjavíkur, enda þótt það sé nokkru lengra. Um morguninn héldum við því að Hruna, og þaðan lagði ég lykkju á leið mína til þess að athuga hvítan klett, sem stóð upp úr grasi gróinni hæð til hægri handar við veginn. Þetta reyndist vera gangfylling úr hreinu líparíthrauni, og mátti rekja hana á alllöngum kafla. Nefni ég þetta af því, að fram til þessa hafði ég aldrei rekizt á líparíthraun nema sem vikur. Presturinn í Hruna tók okkur tveim höndum og sleppti okkur ekki fyrr en við höfðum sagt honum frá ferðum okkar og þegið ágætt portvín. Það var liðið á kvöld, er við komum að Stóra-Geysi. Eitt aðalerindi mitt þangað var að spyrjast fyrir um kassa með steinum, sem ég hafði beðið bóndann í Haukadal að koma til Reykjavíkur árið áður, en hafði ekki komið til skila. En hann þóttist hafa afhent kassann samkvæmt fyrirmælum mínum, svo að ég gekk í að safna nýjum sýnishornum. og raunar var það ekki mikið verk.

---

1) Hér stendur Hagafell, en enginn bær er til með því nafni á þessum slóðum. — J. Ey.



*Strokkur hefur fengið venjulegan skammt af torfi og grjóti ...*
(Coles, 1882).



*Þingvallabær og kirkja, þegar Watts kom þangað.* – (Coles, 1882). Myndin virðist teiknuð eftir ljósmynd í ferðabók Watts: *Snioland,* bls. 144/145, og vitanlega var torfþak á öllum bæjarhúsunum.

Stóri-Geysir vildi ekki gjósa fyrir okkur, svo að við komum Strokk til með því að fóðra hann á venjulegum skammti af torfi. Hann gaus þá, en varla eins hátt og ég hafði orðið sjónarvottur að 1874. Um kvöldið héldum við áleiðis til Þingvalla, en með því að klukkan var orðin eitt um nóttina, er við komum þangað, vöktum við ekki upp fornvin okkar prestinn. Þegar hann kom á fætur og fann okkur sofandi rétt við bæjardyrnar með tjaldið sem yfirbreiðslu, ávítaði hann okkur fyrir að hafa ekki vakið sig. Sá mikli

sómamaður vildi allt fyrir okkur gera og gaf okkur ágætan morgunverð, enda vorum við gamlir vinir.

Eftir harða 5 klst. reið frá Þingvöllum komum við til Reykjavíkur, og settist ég aftur að heima hjá vini mínum, Oddi Gíslasyni. Hjá honum voru þá fyrir tvær skozkar konur, ungfrú Oswald og ungfrú Menzies, sem höfðu ferðazt víða um landið — hvergi smeykar. Mætti fordæmi þeirra e. t. v. hvetja aðrar konur til þess að leita sér hressingar og skemmtunar meðal hinna heilsubætandi háfjalla Íslands og alls ekki fráfælast að hafa einungis íslenzkan fylgdarmann.

Með póstskipinu barst mér úrklippa úr *Evening Echo,* ágústblaði, sem mér þótti gaman að. Þar var mjög átakanlega lýst heilsufari mínu og útliti eftir Vatnajökulsferðina. Enda þótt við hentum gaman að þessu í Reykjavík, þótti mér gremjulegt, að þetta kynni að valda vinum mínum óþarfra leiðinda og kvíða. Hafi sá verið tilgangur höfundarins, má hann vera stoltur af því, að honum tókst þetta með ágætum. En hver einasti maður í brennisteinsleiðangrinum mundi þegar í stað hafa lýst yfir því, að frásögnin væri uppspuni.

Ég hafði með mér tvenna fjalla- eða Alpaskó, en mér þótti þægilegra að ganga á íslenzkum leðurskóm. Ég var líka með tvo jakka, en þótti þægilegra að vera í þéttprjónaðri peysu og vesti, sem var miklu auðveldara að hreyfa sig í. Allajafna kann ég betur við mig með prjónahúfu en hatt, því að húfuna má brjóta niður til þess að skýla eyrunum, og hún fýkur síður í hvassviðri. Það má merkilegt heita, að svo hégómlegir smámunir skuli komast inn í Lundúnablöðin. Sannleikurinn er sá, að ég ritaði vel og

vandlega samið bréf með gagnorðri frásögn af ferð minni yfir Vatnajökul og heimsókninni í Öskjugjá, en afleiðingar gossins þar höfðu um þær mundir vakið mikið umtal á Englandi. Bréfi þessu kom Burton liðsforingi góðfúslega á framfæri við *Times*, og þar var það sett (því að prófökina fékk ég í hendur eftir heimkomuna), en einhverra hluta vegna, sem ritstjóranum mætti bezt vera kunnugt um, hafnaði greinin í pappírskörfunni. Annað og lengra bréf, sem ég sendi sama blaði, um gosin á Mývatnsöræfum var hins vegar prentað, eins og það kom fyrir. Það eru ýmisleg misræmi í hinum siðmenntaða heimi, sem virðast jafnvel óskiljanlegri en duttlungar náttúrunnar.

Með póstskipinu komu líka allmargir ferðalangar, sem ætluðu að skoða sig um í nokkra daga á Íslandi. Við efndum því til hópferðar með Oddi Gíslasyni til að skoða brennisteinsnámur nokkrar, sem hann á suður á Reykjanesi. Í hópnum voru þær ungfrú Oswald, ungfrú Menzies, herra Young frá Edinborg og ég.[1]) Þetta varð mjög ánægjuleg ferð, enda þótt leiðin væri mjög fábrotin, eins og fyrri daginn, yfir hverja hraunbreiðuna af annarri úr Krýsuvíkurfjöllum.

Við fórum um Vatnsleysuströnd, sem hefur nafn sitt af því, að þar fæst ekki ferskt vatn nema undir hraunjöðrum í flæðarmálinu. Víða er ekki hægt að komast að vatninu nema um fjöru, og þá er það hálfsalt, eins og gefur að skilja. Eftir tveggja daga ferðalag komum við að Kirkju-

---

1) Um þessa ferð segir ungfrú Oswald í bók sinni *By Fell and Fjord* (London 1882): „Við urðum allmörg saman, því að aðalfylgdarmaður hr. Watts, Páll Pálsson, ungur og kátur náungi, fór með okkur ásamt Oddi Gíslasyni og öðrum manni." — J. Ey.

vogi, en þar býr tengdamóðir Odds og mágur. Þar er einhver bezta bújörð á Suðurlandi, enda fylgir henni stærsta graslendi á Skaganum. Útræði er líka töluvert, enda stendur bærinn sunnan við litla spormyndaða vík, er nefnist Ósar. Okkur var mjög vel tekið, og daginn eftir riðum við suður að brennisteinshverunum á Reykjanesi, syðsta tanga á Skaganum. Veður var afleitt og útsýni lélegt. Hverirnir eru hins vegar merkilegir, og hafa hinar heitu og súru gufur — hér sem annars staðar — myndað stóra pytti með kalk- og kísilleir í. Sums staðar hefur leðjan harðnað í hálfgerðan ópal, og er hann víða rauðleitur eða rauðröndóttur af járnefnum úr hinu sundursoðna bergi. Brennisteinsmyndun er óveruleg.

Merkasta fyrirbæri á þessum stað kom fram þar, sem hraunið var ekki mjög sundur étið af gufum. Þar sem rifur voru í slíku bergi, sáust rauðleitar gufur koma upp um þær, og á sprungubarmana, sem loft náði til, settist rauð skorpa úr járn- og brennisteinssamböndum. Þetta fyrirbæri er við rætur gamals eldfjalls, en í brekkunni fyrir ofan eru vellandi pyttir með bláum, rauðum og grænum leirgraut í. — Meðan við stóðum við, rigndi án afláts og þokan varð svartari. Við vildum ekki eiga á hættu að villast þarna innan um hraun og leirhveri, svo að við gerðum dvöl okkar ekki lengri og flýttum okkur til baka heim í Kirkjuvog.

Daginn eftir héldum við heimleiðis, en með því að við vildum losna við að kóklast hraunleiðina í annað sinn, héldum við til Njarðvíkur, leigðum þar bát og sigldum á honum til Reykjavíkur. Þar hitti ég fyrir þá Cockle skipstjóra og herra Slimond, sem höfðu komið til baka með

póstskipinu, og sögðu þeir mér þau gleðitíðindi, að eimskipið *Queen* væri væntanlegt eftir viku og mundi fara aftur um líkt leyti og *Diana* gamla. Þetta þótti okkur öllum næsta góð tíðindi, því að við höfðum ákveðið að fara heldur með litlu seglskipi, sem var á vegum hrossakaupmanns, Ascham að nafni, en kveljast í hinum fljótandi hreinsunareldi, sem *Diana* var.

*Queen* kom á tilætluðum tíma, og ég kvaddi Ísland og íslenzka vini mína. Ég var ánægður með sumarstarfið og huggaði mig við þá tilhugsun, að nú hefði ég framkvæmt þá „heimsku", sem ég hafði þrisvar sinnum byrjað á. Ég tók sjóveikina eins og hvert annað böl og hafði tæpast náð mér eftir hana, er við komum til Edinborgar, tveimur dögum á undan *Diönu*, en hún hafði farið frá Reykjavík degi fyrr en *Queen*. Í Edinborg naut ég gestrisni herra Slimonds og fagnaði brezku mataræði og heimkomu í menninguna.

„Jæja," kynni lesandi minn að segja glottandi, „þegar öllu er á botninn hvolft geta þessi undur og býsn, sem þú sást, varla hafa vegið á móti öllu stritinu og harðréttinu." Þegar hér er komið, hlýtur lesandinn — eins og ég sjálfur — að vera orðinn dálítið þreyttur á hinum sífelldu hraunum, vikrum o. s. frv. Þess vegna skulum við báðir fagna því að geta tekið upp léttara hjal um önnur lífrænni og háfleygari efni. En við þessa niðurstöðu verð ég samt virðingarfyllst að hafa dálítinn fyrirvara: Enda þótt íslenzk náttúra sé þungbúin og eyðileg, er þar til mikils að vinna fyrir hvern og einn, sem ann vísindum og íþróttum. Þótt hraun, vikrar og sandar geti verið þreytandi, þá er hitt sannara, að þau geyma svo mikla fegurð í formi og litum, þegar þau eru skoðuð niður í kjölinn, að áhorfandinn

hlýtur að fyllast undrun og aðdáun. Það er furðulegt, að önnur eins fullkomnun skuli leynast í svo hrjúfu gervi. Þar er efni, sem marga stund má una sér við að rannsaka gaumgæfilega og dást að. Það eitt hefur margborgað þær mannraunir, sem fylgja því að fara yfir þveran Vatnajökul.

## Viðbætir.

Það gæti nú verið viðeigandi að líta um öxl og gera grein fyrir því áliti, sem ég hef myndað mér á Íslendingum sjálfum og rifja upp helztu einkenni landsins. Það er ekki ætlun vor að ræða hér sögulega eða bókmenntalega frægð þess, en Ísland er sérlega merkilegt fyrir jarðfræðinga og jarðeðlisfræðinga. Það liggur norðarlega á jarðeldabelti því, er hefst norður á Jan Mayen og nær þaðan yfir Ísland, Færeyjar, Stóra-Bretland, Azóreyjar, Madeira, Kanaríeyjar og meðfram vesturströnd Afríku beint suður í Suðurhafseyna Tristan d'Acunha. Tilsvarandi jarðeldasvæði er hvergi til nema á eyjum Kyrrahafsins. Hið undarlega sambland af frosti og funa á Íslandi gerir landslagið hrikalega fagurt, svo að ég efast um, að það eigi nokkurs staðar sinn líka í víðri veröld. Stutt dvöl á eyðiklungrum Íslands nægir til þess að vekja upp hina blundandi hjátrú, sem leynist jafnvel í hugskoti harðsvíruðustu efnishyggjumanna. Vér getum brosað að goðsagnalegri hjátrú hinna fornu Íslendinga, en jafnframt hljótum vér að viðurkenna, að enginn staður á jarðríki er betur til þess fallinn að skapa rótgróna trú á kynjaverum og forynjum en þeirra land, — hvort heldur dverga og blómálfa, dansandi milli bjarteygra smáblóma í skjóli við hraunkarla fornra hrauna — eða útburði

og óvættir, sem láta öllum illum látum með væli sínu og nágauli milli geigvænna hnúka og tröllslegra hamra, þar sem frost og funi berjast um völdin.

Þetta merkilega, litla eyland var numið fyrir 1002 árum [1876!] frá Noregi, enda þótt nokkuð sé óljóst um fyrsta landnám þess. Síðan komst það undir Danmörku, unz það fékk löggjafarfrelsi fyrir tveimur árum.

Íslendingar eru yfirleitt góðlynt og vinnusamt fólk, en eins og flestar aðrar þjóðir, sem eigi skipta við önnur lönd, eru þeir þrúgaðir af nægjusemi, sem getur verið góð fyrir heimilisfriðinn, en banvæn framtaki og framförum. En á síðasta ári hefur orðið vart framtaks, sem áður skorti áberandi. Þetta kann að stafa frá hinu nýfengna frelsi, nema Ameríkuferðir hafi verkað svona á þá, er eftir sátu. Að minnsta kosti veit það á gott fyrir Ísland, að útflytjendur þaðan hafa þegar reynzt góðum mannkostum búnir; og hin æðrulausa karlmennska þeirra, sem fylgdu mér yfir Vatnajökul, sýnir oss og sannar, að andi víkinganna, sem fóru til Grænlands og Ameríku löngu áður en Kólumbus fæddist, er ekki kulnaður í æðum niðja þeirra á Íslandi. Það er undarlegt, að því hrjóstrugra sem landið er, því traustari virðast átthagaböndin. Kemur þetta einkar glöggt fram í þjóðsöng Íslendinga, er þannig byrjar:

Eldgamla Ísafold,
ástkæra fósturmold.
— — —
Mögum þín muntu kær,
meðan lönd girðir sær
og gumar girnast mær.

Öll framleiðslustörf á Íslandi standa mjög til bóta, t. d.

ostagerð. Mjólkin er kostmikil og ágæt, og hví skyldi ekki mega gera úr henni osta, sem auðvelt væri að selja á meginlandinu? Úr íslenzkri ull, sem á engan sinn líka, mætti einnig vinna á ábatasamari hátt en gert er að vetrinum, því að mörg ágæt ullarplögg, sem mætti selja háu verði, er fyrir löngu hætt að framleiða. Búfénað mætti kynbæta að verulegu leyti, og með uppþurrkun má vinna mikið ræktunarland. Veðrátta á Íslandi er mjög stopul, en miklu mildari en ætla mætti af breiddarstiginu. Stafar þetta vafalaust af því, að landið er eyja, og frá Golfstraumnum, er jaðrar við suðurströndina. Sumar byrjar í júní og endar í september, og á því tímabili er veðurfar mjög líkt því, sem menn eiga að venjast í norðanverðu Skotlandi. Rigningar eru tíðar að sumrinu, einkum sunnan lands, en þrumuveður eru sjaldgæf, helzt að vetrinum. Á hálendinu er veðráttan enn þá breytilegri, og stundum hef ég orðið fyrir 60 stiga hitamun [á Fahrenheit = 33° á Celsius] milli dags og nætur á Vatnajökli, um 4000 fet yfir sjávarmál. Aðeins fáar tegundir grænmetis verða nú ræktaðar á Íslandi, — ögn af jarðeplum, rófum og hreðkum, en jafnvel kál á örðugt uppdráttar í hinu óblíða veðurlagi og nær sjaldan fullum þroska, að heitið geti. Skógargróður er aðeins kjarr af birki, víði og reyni á stöku stað, en hann er sjaldséður.

Helztu útflutningsvörur landsmanna er fiskur, lýsi, tólg, ull, hestar, sauðkindur og silfurberg, en vonir standa til, að brennisteinn bætist við á næsta ári. Innflutningur er að nokkru leyti munaðarvara og mjög margar daglegar nauðsynjavörur.

Látum þetta nægja. Látum sögu Íslands, þjóðlíf og verzl-

un eiga sig, en lítum betur á jarðeðli þess. Þar ber fyrst og fremst að nefna eldfjöllinn og gosefni þeirra, hveri, jökla eða jökulfjöll og áhrif þeirra á veðurfarið. Á Íslandi eru hvorki meira né minna en 22 eldfjöll, sem gosið hafa, síðan sögur hófust. Frægast þeirra er Hekla. Þetta mikla eldfjall gnæfir upp úr sléttlendi, sem er eytt og undirlagt af hinum tíðu gosum þess. Úr norðvestri að sjá, er fjallið sem ílöng keila að lögun, um 20 mílur ummáls og 5000 fet á hæð. Efst á því eru þrír hnúkar, myndaðir í nýlegum gosum. Gígarnir eru allir vestan og suðvestan á fjallinu, og hraunin hafa aðallega breiðzt í þær áttir.

Næstfrægast meðal íslenzkra eldfjalla er líklega Kötlugjá, sem hefur gosið ekki sjaldnar en fimmtán sinnum síðan árið 900. Nú er þar ekkert að sjá utan djúpan dal fylltan snjó, og skerst hann inn í miðjan Mýrdalsjökul. Katla er eitthvert stórkostlegasta dæmi um sprengigíg í veröldinni. Aðaleinkenni á Kötlugosum eru gífurleg vatnsflóð og óhemjumikil aska, sem þeytist upp í loftið. Hraungos hafa ekki orðið þar, svo vitað sé, en við rætur fjallsins sá ég margar hraunbreiður, er sýna, að fyrir eina tíð var Katla enginn eftirbátur nágranna sinna. Hlaupin úr Kötlu hafa oft flætt yfir 280 fermílna svæði og staðið yfir í marga daga. Þau stafa ekki eingöngu frá snjó, sem bráðnar við gosið, heldur að öllum líkindum af því, að stórar hvelfingar í eða undir fjallinu, sem vatn kann að hafa safnazt í árum saman, brotna og tæmast. En vatnshlaupin úr Kötlugjá eru alls ekki einsdæmi, þótt þau séu stórkostlegust, því að á 13. og 14. öld gusu öll eldfjöll sunnan lands vatni. Langstærsta gos, sem nokkru sinni hefur orðið í Norðurálfu, síðan sögur hófust, brauzt út í suðvesturhluta

Vatnajökuls, þar sem Skaftárjökull heitir. Eldfjall þetta hefur aðeins gosið í þetta eina skipti, svo vitað sé, árið 1783, og runnu þaðan tvær mestu hraunbreiður í Norðurálfu. Hæsta eldfjall á Íslandi er Öræfajökull, 5927 fet.[1])

Eldfjöll þau, er gusu svo ákaft vorið 1875, voru annars vegar Öskjugjá í Dyngjufjöllum, sem gerði mikinn skaða, og hins vegar 12 mílna löng gjá, er opnaðist á Mývatnsöræfum. En þessum stöðum hef ég lýst allýtarlega hér að framan og þarf því ekki að fjölyrða um þá.

Eftir að eldfjöllin hafa verið stuttlega nefnd, er rétt að athuga það, sem úr þeim gýs. Fyrst ber þar að nefna móbergið, sem er mjög áberandi þáttur í jarðfræði Íslands og annað hvort er myndað beinlínis af vatnshlaupum samtímis eldgosum eða smám saman af rennandi vatni og veðrum. Í öðru lagi eru hraunin. Þau eru annað hvort storknar steinelfur, sem runnið hafa frá gígum, eða vikur, sem þeytzt hefur í loft upp og fallið til jarðar sem eyðileggjandi drífa af blöðróttu gjalli. Þriðja afbrigði verður að nefna; það eru glerkennd hraun [hrafntinna]; en hér verður ekki farið lengra út í íslenzka bergfræði.

Um rennandi hraun ætla ég að nefna tvö dæmi: Annars vegar eru hinar voldugu hraunbreiður, sem runnu frá Skaftárjökli 1783. Er önnur þeirra 50 mílna löng og 15 mílna breið, hin um 40 mílur á lengd og 7 mílna breið, en þykktin sums staðar 500 fet. Samkvæmt útreikningi eru hraunbreiður þessar meiri að rúmmáli en allur skrokkurinn á Mont Blanc. Hraun þetta er úr basalti, mjög járn-

1) Mér er ekki ljóst, hvaðan höfundur hefur þessa tölu. Hún er röng. — J. Ey.

blandið og setur mikinn lit á Eldvatnið, sem rennur gegnum það. Hitt dæmið er hraunflóð það, er runnið hefur eftir hinum víðfræga Þingvalladal, þar sem alþingi Íslendinga var forðum haldið. Einhvern tíma aftur í grárri forneskju rann hraunflóð mikið frá fjallinu Skjaldbreið niður Þingvalladal. Hraunskorpa myndaðist vitanlega fljótt á yfirborðinu, en undir niðri hélt bráðið hraun áfram að renna út í vatnið, sem fyllir allan suðurhluta dalsins. Skorpan, sem um þetta leyti var orðin æðiþykk, varð því á huldu og seig niður í þá hæð, sem hún hefur nú, en hliðarglufur mynduðust við báða jaðra, Almannagjá og Hrafnagjá. Margar mjóar gjár eða sprungur eru líka hér og hvar í Þingvallahrauni og sums staðar mjóir hraunrimar á milli. Lögberg er einn slíkur rimi, sem aðeins er gengt í á einn veg, en girtur gapandi sprungum á hina. Þess vegna var hinu forna löggjafarþingi valinn þar staður. Þannig eru minnismerki Íslands, er koma í stað kastala- og klausturrústa í öðrum löndum, — blátt áfram klettarnir, eins og þeir koma fyrir, en helgaðir einhverju sögulegu afreksverki eða átakanlegu ástarævintýri.

Nú víkur sögunni til hinna heitu linda á Íslandi. Konungur þeirra, sjálfkjörinn, er vitanlega Stóri-Geysir. Hefur honum svo oft verið lýst, að ég þarf varla að leggja þar orð í belg. Prófessor Forbes reiknaði aldur hans af þykkt hverahrúðursins í skálinni umhverfis hann og taldi hann 1000 ára. Umhverfis Stóra-Geysi er fjöldi annarra hvera og lauga með mismunandi hitastigi og stærð. Uppleyst efni í vatninu eru líka mismunandi eftir berginu, sem vatnið hefur seytlað í gegnum. Heitar uppsprettur eru margar á Íslandi, í ýmsum landshlutum. Sumar þeirra hafa

sprottið skyndilega upp í sambandi við jarðskjálfta. Árið 1339 opnaðist skyndilega hver, sextíu fet í þvermál, að Mosfelli, og í jarðskjálftum þeim, sem fóru á undan gosinu mikla í Skaftárjökli 1783, mynduðust hvorki meira né minna en 35 nýir hverir.

Vér munum ekki fjölyrða meira um þessi merkilegu fyrirbæri, en víkja sögunni að hinum miklu snæfjöllum eða jöklum Íslands, sem eru stórvægileg atriði í jarðeðlisfræði landsins. Hinir helztu þeirra eru Vatnajökull, Arnarfells- eða Hofsjökull, Langjökull, Mýrdals-, Goðalands- og Eyjafjallajökull, Drangajökull og Glámujökull. Í öllum þessum skara, gátum vér ekki fundið neitt betra viðfangsefni en Vatnajökul, enda er hann þungamiðjan í þessu kveri. Til þessa var hann, að heita mátti, *terra incognita* og allt fram á þetta ár hafa allar tilraunir til þess að komast yfir hann mistekizt.

Vatnajökull er feiknaþyrping eldfjalla, ísa og snjóa, yfir 3000 fermílur að flatarmáli. Að mestu leyti er hann umkringdur eyðimörkum, sem hin eyðandi eldgos og jökulhlaup hans hafa myndað. Vatnajökull og undirfjöll hans eru mesta hálendi Íslands og, að minni hyggju, hið elzta, því að sum hraunin, sem þaðan eru ættuð, eru meira urin og af sér gengin en dæmi eru til annars staðar á landinu. Sunnan undir honum eru líka fornir sjávarhamrar, svo að þar hefur verið sjávarmál einhvern tíma áður en sögur hófust, samtímis því að margir landshlutar aðrir hljóta að hafa verið í kafi, — nema víðtækt landsig hafi orðið, síðan hið forna haf, er gnagaði rætur Vatnajökuls, hopaði að núverandi fjöruborði. Vatnajökli tilheyra langmestu fjallaklasar landsins, og þar er stærra svæði snævi þakið

og meiri snjór saman kominn en rúmast mundi á öllum öðrum jökulfjöllum Íslands til samans. Eins og vænta má, kemur sennilega helmingur allra straumvatna landsins þaðan. Ýmist falla þau freyðandi undan jökulsporðunum eða þau spretta upp sem lindir langt frá jökli, eftir að vatnið hefur síazt í gegnum sanda og hraun. Bergið í undirfjöllum Vatnajökuls er að mínu viti blátt áfram myndað af hinum fjölmörgu eldvörpum, sem þar eru saman hnöppuð. Þau hafa hrúgað hverju laginu ofan á annað úr ösku, sandi og samryskju, unz bunkinn var orðinn að fjalli svo háu, að meiri vetrarsnjór safnaðist á það en sumarhitinn entist til að bræða. Snjódyngja þessi fór þá að vaxa af sjálfu sér, unz skriðjöklar tóku að síga niður hinar bröttu og beru hlíðar undirfjallsins. Eldfjöll héldu áfram að gjósa, en áhrif eldsins á snjódyngjuna hljóta að hafa verið mjög takmörkuð og staðbundin. Gosefni eru nefnilega einhverjir allralökustu hitaleiðarar, sem til eru, og því hygg ég, að hraunrennsli, — nema ofurstór séu, geti runnið fullum fetum undir snjóbreiðum Vatnajökuls, líkt og á hafsbotni, án þess að valda stórfelldu umróti. Þannig varð þessi gífurlegi hálendisbunki til og hélt áfram að vaxa með hverjum vetrarsnjó og hverju eldgosi. Vatnajökull er óbrattur og atlíðandi sunnan megin, og þaðan verður að fara yfir 30 mílur norður á jökul til þess að komast á háhrygginn, 6150 fet yfir sjó. Ég hef alveg sleppt því að ræða um snælínuna á íslenzkum fjöllum, enda er hún næsta breytileg og ýmsum annarlegum aðstæðum háð. Á Vatnajökli er snælínan þannig miklu lægri að sunnan en að norðanverðu, af ástæðum, sem ég brátt mun greina. Hin síðustu ár virðist sem allur goskraftur á Íslandi hafi leitað hælis í Vatnajökli og nágrenni hans, enda hefur

víða orðið vart elds á þeim slóðum. Úr Kverkfjöllum sáum við rjúka, og Öskjugjá má líta á sem hliðargíg Vatnajökuls. Er ég í engum vafa um, að við hefðum fundið margar aðrar gosglufur, ef við hefðum fengið betra veður en raun varð á. En svo áköf er snjókoman á Vatnajökli, og svo lélegir hitaleiðarar eru öll eldvörp og það, sem úr þeim kemur, að fljótlega fennir yfir öll ummerki þeirra.

Eins og nærri má geta, hefur slíkt feiknaflæmi af ís og snjó sem Vatnajökull mikil áhrif á veðurfarið í sumum héruðum Íslands. Áhrifin lýsa sér í því, að sunnan hans rignir allt í kaf, en norðan hans er veðurlagið hagstæðara en ella mundi. Hinar snævi þöktu bungur Vatnajökuls draga til sín rakann úr suðlægum loftstraumum, breyta honum í snjó eða hagl og bæta á sínar breiðu herðar. Þannig þornar loftið, sem streymir yfir snæbreiður jökulsins, og niðurstaðan er sú, að sunnanvindar verða votir sunnan hans, en norðanvindar þurrir. Norðan jökulsins verður þetta alveg öfugt. En með því að megnið af þeim raka, sem Íslandi berst, er kominn sunnan úr hafi og borinn þangað af hinum hvimleiða óvini ferðamanna á Suðurlandi, — sunnanáttinni, þá liggur það í augum uppi, hvers vegna snælínan er lægri sunnan í Vatnajökli en norðan í móti. Þegar athugaðir eru skriðjöklar, sem kögra suðurjaðar Vatnajökuls, er auðsætt, að þeir hafa gengið fram til muna. Á einum stað munar jafnvel minnstu, að þeir hafi lokað samgönguleið eftir suðurströndinni. Að norðanverðu er þannig mál með vexti, að feiknastór skriðjökull hefur runnið 10—12 mílur út yfir yztu takmörk jökulsins, eins og hann er sýndur á korti [B.] Gunnlaugssonar fyrir 40 árum. Leiðin, sem þessi framtakssami maður fór, er nú gersamlega jökli

hulin, og hinn forni Vatnajökulsvegur er nú undir háum jökulbunka. Íslendingum þykir flestum leitt að kannast við, að jöklarnir gangi fram, og benda á jökulrispaðar klappir langt frá núverandi jökuljöðrum og jökulöldur, sem hafa sums staðar orðið eftir á sléttlendi framan undir helztu jökulfjöllunum. En slík rök koma að litlu haldi, þegar þess er gætt, að enginn veit, hvenær klappir þessar urðu rispaðar, og jafnvel ekki heldur nema þær hafi myndazt löngu áður en ísöld gekk í garð á norðurhveli jarðar. Og jökulöldurnar gætu verið myndaðar af stórjökli þeim, sem jafnvel hefur stráð okkar eigið land Grettistökum og jökulurðum. Enn fremur er það ekki óalgengt á Íslandi, að stórar jökulspildur skríði niður hlíðarnar fyrir áhrif jarðelda og rispi hinar harðari klappir, en spæni upp hinar mýkri í fallinu og skilji eftir stóra hauga af lausagrjóti, sem ómögulegt er að þekkja frá venjulegum jökulöldum. Getur þetta verið talsvert villandi. Satt er það, að íslenzkir jöklar ganga fram og hopa á víxl, en yfirleitt vinna þeir á, og það mundu þeir ekki gera, ef hin árlega ákoma færi ekki langt fram úr leysingunni. Segja mætti, að þetta stafaði af nokkrum harðindaárum í röð. Þetta er hugsanlegt, en íslenzkir jöklar eru ekki einir um það meðal norrænna jökla að ganga fram. Dr. Nordenskjöld hefur sýnt fram á töluverðan framgang jökla á Spítzbergen. Á Grænlandi er hin sama raunin á. Virðist þetta benda til, að eitthvað meira sé á seyði en framskrið einstakra jökla, sem jafnist upp með hopi annars staðar. Framskriðið gerist hraðar en svo, að hægt sé að skýra það með stjarnfræðilegum orsökum. En mætti ekki hugsa sér einhverja fremur smávægilega eðlisbreytingu, er gæti leyst gátuna?

Setjum þá svo, að norðan einhvers tiltekins breiddarbaugs taki jörðin á móti nákvæmlega jafnmiklum hita að sumrinu og hún missir vetrarmisserið og vetrarsnjór safnist nákvæmlega jafnmikill og sumarhitinn megnar að bræða, ef hann væri allur notaður til þess. Nú vita allir, að þar sem snæbreiða er fyrir hendi, endurkastar hún miklum hluta sólargeislanna, svo að þeir notast ekki til að bræða neitt, og raki sem þéttist yfir henni, hlífir líka snjónum fyrir áhrifum sólarinnar. Þannig mundi ný ísöld færast yfir og senda á undan sér nokkur köld ár sem fyrirboða, ef ekki kæmi oss til varnar hinir hlýju hafstraumar. Hin blessunarríku áhrif þeirra verða bezt metin, ef litið er á hitafar ýmissa annarra staða á svipuðu breiddarstigi. Miklar breytingar mundu verða á hita og veðurfari yfirleitt, ef t. d. Golfstraumurinn breytti stefnu sinni einhverja vitund. Ef hann hætti að ná alveg eins langt norður og núna, mundi hann annars vegar ekki hafa eins mikil áhrif á veðurfar Íshafsins og hafísinn, en hins vegar mundi hafið suður undan verða heitara, uppgufun aukast, úrkoman vaxa á hálendi heimskautalandanna og endurkast geisla sumarsólarinnar að sama skapi.

Það er dálítið einkennilegt, að amerískur rekaviður hefur farið minnkandi á norðanverðu Íslandi hin síðustu ár, en hins vegar hefur meira borizt af honum að ströndum Suðurlands. Þetta sannar að sjálfsögðu ekki neitt út af fyrir sig. En í samanburði við vaxandi jökla í norðlægum löndum er eðlilegt að spyrja um orsakir. Stjarnfræðilegar ástæður koma ekki til greina sem fyrr segir. — En haldi hinir norðlægu jöklar áfram að vaxa, væri það vissulega merkilegt rannsóknarefni, hvort hin dularfullu öfl, sem koma

af stað jarðskjálftum og eldgosum, kynnu einnig að hafa hrakið sjálfan verndarengil norðursins, Golfstrauminn, eitthvað af réttri leið.

Vér munum næst ræða lítillega um gosberg það, sem Ísland er myndað úr. Berggrunnur landsins er palagóníttúff, myndað ofan sjávar, en raskað og sums staðar ummyndað af gífurlega miklum hraunum úr möndlubasalti með fjölmörgum holufyllingum af geislasteinum. Víða er það kubbað af lóðréttum göngum og láréttum lögum úr basalti eða líparíti, og alls staðar blasir við röskun og misgengi vegna hinna mörgu jarðskjálfta, sem annað kastið hafa skekið Ísland að neðsta grunni. Ofan á þessu bergi liggja hraunstraumar, sem hafa runnið ofanjarðar, vikurkennt túff og samryskja, er myndazt hefur fyrir áhrif vatna og veðra. Um stefnu og halla berglaganna gildir engin ákveðin regla, allt er á ruglingi. Jarðvegur Íslands er eingöngu myndaður úr muldu og sundurleystu gosbergi og rotnuðum jurtaleifum. Á suðlægari breiddargráðum, mundi hann vera mjög frjósamur. Má nærri geta, hvílíkan óratíma það hafi tekið að leysa sundur þykkar hraunbreiður, sem nú eru algerlega orðnar að mold, þegar vér virðum fyrir oss hraunbreiður, sem runnu fyrir landnámsöld og nú eru vaxnar skófum, svo sem Þingvallahraun, en í raun og veru hefur varla veðrazt yfir hálfan þumlung af yfirborði þess.

Íslenzkum hraunum má skipta í tvo flokka, eins og í flestum öðrum eldfjallahéruðum, annars vegar basalthraun eða dólerít og hins vegar líparíthraun. Elzta basaltið er algengast sem innskotslög með möndlugerð. Dóleríthraunin eru yngst og frábrugðin hinum að því leyti einu, að í

gömlu hraununum eru ólivínkristallar, auk feldspats og ágíts, sem eru aðalefni nýju hraunanna.

Líparíthraun eru sjaldgæf í þeim héruðum Íslands, sem ég hef komið í. Sú skoðun hefur lengi verið ríkjandi, að band úr líparíti lægi eftir sprungu þeirri, er skipti Íslandi í tvennt, frá NA til SV eða frá Langanesi til Reykjaness, og þar áttu helztu gosstaðir að vera. En þetta er getgáta, sem á enga stoð í rannsóknum. Ef litið er á landabréfið, sést þegar, að mörg eru eldfjöllin utan við þetta líparítband. Að vísu eru flest hin yngstu á þessari línu, en svo eru líka Mýrdalsjökull, Eyjafjallajökull og Öræfajökull, sem nýlega hafa gosið, auk fjölda gamalla eldfjalla hingað og þangað um landið, og mætti því láta sér detta í hug, að í stað einnar stórrar sprungu væru þær nokkrir tugir í bergkápu landsins.

Líparít í umbreyttri mynd ætla ég finnist hjá Heklu og milli hennar og Geysis, en einkum í grennd við Rauðukamba. Mér er sagt, að helzt væri að leita líparíts, ekki í vikurformi, á Snæfellsnesi. Norðan Vatnajökuls sá ég ekki líparíthraun, en þau kynnu að vera falin þar undir nýlegu gosrusli. Hrafntinna er algeng í smáflísum umhverfis eldfjöll, en finnst óvíða í föstu bergi. Eini staður, sem ég hef fundið hana þannig, var í Pálsfjalli í miðjum Vatnajökli. Fjall þetta er, sem fyrr segir, eingöngu úr hrafntinnu, en mjög mismunandi að útliti.

Í íslenzkri hrafntinnu eru sjaldan hinir fögru feldspatkristallar, sem einkenna svo mjög bikstein hjá Arran (í Skotlandi), en í sumum afbrigðum sjást í smásjá litlir kvartskristallar, mjög sprungnir. Þá ber og að líta á vikurinn úr Öskjugjá í fyrra sem eins konar hrafntinnu, þrátt fyrir

hina kynlegu gerð hans. Hið örsmáa dust, sem barst frá gosinu til Noregs annan páskadag, líktist glerdufti, og jarðfræðingar komust að þeirri niðurstöðu, að eldfjallið hlyti að hafa gosið feiknmiklu af hrafntinnu. Með hliðsjón af hrauni úr Vesúvíusi er mér nær að halda, að margt hinna elztu hrauna í báðum löndum séu mjög skyld líparíti og porfýr. Einkum gætir þess í fornu hraungrýti úr Vesúvíusi, að kristallarnir hafi myndazt úr ókristallaðri eða hálfkristallaðri hraunkviku. Í þeim hraunum gætir mjög leucitkristalla, er svara til ólivínkristalla, sem mjög gætir í fornum hraunum á Íslandi, en hvorug þessara steintegunda sést, að heitið geti, í nýlegum hraunum, hvorki á Íslandi eða Ítalíu.

Ég verð nú að láta hér staðar numið. Þykist ég viss um, að ýmislegt hafi ég skrifað, sem ekki er þess virði að lesa. En með því að hér er skráð eina lýsingin á Vatnajökli, sem til er, og á þeim hluta Ódáðahrauns, sem ég fór um, þá vænti ég þess, að þeir sem á annað borð lesa frásögn mína, trúi mér til þess að hafa gert hana eins sanna og rétta og mér er unnt.

# Nafnaskrá

*(með hliðsjón af nafnaskrá höfundar).*

